# ÍSLENZKAR

# RJETTRITUNARREGLUR

EPTIR

HALLDÓR KR. FRIÐRIKSSON.

GEFNAR ÚT

AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENNTAFJELAGI.

---

REYKJAVÍK 1859.

PRENTAÐAR Í PRENTSMIÐJU ÍSLANDS.
EINAR ÞÓRÐARSON.

# FORMÁLI.

Þótt nokkrum mönnum sýnast kynni það mál og efni lítilsvert, sem eptirfylgjandi klausur um geta, þá má eg eigi samt verða þeim samdóma; því að eg sje daglegana, hversu tungan vor, og henni samfara góðir siðir feðra vorra ganga til þurrðar og úreldast meir og meir.

Eggert Ólafsson.

*Mjer kemur það alls eigi óvart, þótt sumir kunni þeir enn að verða á voru landi, eins og á dögum Eggerts lögmanns Ólafssonar, er eigi þyki það mikils-varðandi, að samdar sjeu reglur fyrir íslenzkri rjettritun; þeir munu margir enn, er láta sig lítils varða, hvernig orðin eru rituð, eða hvaða búnað þeir velja hugsunum sínum, hvort orðin og orðmyndirnar eru rjettar eða rangar; þeir láta sem allt sje undir efninu komið; en þeir hinir sömu gá eigi þess, að hvert það smíði, sem vel er frá gengið í hverju einu, verðskuldar meira lof, en það, sem óvandaður er fráganguriun á, þótt efnið sje hið sama í báðum smíðisgripunum; þeir gá eigi þess, að sje óvandaður frágangurinn á orðum og orðmyndum, er mjög svo hætt við, að efnið og niðurskipun þess sje eigi svo vandað, sem vera bæri, því að sá, sem er hirðulaus að sumu leyti í verkum sínum, hann mun naumast vandvirkur í sumu; þeir gá eigi þess, að vilji þeir eigi fella niður tungu sína, sem nú hefur gengið hjer á landi, að öllu eðli sínu óbreytt, í því nær þúsund ár, og sem mörgum hefur þótt svo fögur og fullkomin, verða þeir að gefa gaum að hverju einu atriði hennar, eigi einungis að setningunum og setningarlaginu, heldur og að orðunum og orðmyndunum, og þá líka rithættinum; því að orðin, orðmyndirnar og rithátturinn er hvað öðru svo nátengt, að sje eitt af því aflagað, þá aflagast hitt með. Það er reyndar satt, að bágt mun verða, að semja þær rjettritunarreglur, er allir fallist á; því að hver hefur sína*

*skoðun á því, hver rithátturinn sje rjetthafðastur í íslenzku, og því er það, að sinn er rithátturinn hafður á hverri bókinni; og er það þó merkilegt, að vjer skulum eigi vera komnir svo langt áleiðis enn, að allir hafi sama ritl.átt. Í fornöld, gullöld íslenzkunnar, er reyndar eigi að sjá, að neinar eiginlegar rjettritunarreglur hafi verið samdar af neinum. Hin fyrsta ritgjörð í þá áttina hefur sjálfsagt verið sú, er getur um í Snorra-Eddu II, bls. 4—6, að þeir hafi samið Þóroddur rúnameistari og Ari prestur Þorgilsson hinn fróði († 1148); en sú ritgjörð er nú gjörsamlega týnd og glötuð, svo að ekkert er vitað, hvernig hún hefur verið löguð, eða hversu umfangsmikil, nema það sem í Eddu stendur; og lítur þá svo út, sem ritgjörð þeirra hafi verið íslenzkt stafróf, og hverjir latínustafir væru rjettræðir í íslenzku, og því áþekk þeim tveimur ritgjörðum, sem samdar voru nokkru síðar, og sem báðar hljóða um stafrófið. Báðar eru þær prentaðar í Snorra-Eddu II, bls. 10—61. Hin fyrri þeirra (Sn.-Ed. II, 10—43) heldur Dr. Svb. Egilsson að samin sje rjett eptir dauða Ara prests hins fróða, eða á árunum 1150—1160, en hin síðari (Sn.-Ed. II, 44—61) um 1200; sjá eptirmála við „Ritgjörðir tilheyrandi Snorra-Eddu", Reykjavík 1848. Líks eðlis er „Málfræðinnar grundvöllur" (Sn.-Ed. II, 62—92) eptir Ólaf hvítaskáld. Það er nú hvorttveggja, að ritgjörðir þessar eru mestmegnis um stafrófið, og hvaða stafir sjeu rjettræðir og hafandi í íslenzku, en eigi neinar eiginlegar og almennar reglur fyrir rjettritun; enda var eigi við því að búast, að þær reglur, sem í þeim felast, yrðu teknar af almenningi, með því eigi var neitt prentað, og ritgjörðirnar því komust að eins í hendur fáum mönnum. Eptir það veit jeg eigi til að neinn hafi samið neinar reglur um íslenzka rjettritun, þangað til vice-lögmaður Eggert Ólafsson († 1768) tók sig til og samdi algjörðar reglur fyrir henni; en svo fór um þær, að þær komust aldrei á prent, og eigi veit jeg til, að nokkur hafi tekið þær upp, enda mundu þær nú þykja heldur óviðkunnanlegar í sumu. Sá, sem næst ritaði um það efni var Rask heitinn, auk þess sem hann sýndi fram á það í verkinu, eða í bókum þeim, sem hann gaf*

*út eða starfaði að, bæði málfræðisbókum sínum og öðrum, hvern ritháttt hann hjeldi rjettastan í íslenzku, þá hefur hann og gjört grein fyrir aðalreglunum í „Lestrarkveri handa heldri manna börnum", Kaupmannahöfn 1830. Það var hvorttveggja, að hann var manna færastur til þessa starfa, enda hafa ýmsir tekið hans rithátt; þó virðist sá galli á þeim reglum, að hann eigi hafi gætt þess, hvernig tungan nú er orðin, heldur einungis haft fyrir augum, hvernig hún var til forna, og virðist jafnvel hafa farið of mikið eptir upprunanum eða frummyndum orðanna, og sem sumar hverjar aldrei munu hafa komizt inn í íslenzkuna. 1835 kom fyrsta árið af Fjölni, og voru þar nokkrar nýbreytingar á rjettrituninni frá því, sem verið hafði áður; en í næsta árinu var tekinn upp algjörlega nýr ritháttur, og í því árinu, bls. 2—37, og svo í 3. árinu, bls. 17—18, eru reglur þær, er útgefendur Fjölnis vildu laga ritháttinn eptir, og sem þeir fylgdu í Fjölnis 2.—6. ári. Þeir settu þær reglur, að rita skyldi sem næst framburðinum. Þetta var með öllu ný uppástunga; en Íslendingar eru heldur vanafastir; enda er það kunnugt, hvernig rithætti þeim var tekið á Íslandi; margir hnjátuðu í útgefendurna, þótt ómaklega, og kölluðu slíkan rithátt sjervizku eina, og það sumir hverjir, er litla eða jafnvel enga hugmynd höfðu um íslenzka rjettritun. Í 7. ári Fjölnis var þá tekin upp aptur hin almenna rjettritun, þó með talsverðum breytingum, eða rjettar sagt lagfæringum, og er sami grundvöllurinn fyrir rithætti þeim, sem hafður var á þremur síðustu árum Fjölnis, og fyrir rjettritunarreglum mínum, og finnast ýmsar ritgjörðir í 7. og 8. ári Fjölnis, er lúta að íslenzkri rjettritun. Að jeg geti alls þess, er jeg veit til að ritað hefur verið og prentað um þetta efni, skal geta þess, að í 4. ári „Ármanns á Alþingi", Kaupmannahöfn 1832, bls. 66—83, er „Leiðarvísir til að kenna börnum að lesa", eptir stiptprófast Á. Helgason, og á sú ritgjörð skylt við þetta mál að því leyti, sem þar er skýrt frá, hverjir stafir höfundinum virðast óþarfir í íslenzku. Aptan við „Nýtt stafrofskver handa minni manna börnum", Reykjavík 1853, eru* „Fáeinar greinir um rjetta ritan

nokkurra stafa og orða í íslenzku“ *eptir S. G.; og 1856 samdi stud. theol. Magnús Jónsson og ljet prenta hjer í Reykjavík* „Leiðarvísir til að rita rjett íslenzku“[1].

*Aðalorsökina til þess, að vjer Íslendingar eigi höfum allir einn rithÁttinn, tel eg þá, að unglingunum á námsárunum eigi hefur verið kennd nein rjettritun, svo að þeir hafa orðið að smíða sjer hana sjálfir, annaðhvort fyr eða síðar.*

*Jeg hræðist alls eigi þá mótbáruna, að rithátturinn sje svo lítils varðandi, að eigi sje tíma til þess verjandi, að semja reglur um hann; því að allir skynsamir menn, er láta að nokkru til sín taka, hvernig fer um tungu vora, hvort hún er svívirt og aflöguð eða ekki, þeir munu játa og verða að játa, að það sje í raun rjettri áríðandi atriði, að einn sje rithátturinn hafður af öllum Íslendingum, og hann sem samkvæmastur eðli tungunnar; og hví mundi hann vera minna metandi hjá oss Íslendingum, en t. a. m. hjá Frökkum eða Englendingum? Að minnsta kosti gat mjer aldrei dottið í hug, að láta þá mótbáruna hamla mjer frá, að rita íslenzkar rjettritunarreglur. En þó var jeg næsta tregur til, að taka til samnings þessa bæklings, og það sökum þess, að jeg fann, hversu miklir örðugleikar eru á því, að semja slíka bók, svo að hlíta megi, og hefði að öllum líkindum aldrei hætt mjer út í það, hefði jeg eigi verið hvattur til þess á marga vegu, enda dettur mjer eigi í hug, að ímynda mjer, að jeg hafi sigrazt á öllum þeim örðugleikum, sem á því eru. En hversu ábótavant sem þessum bæklingi er, hugga jeg mig við það, að kenni einhver sig síðar mann til, að semja aðrar betri rjettritunarreglur, geti rit þetta orðið þeim hinum sama til nokkurs stuðnings, og það eigi all-lítils.*

*Það eru að eins fáein atriði í bók þessari, sem mjer þykir þörf á um að ræða, og er þá fyrst að geta þess, að jeg læt hjer*

---

[1]) *Síðan þetta var ritað, hefur* kandíd. phílós. *Guðbrandur Vigfússon ritað grein* „um stafrof og hneigingar“, *sem prentuð er í 17. ári „Nýrra Fjelagsrita“, Kmh. 1857, bls. 117—166, sem lýtur að sama efni.* *Höfundurinn.*

*fylgja með útskýringu hinna almennu hugmynda málfræðinnar, og hef reynt til, að skýra þær með dæmum úr íslenzkunni sjálfri; en enginn skyldi ímynda sjer, að jeg ætlist til, að þetta skuli vera eiginleg málmyndalýsing; en því gjörði jeg það, að eigi varð hjá því komizt, að hafa málfræðisleg orð í rjettritunarreglunum sjálfum, og þau hefðu almúgamenn alls eigi skilið, og bókin þeim því orðið gagnslaus, ef skýring þeirra orða eigi hefði fylgt með; en nú ímynda jeg mjer, að skynsamir almúgamenn geti að minnsta kosti haft töluverð not af bókinni, ef þeir vilja. Þá þóttist jeg og geta bætt úr skorti þeim, sem hjer hefur verið á haganlegri skýringu hinna málfræðislegu hugmynda, bæði fyrir þá unglinga, sem í skóla eiga að fara, og aðra, er nema eiga aðrar tungur, og er jeg sannfærður um, að skýring þessi greiðir eigi all-lítið fyrir náminu síðar; því að hversu vel sem þessar hugmyndir eru skýrðar fyrir unglingum með útlendum tungum, verða þær þeim næsta torskildar; en jeg tel það víst, að þær verði þeim miklu auðskildari við þessi dæmi úr íslenzkunni sjálfri. Að jeg hef haft hin íslenzku orðin, til að tákna með hugmyndir þessar, í stað hinna latínsku, þykir mjer engrar afsökunar þurfa, og það því síður, sem hin latínsku orðin standa hjá hinum íslenzku í skýringunni. Skammstafanir þær, er jeg hef haft á þessum málfræðislegu orðum sumstaðar, vona jeg að eigi valdi neinum örðugleika eða misskilningi fyrir lesendurna, einkum ef þeir kynna sjer skýringuna vel, t. a. m. þótt* núl. *sje haft fyrir* núlegur *eða* núlegs, þál. *fyrir* þálegur *eða* þálegs, atv. *fyrir* atviksorð, *og annað því um líkt.*

*Að jeg hef greint* æ *og* œ, *þykir mjer óþarft að rjettlæta meir, en gjört er í 5. greininni, en þess vil jeg geta, að vel getur það verið, að fleiri orð eigi að rita með* œ *en jeg hef til tínt; og sama má, ef til vill, segja um* y, ý *og* ey; *en jeg vildi eigi telja önnur orð en þau, er mjer þótti víst að rita skyldi með* œ; *en með þann staf eru þeir örðugleikar á, að það eru svo fá fornrit, er greina* æ *og* œ, *og því meiri örðugleikar eru á því fyrir mig, að telja upp öll þess konar orð, sem jeg eigi hafði nema prentaðar bækur að fara eptir, og það sumar hverjar*

*eigi svo vel út gefnar, eða áreiðanlegar, sem óskandi væri. Miklu áreiðanlegri hefði sú upptalning orðið, hefði mjer gefizt kostur á, að skoða sjálfur handritin. Það er einnig athugavert, að þótt eitthvert orð sje ritað með* œ *í einhverju einu handriti, þá verður þó eigi talið víst fyrir það, að það orð skuli svo rjettilega ritað. Því að þetta hljóð hefur verið nokkuð á reiki, og sjálfsagt sumir nefnt* œ, *er aðrir nefndu* æ, *og* æ *skyldi vera eptir uppruna, og því mun standa eins á* œ *í sumum orðum, t. a. m. þegar ritað er* lœgi *í „Ágripi af Noregskonungasögum", í X. bindi Fornmannasagna, fyrir* lægi, *eins og* y, *t. a. m. í* mykill *fyrir* mikill, *í sumum bókum,* kyrkja *fyrir* kirkja, *o. s. frv., og því má alls eigi telja það sem órækan vott fyrir* œ, *þótt svo kunni að finnast ritað í einni bók, ef uppruni virðist vera móti þeim rithætti; þá fyrst verður slíkur ritháttur áreiðanlegur, ef hann finnst í flestum þeim bókum, sem greina* æ *og* œ, *eða að minnsta kosti fleiri en einni. Um einstök sjaldhöfð orð hef jeg getið þess, hvar þau sjeu, eigi til þess að sanna með* œ, *heldur til þess að sýna, að orðið sje til, t. a. m. þegar jeg vitna til Njálu, er alls eigi greinir* æ *og* œ, *heldur ritar bæði hljóðin* ę.

*Þess skal hjer geta, þótt þess varla gjörist þörf, að jeg hef eigi nefnt alla þá staði, þar sem hvert orð kemur fyrir; því að það hefði verið óvinnandi verk um mörg, og eingin þörf, nema, ef til vill, við stöku orð; og við þau orð, sem mjer þótti þess þörf, hef jeg nefnt alla þá staði, þar sem mjer var kunnugt að þau fyndust; jeg hef við flest orð að eins til greint svo mörg dæmi, sem mjer þótti þurfa, til að sanna með ritháttinn.*

*Til að sýna, að sömu hljóð eða náskyld komi fram í sömu orðunum í öðrum tungum, skyldum íslenzkunni, hef jeg í 10., 13., 14. og 16. gr. borið mörg orð saman við gauzku, engilsaxnesku, ensku, þýzku, dönsku og sænsku, þar sem jeg hef fundið sömu orðin í þessum tungum, og má það vera til mikillar sönnunar hljóðinu í íslenzkunni, ef sama hljóðið, eða því skylt, finnst í öðrum tungum, er raunar sjeu af sömu rót og íslenzkan, enda þykir mjer það víst, að fjöldi orða sje kominn úr engil-*

*saxneskunni inn í tungu vora, eða að minnsta kosti hljóð þeirra lagað eptir henni; lætur það og að líkindum, þar eð svo margir af landnámsmönnum komu frá Írlandi og Skotlandi, og höfðu sumir dvalið þar all-lengi áður. Hin gauzku orðin hef eg tekið eptir* „H. C. de Gabelentz et Loebe: Ulfilas, voluminis II. pars prior. Glossarium linguae Gothicae continens. Lipsiae 1843", *en hin engilsaxnesku eptir* „J. Bosworth: A. dictionary of the Anglo-Saxon language. London *MDCCCXXXVIII*".

*Í upptalningum orða kann það að þykja ósamkvæmni, að jeg hef sumstaðar samskeytt orð fyrir aptan aðalorðið, einkum í 10., 13., 14. og 16. gr., en þó eigi öll eða alstaðar. En þá vil jeg geta þess, að jeg ætlaði mjer eigi að telja upp önnur orð en hin ósamsettu; því að það er auðsætt, að orðið á eins að rita, hvort sem það er skeytt saman við annað orð eða ekki; en hin samskeyttu orðin hef jeg sett fyrir aptan, þar sem mjer þótti það eigi liggja nógu beint við, af hverju orði þau væru leidd, eða þá til að skýra aðalorðið, einkum ef það er sjaldhaft.*

*Þá þótti mjer og bæði rjettara og ljósara, að segja merkingar allra fágætra orða, skáldaorða, og allra þeirra, er önnur orð hafa líka mynd, en ólíka merkingu, og vona jeg til, að það verði eigi talinn neinn galli á bókinni, þótt merkingin sje eigi sett við þau orðin, sem öllum eru kunn, og sem eigi verður blandað saman við önnur orð, eða eru neinum misskilningi bundin í nokkru efni.*

*Mörgum kann að þykja, að jeg sje æði-margorður í sumum greinum, er jeg tek upp sömu reglurnar við hvern stafinn fyrir sig, t. a. m. er jeg tel upp við hvern samhljóðanda, hvar hann skuli rita tvöfaldan, og þeim þyki rjettara, að jeg hefði dregið þær reglur saman í eina grein. En því gjörði jeg það, að bæði fannst mjer það rjettast í sjálfu sjer, að tína allt til um hvern stafinn á einum stað, og reglurnar þá fyllstar, og líka ímyndaði jeg mjer, að almúgamenn mundu þá hafa meiri not bókarinnar en ella.*

*Verið getur, að mjer hafi eigi heppnazt, að hafa aðgreiningarmerkin og önnur teikn svo greinileg, sem verða mætti, en þó*

*held jeg, að svo sje frá þeim gengið, að þau hvergi geti valdið neinum misskilning. Þess vil jeg að eins geta, að jafnaðarmerkið (=) í orða-upptalningunum, t. a. m. í 10., 13., 14. og 16. gr., táknar, að jeg líti svo á orðið, sem á undan [= stendur, sje hið sama og það, sem á eptir jafnaðarmerkinu stendur, en ekki eiginlega leitt af því; þannig t. a. m. tel jeg, að* leysingi *sje sama orðið og* lausingi, *nema hvað það hefur fengið hljóðvarpið af* au. *Að öðru leyti skal þess getið, að þau orðin, sem standa í millum [ ], tákna rót orðs þess, sem á undan fer, en eigi einmitt þá mynd orðsins, sem hið afleidda beinlínis sje myndað af; t. a. m. þegar stendur 1. persóna eintölu þálegrar tíðar í framsöguhætti, þótt orðið á undan rjettast væri leitt af fleirtölunni, þá vona jeg, að það valdi eigi neinum misskilningi; því að meginhlutinn er að öllu eins í eintölu og fleirtölu þeirra orða; aptur á móti, ef fleirtalan er frábrugðin eintölunni, og orðið á undan er leitt af meginhluta fleirtölunnar, þá er fleirtalan sett á millum [ ], og sömuleiðis ef meginhlutinn er að einhverju skertur; þannig stendur t. a. m. við* drykkja *[vjer* drukk-um*], en eintalan er* drakk, *og meginhlutinn því öðruvísi; við* hlœgilegur *stendur [vjer* hlóg-um*], af því eintalan er að eins* hló.

*Þá mun sumum þykja undarleg stafrófsröð sú, er jeg hef farið eptir, og sem getið er neðanmáls við 1. grein; og skal jeg í því efni geta þess eins, að auk þess sem mjer þykir sú stafrófsröð hin eðlilegasta í sjálfri sjer, þá hefði hin vanalega stafrófsröð verið mjög svo óeðlileg í þessari bók í niðurskipun greinanna. Það liggur svo sem í augum uppi, að eðlilegast er, að tala um alla hljóðstafina hvern á eptir annan, og svo samhljóðendurna sjer; en úr því jeg gat eigi farið eptir hinni vanalegu stafrófsröð í niðurskipun greinanna, þótti mjer óviðkunnanlegt, að hafa aðra stafrófsröð í orða-upptalningunum; enda getur það engum misskilningi valdið, ef menn að eins kynna sjer stafrófsröð þá, sem jeg hef.*

*Jeg má eigi skiljast svo við þetta mál, að jeg eigi lýsi þakklæti mínu við herra* Dr. H. Scheving, *er fyrir orð mín las yfir handrit mitt, og með mannúðleika og velvild gaf mjer margar góðar bendingar og leiðbeiningu. Sömuleiðis verð jeg að þakka herra* kand. philol. Jóni Þorkelssyni *fyrir aðstoð þá, er hann hefur veitt mjer, einkum við samninguna á orða-upptalningunum í 10., 13., 14. og 16. grein.*

Reykjavík í maí 1857.

H. Kr. Friðriksson.

---

# SKAMMSTAFANIR Á BÓKANÖFNUM.

Ad. = Arinbjarnardrápa, í Egilssögu Skallagrímsonar. Reykjavík 1856. Talan merkir vísu.

Alex. = Alexanderssaga. Christiania 1848. Talan merkir bls.

Atlak.[1] = Atlakviða. Talan merkir vísu.

Atlam. = Atlamál. Talan merkir vísu.

Alv. = Alvísmál. Talan merkir vísu.

Band. = Bandamannasaga. Kmh. 1850. Talan merkir bls.

Barl. = Barlaams og Jósaphatssaga. Christiania 1851. Talan merkir bls.

B. H. = Orðabók Bjarnar Halldórssonar. Kmh. 1814.

B. Hít. = Bjarnar saga Hítdœlakappa. Kmh. 1847. Talan merkir bls.

Dropl. = Droplaugarsona saga. Kmh. 1847. Talan merkir bls.

Eb. = Eyrbyggja saga. Kmh. 1787. Talan merkir kapítula.

Eg. = Egils saga Skallagrímssonar. Reykjavík 1856. Talan merkir kapítula.

Fas. = Fornaldarsögur Norðurlanda. Kmh. 1829--30. Rómverska talan merkir bindi, en hin serkneska bls.

Fms. = Fornmannasögur. Kmh. 1825—1837. Rómverska talan merkir bindi, en hin serkneska bls.

Fofn. = Fofnismál. Talan merkir vísu.

Fóstbr. = Fóstbrœðra saga. Kmh. 1852. Talan merkir bls.

Frump. = Um frumparta íslenzkrar tungu í fornöld, eptir Konráð Gíslason. Kmh. 1846. Talan merkir bls.

Fsk. = Fagrskinna. Christiania 1847. Talan merkir bls.

Gh. M. = *Grönlands historiske Mindesmærker.* Kmh. 1838—1845. Rómverska talan merkir bindi, en hin serkneska bls.

Ghv. = Guðrúnarhvöt. Talan merkir vísu.

Gkv. 1. = Guðrúnarkviða fyrsta. Talan merkir vísu.

---

[1]) Til allra Eddukvæðanna er vísað eptir: *Den ældre Edda, udgivet af P. A. Munch. Christiania 1847.*

Gkv. 2. = Guðrúnarkviða önnur. Talan merkir vísu.
Grág. = Grágás. Kmh. 1852. Rómverska talan merkir deild, en hin serkneska bls.
Grett. = Grettis saga. Kmh. 1853. Talan merkir kapítula.
Grg. = Grógaldr. Talan merkir vísu.
Grímn. = Grímnismál. Talan merkir vísu.
G. Súrs. = Gísla saga Súrssonar. Kmh. 1849. Talan merkir bls.
Hamd. = Hamdismál. Talan merkir vísu.
Hamh. = Hamarsheimt. Talan merkir vísu.
Harb. = Harbarðsljóð. Talan merkir vísu.
Harms. = Harmsól. Viðey 1844. Talan merkir vísu.
Háv. = Hávamál. Talan merkir vísu.
Heil. v. = Heilags anda vísur. Viðey 1844. Talan merkir vísu.
Helg. Hjörv. = Helga kviða Hjörvarðssonar. Talan merkir vísu.
Helg. Hund. 1. = Helga kviða Hundingsbana fyrri. Talan merkir vísu.
Helg. Hund. 2. = Helga kviða Hundingsbana önnur. Talan merkir vísu.
Herv. = Hervararsaga. Kmh. 1847. Talan merkir bls.
Hýmk. = Hýmiskviða. Talan merkir vísu.
Höfuðl. = Höfuðlausn Egils Skallagrímssonar í Egils sögu. Reykjavík 1856. Talan merkir vísu.
Ísl. s. = Íslendinga sögur. Kmh. 1843 og 47. Rómverska talan merkir bindi, en serkneska talan bls.
Ísl. dr. = Íslendinga drápa eptir Hauk Valdísarson, á 748, í 4. í safni Á. M. Talan merkir vísu.
Járns. = Járnsíða. Kmh. 1847. Talan merkir bls.
Lb. = Líknarbraut. Viðey 1844. Talan merkir vísu.
Lilja, kvæði prentað í *Finni Johannaei historia ecclesiastica Islandiae,* 2. bindi, bls. 398—446. Talan merkir vísu,
Lokas. = Lokasenna eða Œgisdrekka. Talan merkir vísu.
Merl. 1. = Merlínusspá 1. í *Annaler for nordisk Oldkyndighed* 1849, bls. 14—38. Talan merkir vísu.
Merl. 2. = Merlínusspá 2. í *Annaler for nordisk Oldkyndighed* 1849, bls. 39—74. Talan merkir vísu.
NgL. = *Norges gamle Love.* Christiania 1846 – 1849. Rómverska talan merkir bindi, en hin serkneska bls.
Nj. = Njáls saga. Kmh. 1772. Talan merkir kapítula.
Ólafsdr. = Olafs drápa Tryggvasonar. Viðey 1832. Talan merkir vísu.
Ól. h. = Ólafs saga hins helga. Christiania 1849. Talan merkir bls.

Plac. = Placidusdrápa. Viðey 1833. Talan merkir vísu.

Rekst. = Rekstefja, kvæði prentað í *Scripta historica Islandorum,* 3. bindi, bls. 243—276. Talan merkir vísu.

Rímb. = Rímbegla. Kmh. 1780. Talan merkir bls.

Rígsm. = Rígsmál. Talan merkir vísu.

Sig. 1. = Sigurðar kviða Fofnisbana fyrsta eða Gripisspá. Talan merkir vísu.

Skáldh. = Skáldhelgarímur í *Grönlands historiske Mindesmærker,* 2. bindi, bls. 442—560. Fyrri talan merkir rímu, en hin seinni vísu.

Skírn. = Skírnismál. Talan merkir vísu.

Skuggs. = Skuggsjá. Christiania 1848. Talan merkir bls.

Sn.-Ed. = Edda Snorra Sturlusonar. Kmh. 1848—1852. Rómverska talan merkir bindi, en hin serkneska bls.

Sól. = Sólarljóð. Talan merkir vísu.

Sonart. = Sonartorrek í Egils sögu. Reykjavík 1856. Talan merkir vísu.

Sturl. = Sturlunga saga. Kmh. 1817—1820. Rómverska talan merkir þátt, en hin serkneska kapítula.

Vafþr. = Vafþrúðnismál. Talan merkir vísu.

Vígagl. = Vígaglúmssaga. Kmh. 1786. Talan merkir kapítula.

Völusp. = Völuspá. Talan merkir vísu.

Þ. hreð. = Þórðar saga hreðu. Kmh. 1848. Talan merkir bls.

Œgisdrekka = Lokasenna.



# YFIRLIT EFNISINS.

**1. gr.** Allt mál er sett saman af einstökum orðum, en þeim er skipt í ýmsa flokka, er kallast partar málsgreinar *(partes orationis)*, og eru þeir þessir: nafnorð, greinir, einkunnir, fornöfn, sagnir, atviksorð, samtengingarorð, fyrirsetningar og meðalorpningar.

Nafnorð, greinirinn, einkunnir, fornöfn og sagnir eru beygjanleg *(flectuntur)*, það er, að þau breytast að mynd sinni, og helzt í endanum, og það á ýmsan hátt, eptir því, í hvaða sambandi þau standa hvert við annað, og hvernig á setningunni stendur; kallast sá hluti þeirra, er breytzt getur, ending, en sá hlutinn, sem eptir verður, þegar allar endingar eru frá skildar, heitir meginhluti *(thema)*. Sum eru þau orð, er eigi geta tekið fullri beygingu, eða sem eitthvað vantar í *(defectiva)*, og aptur sum, er beygjast óreglulega, annaðhvort að endingunni til, eða þá einhver mynd þeirra er óreglulega mynduð af stofninum *(anomala)*. Atviksorð eru að mestu óbeygjanleg (sjá 32. grein), en samtengingarorð, fyrirsetningar og meðalorpningar með öllu óbeygjanlegar.

# I. kafli.

## Um nafnorð.

**2. gr.** Nafn eða nafnorð *(nomen substantivum)* kallast hvert það orð, sem táknar einhvern hlut, lifandi eða dauðan, eða einhverja hugmynd út af fyrir sig, t. a. m.: maður, sauður, hryssa, hús; reiði, hugur.

Sjerhvert nafn er annaðhvort:

1*

1) tegundarheiti *(nomen appellativum)*, og táknar þá eitthvað það, er margt er eða getur verið sömu tegundar, t. a. m.: hestur, ær, fjall, ímyndun; eða

2) eiginlegt nafn *(nomen proprium)*, er táknar eitthvað eitt einstakt sinnar tegundar, t. a. m.: Pjetur, Ísland, Faxaflói, Hekla.

**3. gr.** Hvert nafn er annaðhvort karlkyns *(masculinum)*, kvennkyns *(femininum)*, eða hvorugkyns *(neutrum)*. Karlkyns er hvert það nafn í íslenzku, sem hann eða þeir verður sett í staðinn fyrir, t. a. m.: hjörtur, vetur, hugur; kvennkyns er það nafn, er hún eða þær verður sett í staðinn fyrir,, t. a. m.: hind, jörð, iðni, veizla; hvorugkyns eru þau orð, er það eða þau verður sett fyrir, t. a. m.: folald, sumar atvik, tíðindi.

**4. gr.** Þá er munur á, hvort einn hlutur er nefndur eða fleiri. Sje að eins talað um eitthvað eitt, er sagt, að nafnið standi í eintölu, t. a. m.: sauður, hamar, hugsun; en sje talað um fleira en eitt, þá er sagt, að það standi í fleirtölu, t. a. m.: sauðir, hamrar, hugsanir; það er með öðrum orðum, að flest nafnorð hafa tvær tölur *(numerus)*, eintölu *(numerus singularis)* og fleirtölu *(numerus pluralis)*.

Athugasemd 1. Fleirtölu hafa eigi:

1) Eiginleg nöfn, af því þau eigi geta táknað nema eitthvað eitt einstakt, t. a. m: Ólafur, Danmörk, Jórvík; þó getur fleirtala verið til af eiginlegum nöfnum, er samnefni eru flokkuð saman, t. a. m.: þrír Jónar, o. s. frv.

2) Þau nöfn, sem tákna safn af mörgum pörtum í einu lagi *(nomina collectiva)*, t. a. m.: korn, sandur, gull, silfur.

Fornmenn hafa sum þau orð í fleirt., er eptir eðli sínu eigi virðast geta haft neina fleirt., t. a. m.: menn áttu mikil forn korn, o. s. frv. Sum eru þau orð af þessari tegund, er fleirt. hafa, en merking þeirra verður þá önnur, t. a. m.: gull (málmur), gullin (leikfang); eins korn, o. s. frv.

3) Ýms þau orð, er merkja eiginlegleika eða ásigkomulag, t. a. m.: góðsemi, rjettvísi, reiði.

Athugas. 2. Sum orð eru að eins höfð í fleirtölu, t. a. m.: foreldrar, feðgin, mæðgin, systkin, feðgar, mæðgur; tíðindi, innýfli.

**5. gr.** Hvert nafnorð getur staðið í ýmsu sambandi við önnur orð í ræðunni; en til þess, að sýna þetta samband, eru höfð ýmisleg föll (*casus*) nafnsins, er hafa sitt hverja endinguna. Þessi föll eru í íslenzkri tungu fjögur:

1) Gjörandi eða nefnandi (*nominativus*), og er þá hluturinn nefndur, eða það er sagt, hvað eða hvernig hluturinn sje, eða verði, eða hvað hann gjöri, t. a. m.: Hesturinn er stór, þá er sagt, hvernig hesturinn sje.

2) Þolandi (*accusativus*) er hafður, til að tákna þann mann eða hlut, sem eitthvað er gjört við, eða einhver verknaður gengur út yfir, t. a. m.: Hesturinn sló stúlku eina; ferjumaðurinn flutti þessa menn yfir ána.

3) Þiggjandi (*dativus*) nefnir mann þann eða hlut, sem eitthvað er gjört fyrir, eða sem eitthvað er í hag eða óhag, sem eitthvað er ætlað, eða sem eitthvað á einhvern hátt lýtur að, t. a. m.: Jeg gaf hesti þínum hey; hann smíðaði syni sínum skip; það er unglingum ofætlun.

4) Eigandi (*genitivus*) táknar, hver eigi það eða það, eða þann, sem eitthvað er kennt við, eða þá að nafnið er einungis haft til þess, að einskorða hugmyndina um eitthvert annað nafn, t. a. m.: Bjarni býr á eignarjörð föður síns, og er þá sagt, að faðir hans eigi jörðina, sem Bjarni býr á; rit Snorra Sturlusonar; konungur Frakklands.

Athugas. Í sumum öðrum tungum eru fleiri föll nafna, t. a. m.: í latínu er, auk þeirra fjögra falla, er nefnd hafa verið, líka: kallandi (*vocativus*), þegar kallað er á einhvern með nafni, en þar er gjörandi hafður í íslenzku (t. a. m.: hlýddu orðum foreldra þinna, Bjarni), og missandi (*ablativus*), til að tákna þann mann eða hlut, sem eitthvað er tekið frá, en til þess er þiggjandi hafður í íslenzku.

**6. gr.** Að breyta nafninu eptir föllum, eða með öðrum orðum, að breyta endingum þess, eptir því, í hvaða sambandi það getur staðið, það kallast að beygja nafnið (*declinare*), og breytingin er kölluð beyging þess (*declinatio*), en endingarnar sjálfar heita fallendingar, og skal nú til skilningsauka sýna nokkur dæmi beyginga nafnorða:

## 1. Karlkynsnöfn.

Eintala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjörandi. | *floti,* | *eigandi,* | *lykill,* | *völlur,* | *fjörður.* |
| Þolandi. | *flota,* | *eiganda,* | *lykil,* | *völl,* | *fjörð.* |
| Þiggjandi. | *flota,* | *eiganda,* | *lykli,* | *velli,* | *firði.* |
| Eigandi. | *flota,* | *eiganda,* | *lykils,* | *vallar,* | *fjarðar.* |

Fleirtala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjörandi. | *flotar,* | *eigendur,* | *lyklar,* | *vellir,* | *firðir.* |
| Þolandi. | *flota,* | *eigendur,* | *lykla,* | *velli,* | *firði.* |
| Þiggjandi. | *flotum,* | *eigendum,* | *lyklum* | *völlum,* | *fjörðum.* |
| Eigandi. | *flota,* | *eiganda,* | *lykla,* | *valla,* | *fjarða.* |

## 2. Kvennkynsnöfn.

Eintala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *tunga,* | *hríð,* | *elding,* | *mýri,* | *rót.* |
| Þol. | *tungu,* | *hríð,* | *elding,* | *mýri,* | *rót.* |
| Þiggj. | *tungu,* | *hríð,* | *elding,* | *mýri,* | *rót.* |
| Eig. | *tungu,* | *hríðar,* | *eldingar,* | *mýrar,* | *rótar.* |

Fleirtala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *tungur,* | *hríðir,* | *eldingar,* | *mýrar,* | *rætur.* |
| Þol. | *tungur,* | *hríðir,* | *eldingar,* | *mýrar,* | *rætur.* |
| Þiggj. | *tungum,* | *hríðum,* | *eldingum,* | *mýrum,* | *rótum.* |
| Eig. | *tungna,* | *hríða,* | *eldinga,* | *mýra,* | *róta.* |

## 3. Hvorugkynsnöfn.

Eintala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *eyra,* | *klæði,* | *lamb,* | *knje.* |
| Þol. | *eyra,* | *klæði,* | *lamb,* | *knje.* |
| Þiggj. | *eyra,* | *klæði,* | *lambi,* | *knje.* |
| Eig. | *eyra,* | *klæðis,* | *lambs,* | *knjes.* |

Fleirtala.

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *eyru,* | *klæði,* | *lömb,* | *knje.* |
| Þol. | *eyru,* | *klæði,* | *lömb,* | *knje.* |
| Þiggj. | *eyrum,* | *klæðum,* | *lömbum,* | *knjám.* |
| Eig. | *eyrna,* | *klæða,* | *lamba,* | *knjáa.* |

# II. kafli.

## Um greininn.

**7. gr.** Tala má bæði um ótiltekinn og tiltekinn hlut. Ótiltekinn er þá hluturinn, er menn nefna einn eða fleiri einstaklinga heillar tegundar, án þess nánar að kveða á um, hver eða hverjir þessir einstaklingar sjeu, t. a. m.: það hljóp hestur yfir túnið, eða: þarna hlaupa hestar; því að enn þá er eigi kveðið á, hverjir hestar það voru, og er þá opt haft í íslenzku einn eða nokkur, til að sýna, að hluturinn sje ótiltekinn, eða þá nafnið haft eintómt. Aptur á móti er hluturinn tiltekinn, ef skýlaust er tekið fram, hver eða hverjir þeir einstaklingar sjeu, sem um er talað, svo eigi verði á villzt, eða einn tekinn fyrir annan, t. a. m.: Fjöllin á Íslandi eru mörg há; hesturinn minn er haltur. Í þessum dœmum eru það tiltekin fjöll og tiltekinn hestur, sem um er talað, og verður eigi blandað saman við önnur fjöll eða aðra hesta. Til þess að til taka hlutinn skýlaust, og greina þann hlutinn, sem rœtt er um, frá öðrum, er greinirinn (*articulus*) hafður, og er hann í íslenzku orðið hinn, hin, hið; hann hefur sína mynd fyrir hvert þriggja kynja (karlkyn, kvennkyn og hvorugkyn), sem hafðar eru eptir því, hvort nafnið, sem um er talað, og greinirinn því á við, er karlkyns, kvennkyns eða hvorugkyns; hann hefur og bæði eintölu og fleirtölu, og í hverri tölu öll fjögur föll, sem áður eru nefnd, og er þessi beyging hans:

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hinn,* | *hin,* | *hið.* |
| Þol. | *hinn,* | *hina,* | *hið.* |
| Þiggj. | *hinum,* | *hinni,* | *hinu.* |
| Eig. | *hins,* | *hinnar,* | *hins.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hinir,* | *hinar,* | *hin.* |
| Þol. | *hina,* | *hinar,* | *hin.* |
| Þiggj. | *hinum,* | *hinum,* | *hinum.* |
| Eig. | *hinna,* | *hinna,* | *hinna.* |

Þessi greinir er þá hafður, þegar talað er um einhvern þann hlut, sem talinn er þeim kunnur, sem menn eiga orðastað við, eða þegar talað er um heila tegund, sem einn hlut eða í einu lagi, t. a. m.: Maðurinn hefur skynsemi; hjer er maðurinn sett fyrir allir menn eða allt mannkynið. Greinirinn er í íslenzku settur á tvo vegu; honum er bœtt aptan við nafnorðið, sem hann á að einskorða, þó með þeirri breytingu, að *h* er æfinlega sleppt framan af, og *i* líka optast, ef nafnið endar á hljóðstaf *(a, i, u)*; en endi nafnið sjálft á samhljóðanda, þá helzt *i*, nema í gjör. fleirt. karlkynsorða, og gjör. og þol. fleirt. kvennkynsorða; t. a. m.:

1) Eintala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *floti-nn,* | *tunga-n,* | *eyra-ð.* |
| Þol. | *flota-nn,* | *tungu-na,* | *eyra-ð.* |
| Þiggj. | *flota-num,* | *tungu-nni,* | *eyra-nu.* |
| Eig. | *flota-ns,* | *tungu-nnar,* | *eyra-ns.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *flotar-nir,* | *tungur-nar,* | *eyru-n.* |
| Þol. | *flota-na,* | *tungur-nar,* | *eyru-n.* |
| Þiggj. | *flotu-num,* | *tungu-num,* | *eyru-num.* |
| Eig. | *flota-nna,* | *tungna-nna,* | *eyrna-nna.* |

2) Eintala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hestur-inn,* | *hríð-in,* | *lamb-ið.* |
| Þol. | *hest-inn,* | *hríð-ina,* | *lamb-ið.* |
| Þiggj. | *hesti-num,* | *hríð-inni,* | *lambi-nu.* |
| Eig. | *hests-ins,* | *hríðar-innar,* | *lambs-ins.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hestar-nir,* | *hríðir-nar,* | *lömb-in.* |
| Þol. | *hesta-na,* | *hríðir-nar,* | *lömb-in.* |
| Þiggj. | *hestu-num,* | *hríðu-num,* | *lömbu-num.* |
| Eig. | *hesta-nna,* | *hríða-nna,* | *lamba-nna.* |

Athugasemd. Í þiggjanda fleirtölunnar verður sú breyting á nafninu, sem greinirinn er skeyttur aptan við, að m fellur aptan af, sem þetta fall annars endar á.

Svona er ávallt farið með greininn, ef engin einkunn fylgir með nafninu;

en fylgi einkunn með, þá er ýmist gjört, að hnýta honum aptan við nafnið, eins og þegar er sýnt, eða hann er settur á undan einkunninni óskertur, og þá sama fall hans og nafnið er í, t. a. m.: Magri hesturinn, eða: Hinn magri hestur; mögru hestana, eða: hina mögru hesta.

# III. kafli.

## Um einkunnirnar.

**8. gr.** Einkunn, er fornmenn kölluðu viðurleggjanlegt nafn *(adjectivum)*, táknar einhvern eiginlegleika eða ásigkomulag manns eða hlutar, og einkennir hann því eða lýsir, og því eru þau orð einnig kölluð lýsingarorð, t. a. m.: hvítur, svartur, iðinn, sjúkur; t. a. m. ef sagt er: Snjórinn er hvítur, þá táknar orðið hvítur eiginlegleika snjávarins; pilturinn er veikur; með orðinu veikur er greint ásigkomulag piltsins.

**9. gr.** Með því einkunnir eru til þess, að fylla hugmynd nafnsins, og ávallt lýsa einhverju því, sem nefnt er, þá verður einkunnin að laga sig eptir því nafni, sem hún á við, og fær hún ýmsar endingar eptir því, í hvaða tölu nafnið er, hvers kyns það er, og hvert fall þess er haft. Í íslenzku hafa einkunnir tvenns konar beygingar, allt eptir því, hvort greinirinn er hafður með eða ekki, og skal nú sýna dœmi upp á hvorntveggja beygingarháttinn:

*a)* Án greinis.

1) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *ólmur,* | *ólm,* | *ólmt.* |
| Þol. | *ólman,* | *ólma,* | *ólmt.* |
| Þiggj. | *ólmum,* | *ólmri,* | *ólmu.* |
| Eig. | *ólms,* | *ólmrar,* | *ólms.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *ólmir,* | *ólmar,* | *ólm.* |
| Þol. | *ólma,* | *ólmar,* | *ólm.* |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þiggj. | *ólmum,* | *ólmum,* | *ólmum.* |
| Eig. | *ólmra,* | *ólmra,* | *ólmra.* |

2) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *snoðinn,* | *snoðin,* | *snoðið.* |
| Þol. | *snoðinn,* | *snoðna,* | *snoðið.* |
| Þiggj. | *snoðnum,* | *snoðinni,* | *snoðnu.* |
| Eig. | *snoðins,* | *snoðinnar,* | *snoðins.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *snoðnir,* | *snoðnar,* | *snoðin.* |
| Þol. | *snoðna,* | *snoðnar,* | *snoðin.* |
| Þiggj. | *snoðnum,* | *snoðnum,* | *snoðnum.* |
| Eig. | *snoðinna,* | *snoðinna,* | *snoðinna.* |

*b)* Með greininum.

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hinn ólmi,* | *hin ólma,* | *hið ólma.* |
| Þol. | *hinn ólma,* | *hina ólmu,* | *hið ólma.* |
| Þiggj. | *hinum ólma,* | *hinni ólmu,* | *hinu ólma.* |
| Eig. | *hins ólma,* | *hinnar ólmu,* | *hins ólma.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *hinir ólmu,* | *hinar ólmu,* | *hin ólmu.* |
| Þol. | *hina ólmu,* | *hinar ólmu,* | *hin ólmu.* |
| Þiggj. | *hinum ólmu,* | *hinum ólmu,* | *hinum ólmu.* |
| Eig. | *hinna ólmu,* | *hinna ólmu,* | *hinna ólmu.* |

Sömu endingar fá einkunnirnar, þótt greininum sje hnýtt aptan við nafnið, t. a. m.: Ólmi hesturinn, ólma hestinn, o. s. frv.

**10. gr.** Þótt sami eiginlegleiki eigi sjer stað hjá tveimur hlutum eða fleirum, þá getur þó verið munur á mikilleik eiginlegleikans, eða eiginlegleikinn getur verið á ýmsu stigi. Nú breytast myndir einkunnanna eptir því, á hvaða stigi eiginlegleikinn er hjá hverjum hlutnum fyrir sig. Þess konar stig eru þrjú, og nefnast venjulega samanburðarstig *(gradus comparationis),* og skal nú nokkuð skýra þau.

*a)* Frumstig, eða fyrsta stig *(gradus positivus),* er þá

haft, þegar sagt er blátt á fram, hvernig hluturinn sje, eða hlutur með þeim eða þeim eiginlegleika er nefndur, án þess að jafnað sje við annan, t. a. m.: *Maðurinn er skynsamur; konan er skynsöm; barnið er skynsamt;* eða: *góður maður; góð kona; gott barn.*

*b)* Þá er *miðstig*, eða *efra stig* (*gradus comparativus*), og er það haft, þegar þeim eiginlegleika, sem á sjer stað hjá einhverjum manni eða hlut, er jafnað saman við það, hvernig sami eiginlegleiki er hjá öðrum manni eða hlut, eða á er kveðið, hvort sá eiginlegleiki, sem einkunnin táknar, er á hærra stigi hjá einhverjum manni eða hlut, heldur en hann er hjá öðrum; t. a. m.: *Þessi stóll er sterkari en hinn; ull er mýkri en hrosshár; barnið er yngra en faðir þess.*

*c)* *Efsta stig* (*gradus superlativus*) er þá haft, þegar sagt er, að sá eiginlegleiki, sem eignaður er einhverjum manni eða hlut, sje á hærra stigi, en hjá nokkrum öðrum, eða sá maður eða hlutur, sem nefndur er, skari fram úr öllum öðrum í einhverju efni; t. a. m. ef sagt væri: *Björn er sterkastur allra sinna bræðra*, þá er með þessum orðum sagt, að Björn skari fram úr öllum bræðrum sínum að styrkleika; þannig líka t. a. m.: *Ásdís er fríðust systra sinna; hunang er sætast allra hluta.*

Efsta stig er og í íslenzku stundum haft til að tákna, að eitthvað sje mjög mikið, án þess því sje jafnað við annað, og má þá setja í stað þess frumstig sömu einkunnar, og *mjög* með; t. a. m.: *Það er mesta heimska*, er sama og sagt væri: *Það er mjög mikil heimska.*

Að breyta mynd einkunna eptir því, á hvaða stigi eiginlegleikinn er sagður, mætti nefna að *stigbreyta* einkunnum, og breytinguna sjálfa mætti nefna *stigbreytingu* (*comparatio*).

Dæmi upp á beygingu frumstigs er þegar sýnt, en miðstig og efsta stig hafa og þrjú kyn, tvær tölur og fjögur föll, og skal nú til skilningsauka sýna dæmi beygingar þeirra stiga.

*a)* Miðstig.

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvénnkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *ólmari,* | *ólmari,* | *ólmara.* |
| Þol. | *ólmari,* | *ólmari,* | *ólmara.* |
| Þiggj. | *ólmari,* | *ólmari,* | *ólmara.* |
| Eig. | *ólmara,* | *ólmari,* | *ólmara.* |

Fleirtalan er í öllum kynjum og föllum ólmari.

*b)* **Efsta stig.**

Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *ólmastur,* | *ólmust,* | *ólmast.* |
| Þol. | *ólmastan,* | *ólmasta,* | *ólmast.* |
| Þiggj. | *ólmustum,* | *ólmastri,* | *ólmustu.* |
| Eig. | *ólmasts,* | *ólmastrar,* | *ólmasts.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *ólmastir,* | *ólmastar,* | *ólmust.* |
| Þol. | *ólmasta,* | *ólmastar,* | *ólmust.* |
| Þiggj. | *ólmustum,* | *ólmustum,* | *ólmustum.* |
| Eig. | *ólmastra,* | *ólmastra,* | *ólmastra.* |

Sömu myndir fær miðstigið, þótt greinirinn sje með, en efsta stigið fær sömu endingar og frumstigið, ef greinirinn er með.

Það kalla menn óreglulega stigbreytingu, ef miðstig og efsta stig, eða annaðhvort þeirra, er af öðrum stofni, en frumstig, t. a. m.: góður, betri, beztur; lítill, minni, minnstur, o. s. frv.

# IV. kafli.

## Um töluorð.

**11. gr.** Með einkunnum eru og talin töluorðin *(numeralia)*, að því leyti, að þau eru sett með nöfnum, eins og einkunnir, enda þótt þau eigi lýsi neinum eiginlegleika. Töluorð eru annað tveggja, ákveðin eða óákveðin. Ákveðin eru þau, er tákna einhverja tiltekna tölu, og skiptast þau aptur í frumtöl-

ur eða höfuðtölur *(numeralia cardinalia)*, og raðartölur *(numeralia ordinalia)*.

Frumtölur eru þá hafðar, þegar sagt er blátt á fram, hversu margt sje af einhverju, t. a. m.: Tuttugu og fjórir menn riðu yfir ána; og eru þær tölur: einn, tveir, þrír, fjórir, fimm, o. s. frv. Þau töluorð eru öll óbeygjanleg, nema fjögur hin fyrstu, einn, tveir, þrír, fjórir; orðið einn er eigi til, nema í eintölu, eins og liggur í eðli þess, en þrjú hefur það kyn og fjögur föll, og lagar sig að öllu eptir nafni því, er það á við. Hin þrjú orðin hafa aptur á móti einungis fleirtölu, en enga eintölu, en þrjú hafa þau kyn og fjögur föll; þau laga sig einnig að föllum og kynjum eptir því nafni, sem þau eiga við, t. a. m.: tveir menn, tvær konur, tvö börn; þrír bændur, þremur sauðum; fjögur lömb, fjögra dægra.

Athugasemd. Þess ber að geta, að tugarnir sjálfir verða og hafðir sem nafnorð, og breytast þá nokkuð, svo að í stað: þrjátíu (einkunn) menn, má og segja: þrír tygir manna, og er það allalmennt í fornmáli, og fer opt betur; eins er hundrað, þúsund og milíón hrein nafnorð.

Raðartölurnar eru þá hafðar, þegar sagt er, hver einhver maður eða hlutur sje í röðinni, eða maður eða hlutur, sá eða sá í röðinni, er nefndur, t. a. m.: fyrsti, annar, þriðji, fjórði, o. s. frv.; breytast þessi orð að öllu eins og einkunnir, er greinirinn stendur með þeim.

Athugasemd. Þá eru og þau töluorð, er nefnast skiptiorð eða skiptingar *(numeralia distributiva)*, og eru þau þá höfð, þegar talað er um eitthvað það, sem tveir hlutar eiga saman, svo að heild verði úr því, t. a. m.: Einir sokkar, þ. e. sinn á hvorn fót; ein gleraugu, af því, að í þeim eru tvö gler, sitt fyrir hvort auga; tvennir skór; þrennar brækur, o. s. frv. Þau verða eigi höfð nema í fleirtölu, en þess konar orð eru í íslenzku eigi nema fjögur: einir, tvennir, þrennir og fernir.

Þau nefnast óákveðin töluorð, er tákna fjölda einhvers, en taka þó eigi til, hversu margt það sje, t. a. m.: nokkrir, sumir, einhverjir, o. s. frv.

# V. kafli.

## Um fornöfn.

**12. gr.** Fornafn *(pronomen)* er orð, sem haft er í staðinn fyrir nafn, eða jafnvel í staðinn fyrir heila setningu, og eru fornöfn höfð til þess, að komast hjá iðulegri upptekningu á nafninu eða hlutarheitinu, sem mundi láta mjög illa í eyrum, og einatt valda því, að setningin yrði óskilmerkileg, t. a. m. ef einhver segði: Barnið lofaði föður barnsins, að barnið skyldi taka barninu fram, og af því að barnið lofaði föður barnsins, að barnið skyldi bœta barnið, gladdist faðir barnsins mikillega, þá ljeti þetta mjög illa í eyrum, og enginn gæti skilið, að það væri sama barnið, sem alstaðar væri nefnt. Í stað hinnar iðulegu upptekningar á orðinu barn, mundu menn því orða þessa setningu þannig: Barnið lofaði föður sínum, að það skyldi taka sjer fram, og af því að það lofaði honum, að það skyldi bœta sig, gladdist faðir þess mikillega. Hjer eru því orðin: sínum, það, sjer, sig, þess, höfð í stað orðsins barn, og eru því fornöfn.

**13. gr.** Sum fornöfn eru nafnorð, og sum einkunnir; hafa þau ýms heiti, allt eptir því, hvernig þau koma fyrir í rœðunni. Þessi er skiptingin: persónuleg fornöfn, apturbeygjanleg fornöfn, eignarfornöfn, bendingarfornöfn, tilvísunarfornöfn, spurningarfornöfn, og óákveðin fornöfn.

**14. gr.** Persónuleg fornöfn *(pronomina personalia)* tákna persónur rœðunnar, en persónurnar eru þrjár: fyrsta persóna, það er sá, sem talar, önnur persóna, það er sá, sem talað er við, og þriðja persóna, það er sá, sem talað er um.

Fornafn hinnar fyrstu persónu er í íslenzku jeg eða eg, og annarar persónu þú; er í báðum þessum orðum sama mynd höfð fyrir öll þrjú kyn (karlkyn, kvennkyn og hvorugkyn); en það er einkenni þessara orða, sem engin önnur orð hafa í íslenzku, og fæst önnur mál, að þau hafa þrjár tölur *(numeros)*, eða eintölu,

tvítölu og fleirtölu, eða með öðrum orðum, að gjörður er munur á, hvort talað er um tvo eða fleiri; fjögur hafa þau föll í hverri tölu.

Í fornöfnum hinnar þriðju persónu er sín mynd fyrir hvert kyn, en að eins tvær tölur og fjögur föll. Þessi fornöfn eru: **hann, hún** og **það**.

**15. gr.** Að svo mæltu skal sýna beygingu þessara fornafna:

Eintala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *jeg,* | *þú,* | *hann,* | *hún,* | *það.* |
| Þol. | *mig,* | *þig,* | *hann,* | *hana,* | *það.* |
| Þiggj. | *mjer,* | *þjer,* | *honum,* | *henni,* | *því.* |
| Eig. | *mín,* | *þín,* | *hans,* | *hennar,* | *þess.* |

Tvítala.

| | | |
|---|---|---|
| Gjör. | *við,* | *þið.* |
| Þol. | *okkur,* | *ykkur.* |
| Þiggj. | *okkur,* | *ykkur.* |
| Eig. | *okkar,* | *ykkar.* |

Fleirtala.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Gjör. | *vjer,* | *þjer,* | *þeir,* | *þær,* | *þau.* |
| Þol. | *oss,* | *yður,* | *þá,* | *þær,* | *þau.* |
| Þiggj. | *oss,* | *yður,* | *þeim,* | *þeim* | *þeim.* |
| Eig. | *vor,* | *yðar,* | *þeirra,* | *þeirra,* | *þeirra.* |

Athugasemd. Nú á dögum er það almennt, að enginn munur er á gjör, hvort talað er um tvo eða fleiri, svo að í daglegu tali er tvítala af fyrstu og annari persónu höfð bæði um tvo og fleiri, en í riti mun það almennast, að blanda báðum tölunum saman, og hafa ýmist við eða vjer, okkur eða oss, o. s. frv., án nokkurs greinarmunar. En miklu rjettast er þó, að gjöra mun tvítölu og fleirtölu, því bæði er það, að fornmenn hafa vandlega gætt þess munar, enda er þessi munur einn af kostum hinnar íslenzku tungu, og styður að því, að ræðan verði sem ljósust.

**16. gr.** Apturbeygjanlegt fornafn *(pronomen reflexivum)* er í íslenzku orðið sig, sjer, sín; nefnist það því apturbeygjanlegt, að það bendir á þriðju persónu, sem þá, er gjöri eitthvað við sjálfa sig, eða með tilliti til sín sjálfrar, t. a. m.: Hver maður elskar sig mest; hver er sjálfum sjer

næstur; getur það því engan gjöranda haft, en sömu eru myndirnar fyrir öll þrjú kynin, og eins í fleirtölu sem eintölu, t. a. m.: Hann (hún, það) nefndi sig á nafn; þeir (þær, þau) nefndu sig á nafn. Nú má og segja um fyrstu og aðra persónu, að þær gjöri eitthvað við sig, eða með tilliti til sín, og eru í íslenzku engin sjerstök orð, er höfð verði til að tákna þá hugmynd með, heldur er þá haft það fall hinna persónulegu fornafna, er við á í hvert skipti, t. a. m.: Jeg ásaka mig; jeg tók mjer mikla byrði á herðar; þú meiðir þig, o. s. frv.

**17. gr.** Eignarfornöfn (*pronomina possessiva*) eru einkunnir, og tákna, hverjum eitthvað heyri, eða hverjum eigi að eigna það, sem um er talað, og standa þá í stað eiganda nafns. Þau fornöfn hafa þrjú kyn, tvær tölur og fjögur föll, og laga sig eins og einkunnir að öllu leyti eptir því heiti þess hlutar, sem sagt er að heyri einhverjum, eða er eignaður einhverjum. Þessi fornöfn eru í fornri íslenzku sjö, sitt fyrir hverja tölu af fornöfnum fyrstu og annarar persónu, og hið sjöunda, er svarar til hins apturbeygjanlega fornafns, eptir því, hvort sá, sem talar, talar um þann hlut, sem honum sjálfum heyrir, eða þeim, sem hann á málstað við, eða þá þeim, sem hann talar um.

Þessi eru eignarfornöfnin:

| Fyrir 1. persónu. | | | Fyrir 2. persónu. | | | Fyrir 3. persónu. | | |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| *minn,* | *mín,* | *mitt;* | *þinn,* | *þín,* | *þitt;* | *sinn,* | *sín,* | *sitt.* |
| *okkar,* | *okkar,* | *okkart;* | *ykkar,* | *ykkar,* | *ykkart;* | | | |
| *vor,* | *vor,* | *vort.* | *yðvar,* | *yður,* | *yðvart.* | | | |

**18. gr.** Orðin minn, þinn og sinn beygjast að öllu eins og greinirinn, nema að því einu undanskildu, að gjör. og þol. eintölunnar í hvorugkyni er mitt, þitt, og sitt, þar sem greinirinn er hið (eða hit í fornmáli); en þó verður sú breyting á þessum orðum, að *i* breytist í *í* alstaðar þar, er eitt *n* fer á eptir, t. a. m.: mínum, míns, mína, o. s. frv. Vor beygist að öllu reglulega sem einkunnir, t. a. m. ólmur, nema að þol. eint. í karlkyni er vorn.

Hin þrjú fornöfnin, okkar, ykkar og yðvar, eru lítið

tíðkuð nú á dögum, er hafðir eru eigendur hinna persónulegu fornafna í stað þeirra; en með því þó að þau orð eru alltíð í hinni fornu tungu, og vel mætti hafa þau enn, og opt svo, að betur mætti fara, þá skal hjer sýna beygingu þeirra, með því hún er frábrugðin að nokkru hinni almennustu beygingu einkunna.

1) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *okkar,* | *okkur,* | *okkart.* |
| Þol. | *okkarn,* | *okkra,* | *okkart.* |
| Þiggj. | *okkrum,* | *okkarri,* | *okkru.* |
| Eig. | *okkars,* | *okkarrar,* | *okkars.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *okkrir,* | *okkrar,* | *okkur.* |
| Þol. | *okkra,* | *okkrar,* | *okkur.* |
| Þiggj. | *okkrum,* | *okkrum,* | *okkrum.* |
| Eig. | *okkarra,* | *okkarra,* | *okkarra.* |

2) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *yðvar,* | *yður,* | *yðvart.* |
| Þol. | *yðvarn,* | *yðra,* | *yðvart.* |
| Þiggj. | *yðrum,* | *yðvarri,* | *yðru.* |
| Eig. | *yðvars,* | *yðvarrar,* | *yðvars.* |

Fleirtala.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *yðrir,* | *yðrar,* | *yður.* |
| Þol. | *yðra,* | *yðrar,* | *yður.* |
| Þiggj. | *yðrum,* | *yðrum,* | *yðrum.* |
| Eig. | *yðvarra,* | *yðvarra,* | *yðvarra.* |

Sem okkar beygist að öllu leyti ykkar.

**19. gr.** Bendingarfornöfn *(pronomina demonstrativa)* eru þá höfð, þegar eitthvað er nefnt ákveðið og einskorðað, til að greina það sem ljósast frá öðru, svo að eigi verði á villzt, hvað við sje átt, og eins og bent sje á það, og eru þau: sá, sú, það; þessi, þessi, þetta; hinn, hin, hitt. Þessi orð má

hafa hvort sem vill eins og nafn, eða eins og einkunn. Þrjú hafa þau kyn, tvær tölur og fjögur föll.

**20. gr.** Hinn beygist að öllu eins og greinirinn, að því einu undanskildu, að gjör. og þol. eintölu í hvorugkyni er hitt, þar sem sömu föll greinisins eru hið.

Þessi er beyging hinna tveggja:

1) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *sá,* | *sú,* | *það.* |
| Þol. | *þann,* | *þá,* | *það.* |
| Þiggj. | *þeim,* | *þeirri,* | *því.* |
| Eig. | *þess,* | *þeirrar,* | *þess.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *þeir,* | *þær,* | *þau.* |
| Þol. | *þá,* | *þær,* | *þau.* |
| Þiggj. | *þeim,* | *þeim,* | *þeim.* |
| Eig. | *þeirra,* | *þeirra,* | *þeirra.* |
| | | 2) Eintala. | |
| Gjör. | *þessi,* | *þessi,* | *þetta.* |
| Þol. | *þennan,* | *þessa,* | *þetta.* |
| Þiggj. | *þessum,* | *þessari,* | *þessu.* |
| Eig. | *þessa,* | *þessarar,* | *þessa.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *þessir,* | *þessar,* | *þessi.* |
| Þol. | *þessa,* | *þessar,* | *þessi.* |
| Þiggj. | *þessum,* | *þessum,* | *þessum.* |
| Eig. | *þessara,* | *þessara,* | *þessara.* |

**21. gr.** Spurningarfornöfn *(pronomina interrogativa)* eru þá höfð, þegar spurt er um eitthvað, til að tákna þann eða það, sem að er spurt, t. a. m.: Hver gjörði þetta? hver hefur samið þessa bók? Þau fornöfn eru í íslenzku: hvor (þegar að eins er talað um tvo), hver (þegar talað er um marga), hvað og hvaða. Hvor og hver er að mestu haft sem nafn; hvað er ávallt haft sem nafn, en hvaða ávallt sem einkunn.

**22. gr.** Hvor beygist að öllu leyti eins og eignarfornafnið

vor, en hver tekur upp *j* fyrir framan þær endingar, er byrja á hljóðstaf, en hefur að öðru leyti allar sömu endingar og hvor; hvað er að eins haft í eintölu, og beygist í raun rjettri eins og það (hvorugkyn af sá), en nú er eigi haft af því, nema gjör. og þol.; hvaða er óbeygjanlegt.

**23. gr.** Tilvísunarfornöfn *(pronomina relativa)* vísa ávallt fram fyrir sig til einhvers þess nafns, sem á undan er gengið, eða þá einhvers þess orðs, sem haft er eins og nafn, eða til heillar setningar, t. a. m.: Óttastu guð, sem sjer það, sem í myrkrunum er hulið; í þessum orðum er sem tilvísunarfornafnið, og vísar fram fyrir sig, á fyrri staðnum til orðsins guð, en á síðari staðnum til það.

**24. gr.** Þá eru enn fornöfn, sem kölluð eru óákveðin *(pronomina indefinita)*, sökum þess, að þau eigi kveða á neitt tiltekið, heldur nefna eitthvað, án þess að til taka, hver eða hvað það sje. Þessi fornöfn eru í íslenzku: einn, annar, nokkur, hver, einhver, enginn, sumir; t. a. m.: Maður nokkur reis þá upp og mælti; í þessum orðum er eigi kveðið á, hver maðurinn var.

Öll þessi orð verða höfð bæði sem nöfn, og líka sem einkunnir. Þó ber þess að geta, að gjör. og þol. eintölu í hvorugkyni af orðinu nokkur er eiginlega nokkurt; en til er líka önnur mynd, nokkuð, og skal þá mynd hafa sem nafn, en nokkurt sem einkunn.

**25. gr.** Einn beygist að öllu eins og töluorðið einn; annar sem raðartöluorðið annar; hver og einhver sem spurningarfornafnið hver; sumir, sem að mestu er haft einungis í fleirtölu, beygist eins og regluleg einkunn; en með því nokkur hefur nokkuð frábrugðna beygingu öðrum orðum, og enginn mjög frábrugðna, skal hjer sýna beygingar þeirra í heilu líki:

1) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *nokkur,* | *nokkur,* | *nokkurt.* |
| Þol. | *nokkurn,* | *nokkra,* | *nokkurt.* |

| | | | |
|---|---|---|---|
| Þiggj. | *nokkrum,* | *nokkurri,* | *nokkru.* |
| Eig. | *nokkurs,* | *nokkurrar,* | *nokkurs.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *nokkrir,* | *nokkrar,* | *nokkur.* |
| Þol. | *nokkra,* | *nokkrar,* | *nokkur.* |
| Þiggj. | *nokkrum,* | *nokkrum.* | *nokkrum.* |
| Eig. | *nokkurra,* | *nokkurra,* | *nokkurra.* |

2) Eintala.

| | Karlkyn. | Kvennkyn. | Hvorugkyn. |
|---|---|---|---|
| Gjör. | *enginn,* | *engin,* | *ekkert.* |
| Þol. | *engan,* | *enga,* | *ekkert.* |
| Þiggj. | *engum,* | *engri,* | *engu.* |
| Eig. | *einskis,* | *engrar,* | *einskis.* |
| | | Fleirtala. | |
| Gjör. | *engir,* | *engar,* | *engin.* |
| Þol. | *enga,* | *engar,* | *engin.* |
| Þiggj. | *engum,* | *engum,* | *engum.* |
| Eig. | *engra,* | *engra,* | *engra.* |

# VI. kafli.

## Um sagnir.

**26. gr.** Sögn *(verbum)* kallast hvert það orð, er táknar, að maður eða hlutur gjöri eitthvað, sje í því eða því ástandi, eða hafi einhvern eiginlegleika til að bera, t. a. m.: Jeg smíða; konan sefur; sólin skín.

Eptir þýðingu sinni má skipta sögnum í flokka þá, sem nú skulu greindir:

1) Áhrifssagnir *(verba transitiva)*, er tákna einhvern þann verknað, er einhver *(subject)* gjörir við annan *(object)*; t. a. m.: Jeg braut borðið; hún ritar brjef; í þessum dæmum kemur verknaðurinn fram við borðið og brjefið.

2) Hvorkinlegar sagnir *(verba intransitiva* eða *neutra)*, er tákna, að maður eða hlutur annaðhvort gjöri eitthvað það, er eigi kemur fram við neitt annað, eða sje í því eða því ástandi;

t. a. m.: Hesturinn hleypur (= er á hlaupum); barnið sefur.

Athugasemd. Ýmsar áhrifssagnir má og hafa sem hvorkinlegar sagnir, ef eigi er sagt, fram við hvern verknaðurinn komi; t. a. m. ef sagt væri: Drengurinn las vel, þá er eigi sagt, hvað hann las, og því er sögnin hjer hvorkinleg.

3) Persónulausar sagnir *(verba impersonalia)*, þegar sagt er, að eitthvað eigi sjer stað, án þess kveðið sje á um, hver gjöri það, t. a. m.: **Það rignir; það snjóar.**

**27. gr.** Nú má bæði svo að orði kveða, að einhver gjöri eitthvað við annan, og líka svo, að einhver verði fyrir einhverju af öðrum, t. a. m.: Jeg rauf skipið, er sama og sagt væri: Skipið var rofið af mjer; er í fyrri orðunum sagt, hvað jeg gjörði við skipið, en í hinum síðari, hvað skipið varð fyrir af mjer. Er það í mörgum tungum, að sagnir hafa tvær myndir, sína handa hvorri hugsuninni. Þegar sagt er, að einhver gjöri eitthvað við annan, þá er það hin eiginlega áhrifssögn *(verbum activum)*, eða rjettara áhrifsmynd sagnar *(forma activa)*; en sje svo að orði kveðið, að einhver verði fyrir einhverju af öðrum, eða eitthvað sje gjört við annan, þá er höfð þolsögn *(verbum passivum)*, eða þolmynd sagnar *(forma passiva)*, en þessi tilbreytni á hugsuninni getur eigi komið fram nema í áhrifssögnum, en eigi í hvorkinlegum sögnum, nema að eins persónulaust, eða án þess að taka til, hver gjöri það, t. a. m.: Það var hlaupið; það var vakað yfir túninu í nótt.

Í íslenzku hafa sagnir reyndar þolmynd, en sú þolmynd hefur þó eigi þolmerkingu; vilji menn tákna það, að einhver þoli eitthvað af öðrum, þá verða menn að hafa sagnirnar vera og verða til hjálpar, og setja aðalsögnina þar saman við. Merking þolmyndar í íslenzku er annað tveggja: 1) apturbeygjanleg *(reflexivum)*, eða með öðrum orðum, að sá, sem gjörir eitthvað, gjörir það við sjálfan sig; t. a. m.: Kári snerist á hæli; hann sagðist heita Björn; eða 2) sú, að tveir eða fleiri gjöra eitthvað hvor við annan *(reciprocum)*; t. a. m.: Þeir börðust, er sama og þeir börðu hvor annan; þau unn-

ast, er sama og: þau unna hvort öðru; þeir drápust með bitlum hestanna.

Athugasemd. Sumar eru þær sagnir í íslenzku, er hafa að eins þolmynd, en enga áhrifsmynd *(verba deponentia)*, t. a. m.: reiðast, eldast, öðlast, og hafa þær margar merkingu áhrifsmyndar.

**28. gr.** Sagnir hafa og þrjár persónur, eptir því, hvort menn segja eitthvað um sjálfa sig (fyrsta persóna), eða um þann eða þá, er menn eiga orðastað við (önnur persóna), eða um fjærverandi menn eða hluti (þriðja persóna).

Þær hafa og tvær tölur, eptir því, hvort talað er um einn eða fleiri.

Þá hafa sagnir enn fremur tíðir *(tempora)*, og eru aðaltíðir þrjár, er nú skulu greindar.

1) Þegar sagt er, að eitthvað sje, eða einhver sje að gjöra eitthvað, þá þegar um það er talað, kallast það núleg tíð *(tempus praesens)*, t. a. m.: Jeg les; hann sefur.

2) Sje sagt, að búið sje að gjöra eitthvað, þá þegar talað er, kallast það liðin tíð *(tempus praeteritum)*; en liðin tíð er með þrennu móti: *a)* Í fyrsta lagi er sagt, að eitthvað var eða gjörðist á þeim tíma, sem þá er um leið til tekinn, eða með einhverju móti einskorðaður, og kallast það þáleg tíð *(imperfectum)*, t. a. m.: Hesturinn fótbrotnaði í gær; heyið hraktist í sumar. *b)* Sje sagt, að búið sje að gjöra eitthvað þá, þegar um það er talað, en eigi kveðið beint á, hve nær það var gjört, kallast það núliðin tíð *(perfectum)*, t. a. m.: Þessi maður hefur smíðað þrjú skip; hesturinn minn hefur meitt sig á fætinum. *c)* Sje svo að orði kveðið, að búið hafi verið að gjöra eitthvað á þeim tíma, sem þá er tekinn til, en kveðið þó ei á, hve nær það var gjört, kallast það þáliðin tíð *(plusquamperfectum)*, t. a. m.: Hún hafði þegar ritað brjefið og sent það af stað, þegar jeg kom.

3) Þá er enn sagt, að eitthvað muni verða, eða að einhver muni gjöra eitthvað, og er það nefnd ókomin tíð *(futurum)*, t. a. m.: Hann mun koma á morgun.

Athugasemd. Í íslenzku hafa sagnir enga sjerstaka mynd, hvorki fyrir

núliðna tíð, þáliðna tíð eða ókomna tíð; holdur verður að hafa önnur orð sjer til hjálpar, og skeyta þau saman og sögnina. þessi orð eru sagnirnar hafa, sem, ásamt sagnarbótinni, er höfð til að mynda með núliðna tíð og þáliðna tíð, og munu, sem ásamt nafnhætti er höfð til að mynda með ókomna tíð. Af þessum sökum er það, að hafa og munu, eins og líka vera og verða, eru kallaðar hjálparsagnir (*verba auxiliaria*). Ókomin tíð er og opt í íslenzku táknuð með mynd núlegrar tíðar, t. a. m.: Hann kemur á morgun, og svo nær ávallt, er menn segja fyrir víst, að eitthvað verði.

**29. gr.** Í sögnum eru enn fremur hættir (*modi*), eptir því, hvernig hvað eina er hugsað, eða á hvern veg um það er talað. þessir hættir eru í íslenzku þeir, sem nú skulu greindir.

1. Framsöguháttur (*modus indicativus*), þegar eitthvað er sagt fyrir víst, eða blátt áfram; t. a. m.: Stúlkan saumaði treyjuna á einum degi; vinnumaðurinn minn reri í dag, en fiskaði ekkert.

2. Afleiðingarháttur, eða samtengingarháttur (*modus conjunctivus*), þegar eitthvað er sagt sem að eins hugsanlegt, án þess að kveða á um, hvort það sje svo eða ekki, eða þá sem það, sem sje komið undir hugsun annara, og því er sú setning, er hann stendur í, optast í sambandi við aðra setningu á undan; t. a. m.: Verið getur, að unglingar skilji eigi þegar allt, sem þeim er sagt; hann sagði mjer, að hann sæi eigi neitt.

3. Bjóðandi háttur (*modus imperativus*) er þá hafður, er menn bjóða eitthvað; t. a. m.: Farðu og skrifaðu; lestu þessa bók.

4. Nafnháttur (*modus infinitivus*), er hafður að eins, til að tákna verknað eða ástand út af fyrir sig, eða sem hugsað út af fyrir sig, en eigi heimfært til neins, er gjöri verknaðinn, eða sje í því ástandi, er sögnin táknar; t. a. m.: það er óþarfi, að hallmæla mjer; það er áríðandi fyrir hvern mann, að vanda öll verk sín.

5. Hlutteknigarorð (*participia*) eru tvenns konar:

*a)* Hlutteknigarorð núlegs tíma (*participium praesentis temporis*) táknar verknað eða ástand, hugsað sem eiginlegleika manns eða hlutar, í því maðurinn eða hluturinn gjörir eitt-

hvað, eða er í því ástandi, er sögnin kveður á, og hefur það því merkingu áhrifsmyndar; t. a. m.: Það er gangandi maður; jeg sá sofandi konu.

*b)* Hluttekningarorð liðins tíma *(participium perfecti temporis)* hefur þolmerkingu, og táknar verknað einnig sem eiginlegleika manns eða hlutar, en sem kominn er fram við mann eða hlut; t. a. m.: Brennt barn; tjargað skip; brunninn bœr.

Hluttekningarorð eru í raun rjettri einkunnir, myndaðar af sögnum, og hafa því tvær tölur, þrjú kyn, og fjögur föll í hverri tölu og hverju kyni, og laga sig að öllu sem einkunnir eptir því nafni, er þau eiga við.

6. Sagnarbót er höfð í íslenzku, til að mynda með sumar þær tíðir (núliðna og þáliðna tíð), sem sjerstakar myndir eru eigi fyrir, og heitir því sagnarbót; t. a. m.: Hann hefur vakað alla nóttina; jeg hef brennt brjefið; hann hafði numið land fyrir vestan heiði.

Að breyta sögnum eptir persónum, tölum, tíðum og háttum, er kallað að hneigja sagnir *(declinare verba,* en nú vanalega *conjugare),* og breytingin sjálf er kölluð hneiging sagna *(conjugatio).* Endingar í sögnum eru helzt persónuendingar, tíðarendingar og þolmyndarendingar.

**30. gr.** Að svo mæltu skal til skilningsauka sýna dœmi fullrar sagnahneigingar í íslenzku í öllum tíðum og háttum.

### Áhrifsmynd.

| | | Framsöguháttur. | Afleiðingarh. | Bjóðandi háttur. |
|---|---|---|---|---|
| Núl.t. Eint. | 1. pers. | *jeg kalla,* | *jeg kalli,* | „ |
| | 2. pers. | *þú kallar,* | *þú kallir,* | *kalla þú.* |
| | 3. pers. | *hann kallar.* | *hann kalli.* | *kalli hann.* |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer köllum,* | *vjer köllum,* | *köllum vjer,* |
| | 2. pers. | *þjer kallið,* | *þjer kallið,* | *kallið þjer,* |
| | 3. pers. | *þeir kalla.* | *þeir kalli.* | *kalli þeir.* |
| Þál.t. Eint. | 1. pers. | *jeg kallaði,* | *jeg kallaði,* | |
| | 2. pers. | *þú kallaðir,* | *þú kallaðir,* | |
| | 3. pers. | *hann kallaði.* | *hann kallaði.* | |

| | Framsöguháttur. | Afleiðingarh. |
|---|---|---|
| Fleirt. 1. pers. | *vjer kölluðum,* | *vjer kölluðum,* |
| 2. pers. | *þjer kölluðuð,* | *þjer kölluðuð,* |
| 3. pers. | *þeir kölluðu.* | *þeir kölluðu.* |
| Núlið.t. Eint. 1. pers. | *jeg hef kallað,* | *jeg hafi kallað,* |
| 2. pers. | *þú hefur kallað,* | *þú hafir kallað,* |
| 3. pers. | *hann hefur kallað.* | *hann hafi kallað.* |
| Fleirt. 1. pers. | *vjer höfum kallað,* | *vjer höfum kallað,* |
| 2. pers. | *þjer hafið kallað,* | *þjer hafið kallað,* |
| 3. pers. | *þeir hafa kallað.* | *þeir hafi kallað.* |
| Þálið.t. Eint. 1. pers. | *jeg hafði kallað,* | *jeg hefði kallað,* |
| 2. pers. | *þú hafðir kallað,* | *þú hefðir kallað,* |
| 3. pers. | *hann hafði kallað.* | *hann hefði kallað.* |
| Fleirt. 1. pers. | *vjer höfðum kallað,* | *vjer hefðum kallað,* |
| 2. pers. | *þjer höfðuð kallað,* | *þjer hefðuð kallað,* |
| 3. pers. | *þeir höfðu kallað.* | *þeir hefðu kallað.* |
| Ókom.t. Eint. 1. pers. | *jeg mun kalla,* | *jeg muni kalla,* |
| 2. pers. | *þú munt kalla,* | *þú munir kalla,* |
| 3. pers. | *hann mun kalla.* | *hann muni kalla.* |
| Fleirt. 1. pers. | *vjer munum kalla,* | *vjer munum kalla,* |
| 2. pers. | *þjer munuð kalla,* | *þjer munið kalla,* |
| 3. pers. | *þeir munu kalla.* | *þeir muni kalla.* |

| | Nafnháttur. | Hlutttekn.orð núl.t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|
| Núl.t. | *að kalla.* | *kallandi.* | *kallað.* |
| Núlið.t. | *að hafa kallað,* | | |
| Ókom.t. | *að munu kalla.* | | |

## Þolmynd.

| | Framsöguh. | Afleiðingarh. | Bjóðandi h. |
|---|---|---|---|
| Núl.t. Eint. 1. pers. | *jeg kallast,* | *jeg kallist,* | „ |
| 2. pers. | *þú kallast,* | *þú kallist,* | *kallist þú,* |
| 3. pers. | *hann kallast.* | *hann kallist.* | *kallist hann.* |
| Fleirt. 1. pers. | *vjer köllumst,* | *vjer köllumst,* | *köllumst vjer,* |
| 2. pers. | *þjer kallizt,* | *þjer kallizt,* | *kallizt þjer,* |
| 3. pers. | *þeir kallast.* | *þeir kallist.* | *kallist þeir.* |

| | | Framsöguh. | Afleiðingarh. |
|---|---|---|---|
| Þál.t. | Eint. 1. pers. | *jeg kallaðist,* | *jeg kallaðist,* |
| | 2. pers. | *þú kallaðist,* | *þú kallaðist,* |
| | 3. pers. | *hann kallaðist,* | *hann kallaðist.* |
| | Fleirt. 1. pers. | *vjer kölluðumst,* | *vjer kölluðumst,* |
| | 2. pers. | *þjer kölluðust,* | *þjer kölluðust,* |
| | 3. pers. | *þeir kölluðust.* | *þeir kölluðust.* |
| Núlið.t. | Eint. 1. pers. | *jeg hef kallazt,* | *jeg hafi kallazt,* |
| | 2. pers. | *þú hefur kallazt,* | *þú hafir kallazt,* |
| | 3. pers. | *hann hefur kallazt.* | *hann hafi kallazt.* |
| | Fleirt. 1. pers. | *vjer höfum kallazt,* | *vjer höfum kallazt,* |
| | 2. pers. | *þjer hafið kallazt,* | *þjer hafið kallazt,* |
| | 3. pers. | *þeir hafa kallazt.* | *þeir hafi kallazt.* |
| Þálið.t. | Eint. 1. pers. | *jeg hafði kallazt,* | *jeg hefði kallazt,* |
| | 2. pers. | *þú hafðir kallazt,* | *þú hefðir kallazt,* |
| | 3. pers. | *hann hafði kallazt.* | *hann hefði kallazt.* |
| | Fleirt. 1. pers. | *vjer höfðum kallazt,* | *vjer hefðum kallazt,* |
| | 2. pers. | *þjer höfðuð kallazt,* | *þjer hefðuð kallazt,* |
| | 3. pers. | *þeir höfðu kallazt.* | *þeir hefðu kallazt.* |
| Ókom.t. | Eint. 1. pers. | *jeg mun kallast,* | *jeg muni kallast,* |
| | 2. pers. | *þú munt kallast,* | *þú munir kallast,* |
| | 3. pers. | *hann mun kallast.* | *hann muni kallast.* |
| | Fleirt. 1. pers. | *vjer munum kallast,* | *vjer munum kallast,* |
| | 2. pers. | *þjer munuð kallast,* | *þjer munið kallast,* |
| | 3. pers. | *þeir munu kallast.* | *þeir muni kallast.* |

| | Nafnháttur. | Hlutttekn.orð liðins t. | Sagnarbót. |
|---|---|---|---|
| Núl.t. | *að kallast.* | *kallaður.* | *kallazt.* |
| Núlið.t. | *að hafa kallazt.* | | |
| Ókom.t. | *að munu kallast.* | | |

Athugasemd. Í fornri íslenzku eru sumar persónuendingar í samtengingarh. nokkuð öðruvísi, en þær eru hjer ritaðar, og nú tíðkanlegar.

Það er þegar áður sagt, að þolmynd sagna eigi hafi í raun rjettri þolmerkingu, en ef tákna skal það, að maður eða hlutur þoli eitthvað, þá verður að taka þá tíð af sögninni vera, er við á, og setja saman við hlutekningarorð liðins tíma þeirrar

sagnar, er verið er að beygja, en ókomin tíð myndast af ókominni tíð af sögninni verða og svo hluttekningarorði liðins tíma, og skal nú sýna dœmi þessarar samsetningar:

Framsöguháttur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| Núl.t. | Eint. | 1. pers. | *jeg er kallaður,* |
| | | 2. pers. | *þú ert kallaður,* |
| | | 3. pers. | *hann er kallaður.* |
| | Fleirt. | 1. pers. | *vjer erum kallaðir,* |
| | | 2. pers. | *þjer eruð kallaðir,* |
| | | 3. pers. | *þeir eru kallaðir.* |
| Þál.t. | Eint. | 1. pers. | *jeg var kallaður,* |
| | | 2. pers. | *þú varst kallaður,* |
| | | 3. pers. | *hann var kallaður.* |
| | Fleirt. | 1. pers. | *vjer vorum kallaðir,* |
| | | 2. pers. | *þjer voruð kallaðir,* |
| | | 3. pers. | *þeir voru kallaðir.* |
| Núlið.t. | Eint. | 1. pers. | *jeg hef verið kallaður,* |
| | | 2. pers. | *þú hefur verið kallaður,* |
| | | 3. pers. | *hann hefur verið kallaður.* |
| | Fleirt. | 1. pers. | *vjer höfum verið kallaðir,* |
| | | 2. pers. | *þjer hafið verið kallaðir,* |
| | | 3. pers. | *þeir hafa verið kallaðir.* |
| Þálið.t. | Eint. | 1. pers. | *jeg hafði verið kallaður,* |
| | | 2. pers. | *þú hafðir verið kallaður,* |
| | | 3. pers. | *hann hafði verið kallaður.* |
| | Fleirt. | 1. pers. | *vjer höfðum verið kallaðir,* |
| | | 2. pers. | *þjer höfðuð verið kallaðir,* |
| | | 3. pers. | *þeir höfðu verið kallaðir.* |
| Ókom.t. | Eint. | 1. pers. | *jeg mun verða kallaður,* |
| | | 2. pers. | *þú munt verða kallaður,* |
| | | 3. pers. | *hann mun verða kallaður.* |
| | Fleirt. | 1. pers. | *vjer munum verða kallaðir,* |
| | | 2. pers. | *þjer munuð verða kallaðir,* |
| | | 3. pers. | *þeir munu verða kallaðir.* |

| | | Afleiðingarháttur. | Bjóðandi háttur. |
|---|---|---|---|
| Núl.t. Eint. | 1. pers. | *jeg sje kallaður,* | „ |
| | 2. pers. | *þú sjert kallaður,* | *vertu kallaður,* |
| | 3. pers. | *hann sje kallaður.* | *veri hann kallaður.* |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer sjeum kallaðir,* | *sjeum vjer kallaðir,* |
| | 2. pers. | *þjer sjeuð kallaðir,* | *sjeuð þjer kallaðir,* |
| | 3. pers. | *þeir sjeu kallaðir.* | *sjeu þeir kallaðir.* |
| Þál.t. Eint. | 1. pers. | *jeg væri kallaður,* | |
| | 2. pers. | *þú værir kallaður,* | |
| | 3. pers. | *hann væri kallaður.* | |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer værum kallaðir,* | |
| | 2. pers. | *þjer væruð kallaðir,* | |
| | 3. pers. | *þeir væru kallaðir.* | |
| Núlið.t. Eint. | 1. pers. | *jeg hafi verið kallaður,* | |
| | 2. pers. | *þú hafir verið kallaður,* | |
| | 3. pers. | *hann hafi verið kallaður.* | |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer höfum verið kallaðir,* | |
| | 2. pers. | *þjer hafið verið kallaðir,* | |
| | 3. pers. | *þeir hafi verið kallaðir.* | |
| Þálið.t. Eint. | 1. pers. | *jeg hefði verið kallaður,* | |
| | 2. pers. | *þú hefðir verið kallaður,* | |
| | 3. pers. | *hann hefði verið kallaður.* | |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer hefðum verið kallaðir,* | |
| | 2. pers. | *þjer hefðuð verið kallaðir,* | |
| | 3. pers. | *þeir hefðu verið kallaðir.* | |
| Ókom.t. Eint. | 1. pers. | *jeg muni verða kallaður,* | |
| | 2. pers. | *þú munir verða kallaður,* | |
| | 3. pers. | *hann muni verða kallaður.* | |
| Fleirt. | 1. pers. | *vjer munum verða kallaðir,* | |
| | 2. pers. | *þjer munið verða kallaðir,* | |
| | 3. pers. | *þeir muni verða kallaðir.* | |

| | Nafnháttur. | Hluttekningarorð |
|---|---|---|
| Núl.t. | *að vera kallaður.* | og |
| Núlið.t. | *að hafa verið kallaður.* | sagnarbót |
| Ókom.t. | *að munu verða kallaður.* | eru eins og áður er sagt. |

# VII. kafli.

## Um atviksorð.

**31. gr.** Atviksorð (*adverbia*) eru þau orð, sem höfð eru til þess, enn skýrar að kveða á um eitthvað, hvernig það sje, eða taka fram eitthvert atvik við einkenni einhvers manns eða hlutar, eða verknað, og eru þau því höfð með einkunnum og sögnum, eða líka með öðrum atviksorðum, en aldrei með nafnorðum eða fornöfnum; þannig t. a. m.: Hann er ákaflega ríkur; konan er mjög veik; Pjetur gekk út og grjet beisklega.

Atviksorðum má skipta í ýmsa flokka, eptir merkingu sinni, t. a. m.:

1. Staðleg atviksorð (*adverbia loci*), sem höfð eru, ef svara á spurningarorðunum: hvar, hvert, hvaðan, t. a. m.: úti, út, utan, inni, inn, innan, uppi, upp, ofan, o. s. frv.

2. Tíðar-atviksorð (*adverbia temporis*), ef svara á spurningarorðunum: hve nær, hversu lengi, t. a. m.: snemma, fyr, síðla, áðan, lengi, o. s. frv.

3. Þau, sem höfð eru, ef svara á spurningunni: hversu opt, t. a. m.: tvisvar, þrisvar, iðulega, jafnaðarlega, stundum, o. s. frv.

4. Þau, sem höfð eru, ef svara á spurningunni hvernig, t. a. m.: þannig, vel, illa, ágætlega, o. s. frv.

5. Þau, sem höfð eru, er sanna skal eitthvað, eða neita einhverju, t. a. m.: já, nei, vissulega, o. s. frv.

Fleiri mætti telja flokka þeirra, ef þörf bæri til, en nú eru hinir helztu taldir.

**32. gr.** Atviksorð eru talin óbeygjanleg, enda geta þau engri breytingu tekið, nema stigbreytingu, þegar merkingu þeirra er svo háttað, að það, sem þau tákna, getur hugsazt á ýmislegu stigi; þannig t. a. m.: inni, innar, innst; niðri, neðar, neðst; lengi, lengur, lengst; vel, betur, bezt, o. s. frv.

# VIII. kafli.

## Um fyrirsetningar.

**33. gr.** Fyrirsetningar eða afstöðuorð (*praepositiones*) eru þau orð, er sýna samband það, er einstök orð setningar standa í hvert við annað, með því annars kostar er opt eigi auðið, að sýna samband þeirra, hvorki með sjerstökum orðmyndum nje setningarlagi, og nefnast því fyrirsetningar, að þær eru opt settar fyrir framan þau orð, er þær eiga að stýra; t. a. m.: Hann settist í hásætið; skipið stóð á skeri; hann fór af landi burt; hann sigldi til Danmerkur, o. s. frv. Fyrirsetningar geta í íslenzku setzt sumar með þol., sumar með þiggj., og sumar með eig., en engar geta þær stýrt gjör., og stýri þær engu orði, verða þær að atviksorðum, t. a. m. í þessu dæmi: Hann var á undan mjer; hjer er „á undan“ fyrirsetning; en ef svo er að orði kveðið: Hver var á undan? þá er „á undan“ atviksorð.

# IX. kafli.

## Um samtengingarorð.

**34. gr.** Samtengingarorð (*conjunctiones*) tengja saman einstök orð hvert við annað, eða þá hverja setningu við aðra, t. a. m.: Þau eru bæði valmenni, bæði maðurinn og konan; jeg steig á hest minn og reið sem jeg gat. Samtengingarorðum má skipta í ýmsa flokka eptir því, hvers konar samband á milli orða eða setninga þær tákna.

1. Samtengjandi (*copulativae*) eru þær, er tengja blátt á fram saman orð þau eða setningar, er að öllu stendur eins á, svo sem: bæði, og; hvorki, nje; t. a. m.: Bæði maðurinn og konan eru dáin; jeg hvorki lofaði því, nje vil lofa því.

2. Sundurgreinandi (*disjunctivae*) nefnast þær, er tengja saman þau orð eða setningar, er svo stendur á fyrir einu þeirra, að eigi stendur eins á fyrir hinu, svo sem: eða, annaðhvort —

eða; t. a. m.: Annaðhvort hjónanna sagði mjer það, annaðhvort maðurinn eða konan.

3. Andstæðisorð eða andsetningar (*adversativae*) eru þau orð, sem höfð eru til að tengja saman orð eða greinir, þegar það, sem um er talað, er gagnstaðlegt hvort öðru, en þó jafnfara undir eins, svo sem en; t. a. m.: Þú skalt hafa þetta, en lagsmaður þinn fær ekkert.

4. Þá eru þær, er tákna orsök einhvers (*causales*), og sýna þær, að í þeirri setningu, er þær heyra til, felist orsökin til einhvers, svo sem: þar eð, vegna þess að, af því að; t. a. m.: Hann var orðinn þreyttur, af því að hann hafði unnið allan daginn.

5. Skildagaorð (*conditionales*) benda til þess, að í þeirri setningu, er þau heyra til, felist einhver skildagi, svo sem: ef, svo framarlega sem; t. a. m.: Hann hefði gjört það, ef þú hefðir hert að honum með það.

6. Samlíkjandi samtengingarorð (*comparativae*) sýna, að orðum þeim, er þau samtengja, sje á einhvern hátt líkt saman, svo sem: eins og, en, heldur en, því — því; t. a. m.: Hann er eins og jeg; sonurinn er stærri en faðirinn; því lengur sem hann er að, því viljugri verður hann.

7. Játningarorð eða viðurkenningarorð (*concessivae*), er menn játa, að þótt eitthvað sje svo eða svo á sig komið, þá sje þó eitthvað athugavert við það, svo sem: þótt, enda þótt; t. a. m.: Enda þótt hún sje hversdaglega gæf, lætur hún þó undan sjer ganga, þegar því á að skipta.

# X. kafli.

## Um meðalorpningar.

**35. gr.** Meðalorpningar (*interjectiones*) eru smáorð, er í sjer hafa fólgna heila setningu, og sem skreppa fram af vörum manna, er einhver geðshreifing vaknar, t. a m. jájá, svei, æ, o. s. frv.

# XI. kafli.

## Um myndun orða.

**36. gr.** Rœtur eða orðstofna (*radices*) kalla menn hin fyrstu frumorð málsins, er engan viðauka hafa fengið, og eigi eru heldur sett saman við önnur orð, t. a. m.: far, reið; en er þau beygjast, verða þau að stofnorðum eða frumorðum (*voces primitivae*), t. a. m.: reiði, reiður, reiðast. Nú má af frumorðunum mynda önnur orð, með því mótinu, að bœta við þau nýjum endingum, t. a. m. af reiði myndast reiðinn, af fljótur myndast fljótlegur; nefnast þess konar endingar afleiðsluendingar (*suffixa*), og orðin sjálf afleidd (*voces derivatae*).

Þá má og mynda ný orð á þann veg, að skeyta tvö orð saman, t. a. m. af maður og hár er skeytt saman mannshár; af auga og brún er myndað augnabrún, og nefnast þess konar orð samskeytt eða samsett (*voces compositae*), en hvort fyrir sig heitir ósamsett (*simplex*).

Rjettritun (ὀρθογραφία; *orthographia*) heitir það, að rita hin heyranlegu hljóð, hverrar tungu sem er, rjettræðum stöfum, eða þeim stöfum, sem tekið er að tákna skuli hvert hljóð. En í þessu efni hafa málfræðingar, eigi síður í íslenzku en í öðrum tungum, átt bágt með að koma sjer saman, og því opt fylgt hver sinni reglunni.

Aðalundirstöður íslenzkrar rjettritunar virðast geta verið þrjár: 1. að rita öll orð eptir framburði; 2. að rita öll orð eptir uppruna; og 3. að rita sem næst upprunanum, að svo miklu leyti sem tungutak vort leyfir. Fyrsta reglan er í raun rjettri í sjálfu sjer rjettust; því að ritið er ei annað en hljóð þau, er menn tala, gjörð sýnileg; en aptur eru þeir örðugleikar á, að framburður manna er ýmislegur, og sínum heyrist hvert hljóðið í sama orðinu, og þarf því að minnsta kosti nákvæma þekkingu á hinum ýmislega framburði manna, ef semja skal stöðugar reglur fyrir, hvernig hvert hljóð skuli rita, ef sú undirstaðan væri höfð, og mundi þó veita næsta örðugt að samríma allra framburð. Að rita allt eptir uppruna, virðist enn síður geta átt sjer stað; því að bæði er það næsta örðugt, að rekja uppruna allra orða, og því næst er það, að vjer táknum með ritinu þau orðin, er vjer nú tölum, en eigi þau, sem, ef til vill, aðrar fornþjóðir töluðu, löngu áður en Ísland byggðist; og hvar skyldi staðar nema? eða hve langt skyldi rekja? Það virðist því rjettasta reglan, að rita samkvæmt upprunanum, eptir þeim myndum, sem orðin fá, er þau verða íslenzk eða norrœn, eða eru tekin inn í norrœnuna; en framburðurinn má þó eigi vera þvert á móti rithættinum; vjer megum eigi rita þá stafi, sem hvorki heyrast í framburðinum, nje verða látnir heyrast; og þessi virðist vera aðalundirstaðan fyrir

rithætti fornmanna, þótt víða út af beri, og þessi virðist undirstaðan enn, eptir því sem flestir rita, þótt hún í mörgu sje aflöguð; og þetta er undirstaðan fyrir rjettritunarreglum þeim, sem skráðar eru í þessari litlu bók; en það virðist sjálfsagt, að breyta ekki eptir rithætti fornmanna, er framburðurinn nú er annar en hjá þeim, og þó samkvæmur eðli tungunnar; tungan hefur að nokkru breytzt á hinum síðustu fimm öldum, og því verður og að breyta til um ritháttinn, með því enginn getur hugsað til, að fœra allt aptur til hinna fornu myndanna, heldur verður að taka tungunna, eins og hún nú er orðin.

# I. kafli.

## Um hljóðstafina.

### 1. grein.

### Um a[1].

Þessi hljóðstafur hefur víðast skýrt hljóð í munni Íslendinga, þeirra er að engu eru málhaltir. En allt fyrir það eru þeir þó mýmargir enn, bæði lærðir og leikir, sem nefna *a* sama nafni og *á*, og rita þar *a*, er *á* skyldi rita, og eru þó mjög ólík hljóð þeirra, og skýrt hvort um sig; ber því alls enga nauðsyn til, að semja neinar reglur um, hvar *a* skuli rita, og hvar *á*, með því framburðurinn sjálfur segir til, nema að eins fyrir framan *ng* og *nk*, og skal um það talað síðar. Það skal að eins brýnt fyrir mönnum, að greina þessa stafi, hvort heldur er, þegar þeir eru nefndir eða ritaðir, og nefna hið granna hljóðið grönnu nafni og rita *a*, en hið breiða hljóðið breiðu nafni og rita *á*.

Eig. fleirt. karlkenndra nafna, er enda á *andi* í gjör. eint., er nú á dögum látinn vanalega enda á *enda*, enda og stundum

[1]) *Bókstafaröð sú, sem fylgt er í þessari bók, er sú, sem nú skal greina:* a, ö, e, á, æ, i, í, o, ó, œ, u, ú, y, ý, au, ey, ei; k, g, j, h, t, d, ð, þ, s, z, l, r, n, x, p, b, f, v, m.

í fornum bókum; en eigi er það þó með öllu rjett; hefur þessu valdið það, að gjör. fleirt. endar á *endur* (að fornu *endr* f. *endir)*; á því í gjör. fleirt. að koma fram þau hljóðvörp, sem *i* getur valdið, eða *a* á að verða að *e*; en *a* getur engu hljóðvarpi valdið; og ef það því er í niðurlagi orðsins, eins og er í eig. fleirt., á upphaflegi stafurinn að koma fram aptur, og því skal rita *búanda*, en eigi *búenda*, o. s. frv., enda verður *e* í eig. fleirt. þessara orða eigi rjettlætt með því, þótt *e* sje haft í þiggj. fleirt.

Enda þótt að *a* hafi víðast skýrt hljóð í íslenzku, er það þó í sumum orðum, að það blandast saman við önnur hljóð í framburðinum, helzt *æ*, og í sumum orðum er það, að *æ* er komið í staðinn fyrir hið upphaflega *a*, og enn er það, að sumir rita *a*, en sumir annan staf.

1. Að *a* kveða Íslendingar ávallt, eins og *æ* væri, er það stendur á undan *g*, ef *i* fer á eptir *g*; þannig segjum vjer *hægi*, *lægi*, en ritum: *hagi*, *lagi*, o. s. frv. En í öllum þeim orðum, er *a* verður heyranlegt í einhverri mynd þeirra, skal *a* rita, þótt að sje kveðið, sem *æ* væri í framburðinum; því að *a* (granna hljóðið) getur aldrei breytzt í *æ*, með því það er breitt hljóð. En ef *æ*-hljóðið helzt í öllum myndum orðsins, skal og *æ* rita, t. a. m. *lægi* (= höfn), o. s. frv. Þar sem *a* skal rita, þótt *æ* heyrist, á undan *gi*, er einkum:

*a)* í gjör. eint. karlkenndra nafna upp á *gi*, og sýna hin föllin ljóst, að *a* skuli rita, með því það kemur þar fram, og því skal rita t. a. m. *hagi*, *haga*, *bagi*, *baga*, *magi*, *maga*, o. s. frv.;

*b)* í þiggj. eint. nokkurra karlkenndra nafna, er endast á *ur* í gjör. eint., t. a. m. *bragi* af *bragur*; en þau nöfn eru eigi mörg, með því þiggjanda-endingunni *i* er optast sleppt í þess konar orðum, og þá fær *a* sitt eiginlega hljóð aptur; þannig segjum vjer heldur *brag*, en *bragi*, *hag*, heldur en *hagi* (af *hagur*);

*c)* í þiggj. eint. hvorugkyns-nafna, ef *a* er heyranlegt í gjör. eint., eða öðrum föllum, t. a. m. *lagi* af *lag*, *stagi* af *stag*;

*d)* í gjör. eint. í karlkyni einkunna, er greinirinn fer með,

ef *a* verður heyranlegt í öðrum föllum, eða þegar greinirinn eigi fer með; þannig skal því rita *hinn hagi*, af *hagur, hinn ragi*, af *ragur;*

*e)* í 2. pers. fleirt. núl. tíma framsöguháttar, ef *a* er heyranlegt í 3. pers. eða nafnhætti, og sömuleiðis í núl. tíma samtengingarháttar þeirra sagna, t. a. m. *þjer hagið, lagið; jeg hagi, lagi, þú hagir, lagir; hann hagi, lagi,* o. s. frv., af *að haga, laga;*

*f)* í orðinu *laginn* í öllum þess myndum; er það eiginlega hluttekningarorð lið. tíma af sögninni *að leggja,* og svo haft í fornri íslenzku, en nú vanalegast haft sem einkunn, sama sem *laglegur í e-u.*

2. Þá er *æ* komið í staðinn fyrir hið upphaflega *a* í *fjærri* fyrir *fjarri,* og mörgum þeim orðum, sem skeytt eru saman við það. Nú hefur myndin *fjærri* rutt sjer til rúms í tungunni, enda þótt *fjarri* sje upphaflegra. Í samskeytingum þess skal hljóðið ráða, og skal því rita þar *æ,* er *æ* heyrist, en þar *a,* er *a* heyrist, og rita því:

| | | | | |
|---|---|---|---|---|
| *fjærvera* | eða | *fjarvera,* | en | *fjarlægur,* |
| *fjærvist* | eða | *fjarvist,* | en | *fjarlægð,* |
| *fjærsýnn* | eða | *fjarsýnn,* | en | *fjarstæður,* |

með því svo er að kveðið.

Þá segjum vjer *foræði* (= mýri, fen), er fornmenn virðast hafa sagt *forað,* og er, ef til vill, sú myndin í sjálfu sjer rjettari; en þó virðist hinni nýrri myndinni ekki hafnandi, með því *æ* getur verið hljóðvarp af *á,* sem kemur fram í *forátta (foráttubrim);* líka getur verið, að fornmenn hafi sagt *foráð.*

Þá segjum vjer bæði *hávar* og *hávær,* og er *hávar* vafalaust upphaflegri og rjettari mynd, með því að orðið mun vera myndað af *há* (stofninum í *hár)* og afleiðsluendingunni *ar),* og svo *v* skotið inn, svo að tveir hljóðstafir standi eigi saman; en *æ* er eigi haft í eiginlegum afleiðsluendingum (sbr. mannsnafnið *Hávar).* Þó væri það hugsandi, að *vær* eigi væri afleiðsluending, heldur að orðið væri sett saman (sbr. *hógvær).*

3. Þá er og opt sagt *vesæld,* og því optar *vesæll,* fyrir *vesall,* og er hin síðari myndin miklu rjettari; því að bæði er

það, að orðið er afleitt, en eigi samsett, og sjest það ljóst á því, að orðið getur dregizt saman, og dregst saman í fornu máli, í öllum þeim föllum, er ending þeirra byrjar á hljóðstaf, t. a. m. *vesla, veslum, veslir,* o. s. frv., sömuleiðis *veslingur, að veslast,* enda segjum vjer og *vesöld;* en ef orðið væri sett saman af *sæll,* þá ætti það eigi fremur að dragast saman, en *sæll* sjálft; en þá er og það, að breiður hljóðstafur eigi er hafður í afleiðsluendingum, og því er það eitt rjett, að rita *vesall, vesalingur, vesöld.*

Eins skal og rita *viðvaningur,* en eigi *viðvæningur,* þótt svo sje stundum að kveðið í daglegu tali, því að orðið er leitt af *van* (stofninum í *vani, að venja),* og þar bætt framan við fyrirsetningunni *við* (sbr. *að venja við).*

Um endinguna *an* og *un* í kvennkenndum nöfnum skal síðar rætt, þegar talað verður um *u;* sjá 11. gr.

## 2. grein.

## Um ö.

þessi stafur hefur nú að minnsta kosti skýrt hljóð, og getur því enginn efi leikið á því sökum hljóðsins, hvar hann skuli vera; en þó er það, að *ö* hefur blandazt saman við aðra hljóðstafi, þannig, að aðrir hljóðstafir eru nefndir, er hann skyldi nefna og rita, og einkum er allmikill blendingur orðinn á *ö* og *e;* er það bæði sökum þess, að stafirnir eru skyldir, er báðir eru hljóðvarp af *a,* og þó einkum sökum þess, að *e* mun í fyrndinni hafa haft myrkara og óskýrra hljóð en nú. Einnig hefur *ö* á sumum stöðum blandazt við *u,* og á nokkrum við *o.*

1. Við *e* hefur það blandazt í nokkrum orðum, þar sem þó er rjetthafðara *ö,* og það því heldur, sem *ö* er enn tíðkanlegt jafnframt, enda kemur *ö* fram í öðrum skyldum tungum, t. a. m. dönskunni; en þó verður eigi sagt, að *e* sje rangt að hafa í þeim orðum, og munu þessi hin helztu:

*kjöt* — *ket*

*gjöra* — *gera,* og svo öll þau orð, sem af því eru leidd, t. a. m.: *gjör, gjörð, gjörningur, gjörsamlega,*

*gjörla, gjörvi, atgjörvi,* enda vanalegast haft *ö* í sumum þeirra í framburði.

*mjöl* — *mjel*
*smjör* — *smjer*
*kökkur* — *kekkur*[1]
*költur* — *keltur*
*kjör* — *ker (víðirker)* = *kjarr.*

Þá er það og, að í nokkrum þeim sögnum, er *ö* hafa í meginhluta nafnháttar, er nú haft *e* í eint. núl. tíma framsöguháttar, t. a. m.: *hrökkva, hrekk, hrekkur; stökkva, stekk, stekkur; sökkva, sekk, sekkur;* en það er alls eigi rjett, heldur skal rita: *hrökk, hrökkur; stökk, stökkur; sökk, sökkur;* því að *v*, sem fram kemur í nafnhætti, veldur því, að *ö* er komið, og það á því og að vera í núl. tíma.

Á hinn bóginn er það í sumum kvennkenndum eins-atkvæðisorðum, er *ö* hafa í gjör. eint. (stofninn *a*, er kemur fram í eig. eint.), og þar sem gjör. fleirt. endast nú á *ur*, að vjer höfum optast í tali og opt í riti *ö*, en það á að vera *e*; því að þessi ending *ur* var áður að eins *r*, fyrir *ir;* en þar sem *i* fer á eptir, eða á að fara á eptir, breytist *a* í *e*, en eigi *ö;* en þótt nú sje *u* á eptir, þá veldur það *u* eigi hljóðvarpi, með því að enginn sá hljóðstafur, sem komizt hefur inn í tunguna, eptir að hún var fullmynduð, veldur hljóðvarpi, og því skal rita: *hönd* (stofninn: *hand),* fleirt. *hendur; tönn* (stofn.: *tann),* fleirt. *tennur*, enda höldum vjer *e* í mörgum þeirra, þótt vjer látum gjör. fleirt. endast á *ur*, og ávallt í eig. eint., ef það fall er látið halda endingunni *ur* (áður að eins *r*), t. a. m.: *strönd, strendur; rönd, rendur: röng, rengur*[2]. Aptur er það sjálfsagt, að hafa *ö* í

---

[1]) *Þessi hin síðari myndin mun vera svo komin til, að sökum þess, að þiggj. eint. af* kökkur *er að rjettu lagi* kekki *(órjett* kökk), *og gjör. og þol. fleirt.* kekkir, kekki, *þá hafa menn ímyndað sjer, að gjör. eint. hefði líka* e *í stofni sínum, og væri* kekkur, *með því þeir hafa eigi skilið í því, að* ö *gæti breytzt í* e, *sem þó er rjett, þegar* i *fer á eptir.*

[2]) *Vjer segjum líka:* strandir, randir, rangir.

þiggj. fleirt.: *höndum, tönnum.* Öll þessi orð hafa *ö* í þiggj. eint., og er það regluleg mynd, nema *hönd,* það er óreglulegt, og er *hendi,* og svo skal og ávallt rita það fall, en eigi *hönd.*

Í þiggj. fleirt. karlkenndra nafna, er í gjör. eint. enda á *andi,* er *e* komið fyrir *ö,* eða *ö* er upphaflegra, t. a. m. *búendum* fyrir *búöndum;* því að *u*[1] í endingunni veldur hljóðvarpinu *a-ö,* en eigi *a-e;* en eigi er þó vert, að taka upp aptur *ö,* með því *e* hefur algjörlega rutt sjer til rúms, en *ö* og *e* skiptast þráfalt á í íslenzku, enda skyldir stafir; fornmenn rita og þráfaldlega *e* í þessum orðum, t. a. m. *búendum.*

Þá er *kveld* og *kvelda* upphaflegra og rjettara, en *kvöld* og *kvölda* (sbr. á dönsku: *Qvæld,* á sænsku *Quäl).* Eins eru *sjetti* og *sjettungur* upphaflegri myndir en *sjötti* og *sjöttungur,* en hinar síðari myndirnar hafa nú náð svo mikilli festu í tungunni, að það er eigi reynandi, að rýma þeim í burtu, og það enda þótt *sjett* (nafn, í *sjettardómur)* væri haldið; enda mundi nú þykja eitthvað viðhafnarlegt, að rita *sjetti, sjettungur.*

Enn er það, að vjer í ýmsum föllum af *enginn* höfum í framburðinum *au* (= *ö*) fyrir *ei* (= *e*) á undan *ng,* og bætum þá inn í *v* fyrir aptan *g;* er það reyndar satt, að forn mynd er til í gjör. eint. *öngr*[2] og *engr*[3] (= *engi),* en bæði er það, að sú mynd orðsins mun eigi koma fyrir nema hjá skáldum, enda er orðið sett saman af *einn* og *gi,* en *einn* hefur breytzt í *en,* vegna *g,* sem á eptir fer, og er það í flestum fornum bókum ritað *e,* en eigi *ei,* og sömuleiðis nú á hinum síðari tímum er það tekið af öllum þeim, er vanda rjettritun sína, að rita ávallt *e* (eða *ei,* ef breiður

---

[1]) e *er upphaflegt og rjett í gjör. og þol., enda þótt nú fari* u *á eptir; því hin forna endingin er* r *að eins, fyrir* ir.

[2]) *Í Nj. 78.:* (avngr=) Öngr skal lítils lengi
liðsráðandi biðja.
*Fms. I, 132:* aungr maðr und skýranni;
*Háv. 94.:* Öng er sótt verri
hveim snotrum manni,
en sèr öngu una; *og enn víðar.*

[3]) *Í þætti af Þorleifi jarlaskáld, 7. kap. (Fms. III. 103.):*
áðr gat engr nè síðan.

hljóðstafur er hafður á undan *ng),* og sleppa *v* á eptir *g,* og skal því rita: *engum, enga, engri.*

Sumir segja: *gröri, röri, snöri, nöri,* í þál. t. af *gróa, róa, snúa, núa,* en eigi þykir það rjettur ritháttur, heldur skal bæði mæla og rita: *greri, reri, sneri, neri.* Margir rita og: *grjeri, rjeri, snjeri, njeri,* en *ö,* sem kemur fram hjá ýmsum í framburðinum, og stundum í rithætti fornmanna, virðist þó að benda til þess, að *j* er of aukið.

2. Með því að eigi skal rita *vesæll* (sjá *a),* þá skal og eigi rita *vesæld,* heldur *vesöld,* með því að *æ* eigi getur verið hljóðvarp af *a,* heldur er það *ö.*

3. Í nokkrum orðum er það, að bæði er *ö* og *o,* t. a. m. *mökkur* og *mokkur,* og verður eigi annað um það sagt, en að báðar myndirnar sjeu rjetthafðar, en þó mun *o* í þeim orðum upphaflegra, enda er *ö* þar víða í orðum nú, er *o* var upphaflega, t. a. m. í *tröll* fyrir *troll,* og sýnir það *trylla,* með því *y* er hljóðvarp af *o,* en eigi *ö;* hið sama sýnir og danska orðið *Trold.* Þó er það eitt orð, er *ö* þykir eigi hafandi í, og það er í *honum,* þiggj. eint. af *hann,* enda þótt í tali opt kunni að heyrast *ö.*

Athugasemd. *Í fornri íslenzku er það þráfaldlega, að* o *er ritað, þar sem nú er* ö, *en eigi er það nú hafandi.*

4. Um *ö* fyrir *u,* sjá 11. gr.

### 3. grein.

## Um e.

Þessi stafur hefur til forna haft myrkara og óskýrra atkvæði en nú, og það hefur valdið því, að hann hefur blandazt saman við aðra stafi, einkum *ö, i, u,* og *ei,* sökum eptirfarandi samhljóðanda. Stundum er það og komið fyrir *o,* eigi vegna hljóðlíkingar, heldur vegna þess, að *e* er stundum hljóðvarp af *o,* og í þeim orðum, þar sem bæði finnst *o* og *e,* er það þá ýmist hljóðvarp eða eigi.

1. Um *ö* og *e* hefur þegar verið rætt, sjá 2. gr. um *ö.*

2. Fornmenn rituðu opt *æ* og *e* sömu myndum, rituðu *æ* fyrir *e,* og *e* fyrir *æ,* án þess þó að líkindi sjeu til, að þeir hafi blandað saman hljóði þessara stafa; en þessi ritháttur hefur þó

verið tilefni til þess, að sumir hafa á síðari öldum ritað *æ* í ýmsum orðum fyrir *e*, t. a. m.: *vær* fyrir *vjer*, *væl* fyrir *vjel*, *væla* fyrir *vjela*, og, ef til vill, ímyndað sjer, að það væri rjettara og fegra; en það er hvorttveggja, að þessir stafir eru runnir sinn af hvorum frumstaf (*e* af *a*, en *æ* af *á*), og hljóð þeirra næsta ólíkt, með því *e* hefur grannt hljóð, en *æ* flátt, enda munu þau orð næsta fá, að þessi hljóð blandist saman í framburði vorum; skal því rita þar að eins *æ*, er *æ* heyrist, og *e*, er *e* heyrist.

Aptur á hinn bóginn mun stundum vera sagt *alvepni* og *alvæpni*; en *alvæpni* er miklu rjettara; því að það er myndað af *vápn*.

3. Um blending á *e* og *i*, sjá 6. gr., um *i*.

4. *e* er stundum hljóðvarp af *o* (ekki *ó*), og því er í sumum orðum ýmist haft *o* eða *e*, t. a. m. *hvolfa* og *hvelfa*, þó verður *hvolfa* viðkunnanlegra, enda upphaflegra; annars verður hvorug myndin gjörð ræk, hvorki í þessu orði nje öðrum þess kyns; því að *hvelfa* er rjett myndað, eins og líka *hvelfing*, enda segjum vjer aldrei *hvolfing*. Aptur á hinn bóginn er það rangt, að hafa *hnotur*, gjör. og þol. fleirt. af *hnot* (ávöxtur), fyrir *hnetur* (áður *hnetr*); því að *r* (upprunalega *ir*) veldur hljóðvarpinu *o-e*, en *hnotur* er gjör. og þol. fleirt. af *hnota* (= beinhnúta); en þiggj. og eig. fleirt. eru af báðum orðunum eins: *hnotum*, *hnota*. Fleirt. af *stoð* er í fornri íslenzku, að minnsta kosti opt, *steðr*, en nú segjum vjer ávallt *stoðir*, eins og *stangir*, *rangir*, *randir*, o. s. frv., fyrir *stengur*, *rengur*, *rendur*, og verður eigi að því fundið, að rita *stoðir*.

5. Þá segjum vjer í hversdaglegu tali *hvur*, *hvurt* (spurningarfornafn), *sjerhvur*, *einhvur*, *hvurgi*, *hvurt* (= í hvaða átt, til hvaða staðar), *hvursu*, og sumir hafa ritað *ö* í þessum orðum (*hvör*, *hvört*, *hvörsu*, o. s. frv.). Að hafa *ö* í þessum orðum virðist ástœðulaust, og mun vera risið af vanþekkingu; en *u* er heldur eigi rjett, þótt svo sje fram borið; hafa bæði fornir og nýir rithöfundar, er nokkurt skyn hafa borið á íslenzka rjettritun, ritað *e* í þessum orðum, enda er það samkvæmt uppruna þeirra; því að *e* er þar komið af *a* (*hvergi* af *hvar-gi*, *hvert* myndað af

*hvar),* og því skal rita: *hver,* kynl. *hvert (sjerhver, einhver), hve, hversu, hvergi, hvert;* sbr. 8. gr.

6. Hvað optast blandast saman í framburði vorum *e* og *ei,* þannig, að þar sem *e* skal rita, er að *ei* kveðið; en sá hljóðblendingur á sjer þó að eins stað á undan *g,* og þá helzt, er *i* fer á eptir *g;* en sú regla er tekin í þessu efni, eigi að rita *ei,* heldur *e,* þar sem það er fram komið af *a* eða *i,* og verður því að gæta uppruna þessara orða, enda er það bót í máli, að í flestum þessara orða kemur skýrt *e,* en ekki *ei,* fram í þeim myndum þeirra, þar sem eigi fer *i* á eptir *g;* en þegar *e* heyrist í sumum myndum þeirra, skal það og rita í þeim öllum, og eins, ef í sumum myndum kemur *a* fram, þá skal og *e* rita í þeim, þar sem að *ei* er kveðið. Því skal rita *e,* þótt *ei* heyrist, þar sem nú skal greina:

*a)* í gjör. eint. karlkenndra nafna, er hann endast á *i,* og *e* verður heyranlegt í hinum föllunum, t. a. m.: *tregi, trega; segi, sega* (fornt);

*b)* í þiggj. eint., gjör. og þol. fleirt. í þeim karlkenndum nöfnum, er í gjör. eint. hafa *ö,* en *a* í eig. eint. (en í eig. kemur stofninn í ljós), t. a. m.: *mögur, megi, megir; lögur, legi;* eins *vegur, vegi, vegir;* sömuleiðis *degi,* þiggj. eint. af *dagur,* og enn fremur í þeim orðum, er af þeim eru mynduð, t. a. m.: *framvegis* (af *vegur), árdegis* (af dagur), o. s. frv.;

*c)* í öllum þeim einkunnum (í gjör. fleirt. í karlkyni, ef greinirinn eigi er með, og gjör. eint. í karlkyni, ef greinirinn fer með), sem að *e* er kveðið í, þegar *a, u,* eða ekki neitt fer á eptir *g,* og er það einkum í afleiðsluendingunni *legur,* t. a. m.: *hjartanlegir, hinn hjartanlegi* (en *seigir, hinn seigi,* af *seigur);*

*d)* í nafnhætti, núl. tíma í öllum háttum, og hluttekningarorði núl. tíma af sögnunum *segja* og *þegja (jeg segi, þegi, seg, þeg, segjandi, þegjandi),* með því stofninn er *sag, þag,* er kemur fram í þál. tíma *(sagði, þagði),* og svo öðrum orðum, er af þeim kunna að vera leidd, t. a. m.: *segjanlegur (ósegjanlegur);*

*e)* í nafnhætti, fleirt. núl. t. framsöguháttar og núl. t. samtengingarháttar, og hluttekningarorði núl. t. af *mega (vjer megum, jeg megi, megandi,* sem líka er haft sem einkunn; *velmeg-*

*andi)*, og öllum þeim orðum, er af því eru leidd (*megin, ómegin, megun, velmegun;* er þar stofninn *mag*, er kemur fram í orðinu *magn)*;

*f)* í sagnarbót og hlutteknigarorðum liðins tíma af *hlæja, draga, þiggja, slá, liggja, þvo* (*hlegið, hleginn; dregið, dreginn; þegið, þeginn;*[1] *slegið, sleginn; legið, leginn; þvegið, þveginn*[2], *óþveginn)*, og orðum þeim, er af þeim eru leidd, t. a. m.: *dregill, dregladur; þegi* (í *farþegi;* en *þeygi* = *þó eigi*), *þvegill;*

*g)* í sögnunum *vega, fregna*, eptir hinni fornu beygingu þess, og *klá* (= klóra) skal ávallt rita *e* að eins, þótt að *ei* sje kveðið í framburðinum, t. a. m.: *þjer vegið, jeg vegi, vegið, veginn; fregið, freginn (ófreginn); klegið.*

*h)* Þá skal og rita *Egill* (þiggj. að fornu *Agli*), *spegill*, að *spegla; feginn (feginleikur, feginsamlega)* af stofninum *fag* (í *fagna*), *legill* af *lag* (í *lögur*).

Í öðrum orðum en þeim, er nú hafa verið greind, skal *ei* eða *ey* rita, þar sem svo er að kveðið, t. a. m.: *eiga, feigur; seig*, þál. t. af *síga, steig*, af *stíga*, o. s. frv.

7. Þá segjum vjer *endemi*, og mun vera rjett að rita svo, enda þótt það að uppruna sínum muni vera fyrir *einsdæmi*. Fornmenn rituðu og *eyrindi (örindi, eyrendi, örendi)*, en nú skal það rita *erindi*, eins og að er kveðið.

## 4. grein.

## Um á.

Þessi hljóðstafur hefur skýrt hljóð, enda blandast eigi mjög við aðra stafi, og má því rita þar *á*, er það heyrist; því enda þótt sumstaðar hafi þar upphaflega verið annar stafur, þar sem nú er *á*, t. a. m. *a*, eða *á* verið, þar sem nú er hafður annar stafur, t. a. m. *o* eða *ó* (sbr. *o* og *ó*), þá er þó eigi eptir því farandi nú. Og enda þótt *á* sje haft í sumum myndum orðsins *alin*, en *a* í sumum (gjör., þol. og þiggj. eint.), þá verður þó að halda þeim myndum, eins og þær eru, og rita þar *á*, er *á* heyrist.

---

[1]) *Líka:* þáð, þáður.

[2]) *Líka er sagt* þvoð, þvoður.

Sum kvennkennd nöfn eru þau, er ýmist hafa *á*, eða hljóðvarp þess *æ*, í meginhlutanum, t. a. m. *gátt* og *gætt*, *sátt* og *sætt*, og verður eigi öðruvísi á litið, en báðar myndirnar sjeu jafnrjettar, og hvorugri hafnandi.

Hin einu orð, er *a* er ranghaft í fyrir *á*, eru ýms orð, sem leidd eru af *áll*, og jafnframt skeytt saman við önnur orð, og svo höfð um lit á hestum, t. a. m.: *bleikála, bleikálingur, bleikálóttur; móála, móálingur, móálóttur;* hafa menn eigi rjett skilið myndun þessara orða, og á því grennzt, og orðið að *a*, jafnframt vegna þess, að öll áherzlan hefur lent á fyrsta atkvæðinu, og þó mun almennt sagt: *bleikála, móála.*

Um *á* og *a* á undan *ng*, sjá 18. gr.

## 5. grein.

## Um æ.

Þetta hljóð er tvenns konar eðlis að uppruna til; því að stundum er það hljóðvarp af *á*, og stundum hljóðvarp af *ó*, enda þótt nú sje enginn munur á gjörður hljóði þess, af hvorum stafnum sem það svo er runnið. Fyrst framan af hafa Íslendingar gjört mun á þessum hljóðvarpsstöfum, eins í riti, eins og þeir hafa gjört það í tali, og hefur *œ*, hljóðvarpið af *ó*, haft myrkara hljóð; þó hefur þessi munur horfið að mestu eða öllu snemma á þrettándu öld, og í meiri hluta fornrita Íslendinga er enginn munur gjörður á *æ* og *œ*. En allt fyrir það verður þó eigi betur sjeð, en rjett sje það enn í alla staði, að greina í riti hljóðvarpið af *á*, og rita *æ*, og hljóðvarpið af *ó*, og rita það *œ;* því að með því uppruninn er sinn að hvorum stafnum, er og rjett að tákna þennan ólíka uppruna með einhverju móti. Og þótt menn vilji nú bera það fyrir, að enginn sje munur á hljóðinu í *æ* og *œ*, og því engin ástœða, að gjöra það í riti, þá liggur svarið til þess beint við; hvaða ástœða er til, að greina *i* og *y*, *í* og *ý*, er þeir þó hafa sama hljóð? hví rita menn eigi eptir framburðinum? hvaða ástœða er önnur til þess, en sú, að tákna upprunann? Og ef ástœða er til að tákna ólíkan uppruna sama hljóðs í *i* og *y*, *í* og

*ý*, þá er eins ástœða til, að tákna ólíkan uppruna að *æ* og *œ*, og af þessari ástœðu er það, að hjer er gjörður munur á *æ* og *œ*.

Hvar *œ* (hljóðvarpið af *ó*) skuli rita, skal síðar grein fyrir gjörð. Hjer er talað um *æ*, hljóðvarpið af *á*; hefur þessi stafur skýrt hljóð, og blandast eigi mjög við aðra stafi, þannig að annað hljóð verði heyranlegt í framburðinum, er *æ* skyldi rita; en að *æ* er þar sumstaðar kveðið, er *a* skal rita, og hefur þegar verið um það rœtt; sjá 1. gr.

Á hinn bóginn segjum vjer þó í daglegu tali *atla* (= hafa í hyggju), og er það eigi rjett, heldur skal rita *ætla*, og svo í öllum þeim orðum, er af því kunna að verða leidd, eða skeytt saman við það, rita *æ*, t. a. m.: *ætlun*, *fyrirætlun*, o. s. frv.

Um *æ* og *e*, sjá 3. gr.

Um *æ* á undan *ng* og *nk*, sjá 18. gr.

## 6. grein.

## Um i.

1. Í fornum ritum Íslendinga er víða skipt um *a* og *i* (sjá Frump. 122.—125.), en eigi mun nú hætt við, að menn riti *i* fyrir *a*, eða *a* fyrir *i*, þar sem eigi er almennt tekið að rita, eins og að er kveðið. Þó verður þess að geta, að 1. pers. þál. tíma, bæði í framsöguhætti og samtengingarhætti, og einnig 1. pers. núl. tíma í samtengingarhætti, endaði að fornu opt á *a*, er vjer nú höfum *i*, og rituðu fornmenn t. a. m.: *kennda*, *talda*, *telda*, *mega*, er vjer nú segjum og ritum: *kenndi*, *taldi*, *teldi*, *megi*, og getur enginn efi á því leikið, að nú skuli rita *i*, en eigi *a*; því hin eldri endingin er nú með öllu úrelt, þótt slíkt geti staðizt hjá skáldum í viðlögum. Á hinu getur verið meiri vafi, hvernig rita skuli eint. karlkyns í miðstigi einkunna. Hin eldri beyging er svona:

| | |
|---|---|
| Gjör. | *stœrri.* |
| Þol. | *stœrra.* |
| Þiggj. | *stœrra.* |
| Eig. | *stœrra.* |

En nú eru í daglegu tali öll föllin, eða að minnsta kosti þrjú

hin fyrstu, látin enda á *i* *(stærri)*, og með því eigi mun auðið, að fá menn til, að taka upp aptur hinar fornu myndirnar í tali, en hinar nýrri myndirnar raska að engu eðli tungunnar, þá get jeg eigi betur sjeð, en rjettast verði, að halda þeim einnig í riti, eins og öðrum þeim myndum, sem eigi mun auðið að ryðja burtu, þótt eigi sjeu fornar, þegar þær að eins eigi eru gagnstaðlegar eðli tungunnar, og eins fagrar á að heyra og hinar fornu.

Á sama hátt voru hlutt. orð núl. t. beygð, en þar höfum vjer farið enn lengra, og höfum þau að öllu beygingarlaus, látum þau í öllum föllum allra kynja enda á *i*, t. a. m.:

| | | karlkyn. | kvennkyn. | hvorugkyn. |
|---|---|---|---|---|
| *Eint.* | Gjör. | *kallandi,* | *kallandi,* | *kallanda.* |
| | Þol., þiggj., eig. | *kallanda,* | *kallandi,* | *kallanda.* |
| *Fleirt.* | í öllum föllum: | | *kallandi.* | |

En nú er alstaðar haft *kallandi,* og er alls ekki næg ástæða til, að hverfa þar aptur til hinnar fornu tungunnar, þótt sumir gjöri það, heldur skal í þessari grein rita, sem mælt er.

Enda þótt jeg eigi geti sjeð neina ástæðu til, að taka upp hinar fornu myndirnar í þessum orðum, miðstigi einkunna og hluttekningarorðum núl. t., í almennu riti, þá er það þó eigi svo að skilja, að eigi megi hafa þær í skáldskap, þegar svo fer betur.

2. *i* hefur til forna allmikið blandazt saman við *e*, eigi vegna þess, að *i* hafi eigi haft sama hljóð og nú, heldur sökum þess, að *e* hefur haft nokkru myrkara eða óskýrra hljóð, en það hefur nú, og því rita fornmenn sumstaðar *i*, er *e* skyldi rita eptir uppruna, og á hinn bóginn rita þeir þráfaldlega *e*, þar sem *i* skyldi rita, helzt í endingum orða, og því heldur þar, sem þar er engin áherzlan, og framburðurinn fljótari, og hljóðið því óskýrra, en í meginhluta, en eigi vegna þess, að þeir hafi kveðið þar að *e*.

Í meginhluta sumra orða er *i* komið fyrir *e* (hljóðvarp af *a*), enda mun alls eigi vert að hverfa þar aptur til upprunans, heldur rita þar *i*, er *i* heyrist; en sjeu báðar myndirnar hafðar í tali, bæði með *e* og *i*, þá er rjettara að halda *e*. Þess konar orð eru t. a. m.: *einbirni* fyrir *einberni* (af *barn*); *girða* fyrir *gerða* (af *garður*; sbr. *gerði*); *girni* *(eingirni, blágirni)* fyrir *gerni* (af *garn*);

*einskipta* fyrir *einskepta* (af *skapt*); sumstaðar mun og vera sagt *einskepta*, þótt jeg haldi það sje eigi mjög tíðkað, að minnsta kosti eigi eins tíðkanlegt og *einskipta; girzkur*[1] fyrir *gerzkur*, sem líka er haft (af *Garðar*). Nú mun almennara *kveðlingur* en *kviðlingur*, en með því fornmenn hafa *kviðlingur*[2], mun óhættara að hafa þá mynd orðsins; því að það er engan veginn víst, að orðið sje myndað af *kvað*, þál. t. af *kveða*, heldur af stofninum *kvið* (á gauzku *qiþan* = *kveða*).

Að hafa *e* fyrir *i* í endingum orða, t. a. m.: *epter* fyrir *eptir*, *viner* fyrir *vinir*, *taker* fyrir *takir*, o. s. frv., er með öllu óleyfilegt, jafnvel í skáldskap, enda þótt slíkt sje almennt hjá rímnasmiðunum á vorum dögum, er svo eru fáfróðir og tilfinningarlausir, að þeir jafnvel flytja áherzluna á endinguna, til að geta bögglað saman vísu.

Fornmenn rituðu opt *e*, eða *y*, þar sem vjer höfum að eins *i*, í *indi*, endingu kynlausra og kvennkenndra nafna (Frump. 134), og rituðu t. a. m. *sannendi, sannyndi*, fyrir *sannindi; kykvendi*, fyrir *kvikindi*; en nú er að eins *i* ritandi í öllum þess kyns orðum, en hvorki *e* eða *y*.

3. Þá er það enn, að *i* er stundum borið fram breiðu hljóði, sem *í*, og veldur því víðast eptirfarandi *gi*; því að *g* er þá borið fram sem *j*, og verður þá *i* á undan nokkru flárra í framburðinum, en þó skal gæta þess, að rita eigi *í*, er *i* skal vera eptir eðli málsins, og því skal rita *i*, en eigi *í*, á undan *gi*:

*a)* í öllum karlkenndum nöfnum í gjör. eint., þar sem *i* er fram borið í hinum föllum þeirra, t. a. m. *svigi*, og sjest það á þol. *sviga*, með því vjer höfum þar grannt hljóðið á undan *g*; *stigi*, þol. *stiga*. Eins skal rita *stigur* (= vegur), en eigi *stígur*; enda segjum vjer *stigamaður*; þó virðist svo, sem það eigi að

[1]) „Óli enn girzki", *Fms. I, 101, og víðar; en*
„Óli enn gerzki", *Fms. I, 190.*
„konungr gaf honum hatt gerzkan", *Nj. 31.*

[2]) *Grett. 17:* „Grettir lèt þá fjúka í kviðlinga".
*Fms. VI, 193:* „Þótti honum illr kviðlingrinn".
— — *194:* „Ok eptir um daginn kastaði Haraldr hinum sama kviðlingi til Þóris, sem hann var vanr".

vera með *í* í Landnámu, er *stíg* á að vera aðalhending við *víg*[1]. En aptur skal rita *í* í einkunnunum *stórstígur, langstígur,* o. s. frv.;

*b)* í þiggj. eint. af hvorugkynsorðum, þótt *í* sje fram borið, ef *i* er haft í þeim föllum, sem eru endingarlaus, eða *a, u,* eða *s* fer á eptir *g,* t. a. m.: *sig (aðsig, hnjesig),* þiggj. *sigi (aðsigi, hnjesigi); stig,* þiggj. *stigi; einstig,* þiggj. *einstigi;* og sömuleiðis í þeim orðum, sem leidd kunna að verða af þessum orðum með afleiðsluendingunni *i,* t. a. m. *einstigi* = *einstig* (aptur *vígi* af *víg,* og *vígi* = *kastali*);

c) í meginhluta einkunna þeirra, sem enda á *inn,* þar sem grannt er hljóðið í hinum samandregnu myndunum, t. a. m. *tiginn,* þiggj. *tignum,* gjör. fleirt. í karlkyni *tignir,* og eins *ótigilegur,* sem af því er leitt;

d) í þál. t. samtengingarháttar, sagnarbót, og hluttekningarorði lið. t. þeirra sagna, er *i* er fram borið í fleirt. þál. t. framsöguháttar, t. a. m. *hnigi, hnigið, hniginn; sigi, sigið, siginn; stigi, stigið, stiginn;* af *hnigum, sigum, stigum* (*hníga, síga, stíga*), og sjest það einnig á öðrum sögnum, er eigi hafa *g,* en beygjast eins, að *i* skuli rita, en eigi *í,* t. a. m.: *ríða (riðum), riði, riðið, riðinn; skríða (skriðum), skriði, skriðið, skriðinn,* o. s. frv.

c) Enn fremur skal *i,* en eigi *í,* rita í orðum þeim, er nú skulu greind:

*illa,*
*illur,*
*illska,*
að *kvitta,*
*kvittur* (fregn, og líka eink., = laus við eitthvað),
*kvittun,*
*tigull,*
*snigill,*
*svim,*

---

[1]) *Ísl.s. I, 163:*
„Varka ek fyrr með fleiri
fetla stígs að vígi“.

að *svima* (en *svíma* = sveima),
*svimi*,
*svimur*,
*niðamyrkur* (af *nið*, tunglskipti, en *níð* = skömm),
*brigzl* (eigi *brígzl*),
að *brigzla* (eigi *brígzla*),
*fitl*,
að *fitla*.

Á hinn bóginn skal rita *í* en eigi *i*, enda þótt að *i* kunni að vera kveðið í daglegu tali, í *líknarbelgur* (af *líkna*), *grískur*, og *heiðríkja* (af *heiðríkur*). Eigi heldur mun *viss* vera forn mynd, heldur *víss* fyrir *vísr*, og er því til sönnunar, að vjer ávallt segjum *víst* í gjör. og þol. eint. í hvorugkyninu.

4. Í fjórða lagi er það athugavert, að í niðurlagi fyrri hluta ýmissa samskeytinga er ýmist haft *i* eða *u* fyrir samskeytingarstaf, svo að það er ýmist sagt *brennivín* eða *brennuvín*, *villidýr* eða *villudýr*, *bifikolla* eða *bifukolla*, o. s. frv.; verður raunar eigi öðruvísi á þetta litið, en að hvortveggja myndin sje rjett, eða að *i* sje optast haft til samtengingar, er fyrri hlutinn sje leiddur af sögn[1], en *u*, ef hann sje leiddur af kvennkenndu nafni, er endast á *a* í gjör. eint., t. a. m. að *villidýr* sje sett saman af *að villa* (*jeg villi*), en *villudýr* af nafninu *villa*, og *dýr*; *i* mun reyndar vera upphaflegra, enda má víst eigi dyljast þess, að sú sje myndin fegri og viðkunnanlegri.

Þá höfum vjer breytt *i* í *u* í 1. pers. fleirt. núl. t., og öllum pers. fleirt. þál. t. í samtengingarhætti, svo að vjer segjum nú *köllum*, *förum*, 1. pers. fleirt. núl. t., *kölluðum*, *kölluðuð*, *kölluðu*; *færum*, *færuð*, *færu*, fleirt. þál. t., þar sem fornmenn sögðu og rituðu *kallim*; *kallaðim*, *kallaðit*, *kallaði*; *færim*, *færit*, *færi*, o. s. frv., eða með öðrum orðum: vjer höfum sömu

---

[1]) *Þó er* herðibreiðr (*fornt*) = herðabreiður, *t. a. m. Fms. VII, 291:* „Hákon konungr var heldr herðibreiðr", *og víðar, en þess ber að gæta, að til er* herðr *í eintölu, þol. og þiggj.* herði, *t. a. m. Sn.-Ed. I, 296:* „Þurði hrönn at herði hauðrs runn", *og af þeirri mynd orðsins mun* herði *í* herðibreiðr *vera runnið.*

beyginguna á sögnum í þessum persónum í samtengingarhætti og í framsöguhætti. Þótt eigi verði móti því borið, að hinar fornu myndirnar sjeu upphaflegri, og lýsi meiri fullkomleika tungunnar, þá eru þær þó á hinn bóginn nú með öllu úreltar, og með því það mundi óvinnandi, að koma þeim á í tali, þá virðist engin þess ástæða, að reyna til að koma þeim á aptur í riti, fremur en t. a. m. *kallaða* fyrir *kallaði, fara* (1. pers. eint. samtengingarh.) fyrir *fari, færa* fyrir *færi, gjafar* fyrir *gjafir, hendr* fyrir *hendur, gefr* fyrir *gefur,* og mörgu öðru þess kyns, sem nú mundi þó þykja óviðkunnanlegt, og láta eigi sem viðfelldnast í eyrum.

5. Af stofni sagna er leiddur í íslenzku fjöldi nafna með því að bæta *sl* við, en nú höfum vjer bætt við *i* að auki, svo að afleiðsluendingin er orðin *sli,* t. a. m. áður: *rennsl, kennsl, smyrsl, beizl, meiðsl,* en nú: *rennsli, kennsli smyrsli, beizli, meiðsli,* enda verða hinar síðari myndirnar að öllum jafnaði liðugri í samanhangandi máli, og eru að öllu rjett myndaðar, og því skal og þær hafa, nema því að eins, að á hinum þurfi að halda fyrir einhverjar sakir, t. a. m. í skáldskap. Ýms eru það og önnur hvorugkyns-nöfn, sem vjer höfum bætt *i* aptan við, sem fornmenn eigi gjörðu að jafnaði, t. a. m. *sík, skíð, skrín, reip, nest,* er vjer nú segjum *síki, skíði, skríni, reipi, nesti,* o. s. frv., og virðast hinar síðari myndir þessara nafna liðugri og viðkunnanlegri, og einkum í eig. eint., þar sem þess konar orð verða stirð og örðug framburðar, ef *i* er sleppt, t. a. m. ef menn segðu *beizls,* f. *beizlis.* Sumir rita enn t. a. m. *alþing, anddyr, bjarndýr,* o. s. frv.; en á þessi orð hefur svo verið litið, bæði að fornu og nýju, að síðari hluti þess konar nafna sje afleiddur, með því að bæta *i* við frumorðið; enda er t. a. m. *dyr* sjálft aldrei haft hvorugkynsorð í eintölu, og er af því auðsjeð, að *dyri* í *anddyri* er afleidd mynd; enda sanna það önnur orð, er ávallt hafa þetta niðurlags-*i,* að rjettara sje að halda því, t. a. m. *alvæpni, fjölmenni, grádýri* (Sn.-Ed. I, 119), *einvígi,* o. s. frv.; eins skal því og rita *alþingi, anddyri, bjarndýri*[1], enda er í eig. eint. ávallt sagt t. a. m. *alþingis,* en eigi *alþings.*

---

[1]) *Í 72. kap. í sögu Haralds harðráða, í Fms. VI, er* bjarn-

Sögnin *hafa* beygist í eint. núl. t. framsöguháttar þannig að fornu: *hefi* (1. pers.), *hefir* (2 og 3. pers.), en nú segjum vjer ávallt: *hef* (1. pers.), *hefur* (2. og 3. pers.), og með því þessi hin yngri beygingin er allt eins regluleg, eða jafnvel reglulegri, ef litið er til beygingar orðsins í öðrum tíðum, virðist alls engin ástæða til, að halda hinum fornu myndunum.

Opt er það, að *i* hverfur eptir fláan staf, *á, ó, ú,* og líka *je,* nú helzt í greininum, þegar hann er skeyttur aptan við nöfn, t. a. m. *ánni, kúnni, tónni, fjenu,* fyrir *áinni, kúinni, tóinni, fjeinu,* og er það í alla staði rjett; því að það er bæði eiginlegt tungunni, og fornmenn gjörðu líka hið sama, enda slepptu miklu optar grönnum staf á eptir fláum, en nú er gjört. En eigi skal þó optar úr fella *i,* eða hvern annan grannan hljóðstaf, á eptir fláum, heldur en framburður vor nú segir til.

Um *i* og *ei* sjá 17. gr.

## 7. grein.

## Um í.

Um blending þessa hljóðs við *i* er nú þegar talað, og um *i* og *í* á undan *nk* og *ng* skal síðar talað (sjá 18. gr.). Enn fremur hefur *í* og *ý* sama hljóð, en hvar *ý* skuli rita, sjá 14. gr.

Um *í* og *ei* sjá 17. gr.

## 8. grein.

## Um o.

1. Þennan staf höfum vjer nú víða, þar sem upphaflega var *á,* og er það á eptir *v;* því að þar rituðu fornmenn ávallt *á,* t. a. m. *vápn, ván, válaður,* o. s. frv.; en þessu *á* höfum vjer nú breytt í *o,* og skal einnig svo rita; því að vjer getum nú eigi öðruvísi á *v* litið, en að það sje hreinn samhljóðandi, en upphaflega er *v* sami stafurinn og *u,* og svo að *v* og annnar stafur úr *u*-flokki eigi stœðu saman, hefur í myndun málsins alstaðar orðið

---

dýri *þrisvar sinnum haft í þol., en einu sinni* bjarndýr; *sömuleiðis* bjarndýri *í þol., í Nj. 23.*

*á* ofan á, þar sem vjer nú höfum *o*[1]. En hitt er eigi rjett, er sumir nú segja og rita: *vórum, vóruð, vóru,* fleirt. þál. t. af *að vera; kómum,* áður *kvámum,* heldur skal rita: *vorum, komum,* o. s. frv.; þó þykir eigi rangt að rita *vó* fyrir *vo,* þál. t. af *að vega,* með því þess eru ýms dæmi, að *á* hefur þegar að fornu breytzt í *ó.* Aptur á hinn bóginn er það með öllu rangmæli, að segja: *forum, foruð, foru,* fleirt. þál. t. af *fara,* fyrir *fórum,* o. s. frv.; því að enginn segir heldur: *jeg for,* heldur: *jeg fór,* eins og *draga, dró; taka, tók; ala, ól,* o. s. frv.

2. Um blending á *o* og *e* sjá 3. gr.

3. Þá segjum vjer *hvur,* bæði fyrir *hver* (sjá 3. gr.) og *hvor,* og er það eigi rjett; en það er sá munur þessara spurningarfornafna, að *hver* (kynl. *hvert)* er haft, þegar talað er um fleiri en tvo, eða einhvern ótiltekið, en *hvor, hvort* (til forna *hvárr, hvár, hvárt),* þegar talað er um tvo að eins; þannig t. a. m.: „*Hver* (margra) *hefur gjört það*"? „*Jeg veit eigi, hver hefur gjört það*". En „*Hvor ykkar* (tveggja) *hefur gjört það*"? Sömuleiðis skal og rita *hvort,* þegar það er haft sem samtengingarorð, hvort heldur í beinum spurningum (t. a. m.: „*Hvort hefur þú gjört það*"?), eða óbeinum setningum (t. a. m.: „*Hann spurði, hvort hann hefði gjört það*". „*Jeg veit eigi, hvort hann hefur gjört það*"), með því merking þess ber það sjálf með sjer, að einungis er talað

---

[1]) *Af sömu rökum er það, að* v *hverfur í burtu í sumum myndum ýmissa orða, þegar* u, o, *eða* y *ætti að fara á eptir því, t. a. m.* hurfum, hyrfi, horfinn, *af* hverfa; urðum, yrði, orðinn, *af* verða; *eins í byrjun orða, t. a. m.* und, *á þýzku* Wunde, *á gauzku* Vunds, *á engilsaxnesku* Vund, *á ensku* wound; ull, *á gauzku* Vulla, *á þýzku* Wolle, *á engilsaxnesku* vull; úlfur, *á gauzku* Vulfs, *á þýzku* Wolf, *á engilsaxnesku* vulf; óður (= *vitlaus*), *á gauzku* vods, *á engilsaxnesku* vod; okur, *á gauzku* vokrs, *á þýzku* Wucher, *á engilsaxnesku* vocor. *Fornmenn hafa og svo á* v *litið, sem það fremur væri hljóðstafur en samhljóðandi, og má því vera til sönnunar, er það í kveðskap er haft sem höfuðstafur eða stuðull við hljóðstaf, t. a. m. Höfuðl. 5:*

„völlr of þrumdi,
en und um glumdi".

um, hvort það sje, eða eigi. Eins skal og rita *o*, þótt vjer nefnum *u*, í þeim orðum, sem leidd eru af *hvor*, eða skeytt saman við það, þegar tveir að eins eru umtalsefnið, t. a. m.: *annarhvor, hvorkinlegur, hvortveggja, hvorugur* (til forna *hvárrgi*). Enn fremur er *stryklota* rjettara en *strykluta*; því að vjer segjum *lota*, en ekki *luta (í einni lotu)*.

Þá bera margir fram *o* fyrir *u* í þiggj. fleirt. nafna, þegar greinirinn er skeyttur saman við þau, og segja t. a. m.: *mönnonum, kononum, skiponum*, o. s. frv., fyrir: *mönnunum, konunum, skipunum*, o. s. frv., og er *o* þar með öllu órjett, enda þarf ei annað til að sjá það, en taka greininn burt, og kemur þá *u* í ljós, t. a. m.: *mönnum, konum, skipum.*

Athugasemd. *Fornmenn hafa opt* o *fyrir* u *(sjá Frump. 196. —199.), t. a. m.* voro, fóro, klokna, hollostu, *fyrir* voru, fóru, klukkna, hollustu; *en nú er allt þess kyns úrelt og óhafandi.*

## 9. grein.
## Um ó.

Sumstaðar er þar nú haft *ó*, er áður var *á*, og í sumum orðum eru bæði hljóðin höfð jöfnum höndum, t. a. m.: *nótt*, áður *nátt*, enda segjum vjer enn *náttmál, náttverður; ásjóna*, áður *ásjána; forsjón* (sbr. *forsjá); sjór* og *sjár; snjór* og *snjár*, o. s. frv.; en eigi verður annað um þessar myndir sagt, en að þær sjeu báðar rjetthafðar, eptir því, sem við á í hvert skipti, enda þótt *ó* sje nú almennast haft, og því orðið viðkunnanlegra á mörgum stöðum.

Athugasemd. *Í fornum bókum er á annan bóginn mjög opt* ó *haft, þar sem vjer nú höfum* á, *og á hinn bóginn* á, *þar sem vjer nú höfum* ó *eingöngu, en eigi er nú að neinu eptir því farandi; þannig t. a. m.:* hór = hár, sjóm = sjám, óst = ást; mjár, mjá, mjátt = mjór, mjó, mjótt, *o. s. frv. Sjá Frump. 141. —183.*

Enn segjum vjer *bón* og *bæn*, og verður eigi öðruvísi á litið, en að báðar myndirnar sjeu jafnrjettar; sbr. 4. gr (um *á* og *æ*).

Þótt vjer að öllum jafnaði segjum og ritum *stafrof*, þá er það eigi eins rjett og *stafróf* (fyrir *stafhróf*; sbr. *hrófa saman*).

Eins mun *flaumósa*, eða *flumósa*, rjettara en *flaumúsa*, eða *flumúsa*.

## 10. grein.

## Um œ.

*œ* (hljóðvarpið af *ó)* og *æ* (hljóðvarpið af *á)* hafa nú að öllu hið sama hljóð, og því getur framburðurinn að engu leiðbeint mönnum, hvar hvor stafurinn skuli hafður. En með því *œ* skal tákna hljóðvarpið af *ó*, skal það hafa í öllum þeim orðum, þar sem *ó* og *œ* skiptast á, og sömuleiðis þeim orðum, er *æ*-hljóð er í, og leidd eru af þeim orðum, er *ó* hafa í stofni sínum. En með því það eigi ávallt liggur í augum uppi, hvort heldur *æ*-hljóðið muni hljóðvarp af *á* eða *ó*, skal nokkur grein á því gjör.

1. Í öllum þeim nöfnum, þar sem *ó* er í sumum föllum, en *æ*-hljóð í sumum, skal þetta *æ*-hljóð rita *œ*, t. a. m.: *bóndi, bœndur; rót, rœtur; fótur, fœti, fœtur; móðir, mœður, mœðrum, mœðra; bróðir, brœður, brœðrum, brœðra; dóttir, dœtur, dœtrum, dœtra,* o. s. frv. Sömuleiðis skal þá *œ* rita í þeim, þótt þau sjeu skeytt saman við önnur orð, ef hljóðvarpið helzt, t. a. m. *brœðralag, sammœðra.*

Athugasemd. *Þau eru orð sum, að eigi skal rita* œ, *heldur* æ, *enda þótt þau nú hafi* ó *í sumum myndum, og eru það þau orð, er að fornu fari hafa haft* á, *þar sem nú er* ó; *því að hljóðvarpið er þar komið af eldri myndinni, og eldra en* ó; *þannig t. a. m.:* nótt (*áður* nátt; *sbr.* náttmál), nætur; spónn (*áður* spánn), spænir, andspænis, skotspænis. *Eins skal rita* æ, *en eigi* œ, *í þeim orðum, er ýmist hafa* ó, á, *eða* æ, *t. a m.:* sjár, sjór, sær; snjár, snjór, snær.

2. *œ* skal og rita í miðstigi og efsta stigi einkunna þeirra, er *ó* hafa í frumstigi; þannig t. a. m.: *stór, stœrri, stœrstur.* Eins *hœgri* (hönd) af *hógur* = *hœgur.*

3. Þá skal enn rita *œ* í þál. t. samtengingarháttar þeirra sagna, er *ó* hafa í fleirt. þál. t. framsöguháttar, með því þál. t. samtengingarháttar er leidd af fleirt. þál. t. framsöguháttar; t. a. m.: *fœri* af *fórum, drœgi* af *drógum, slœgi* af *slógum,* o. s. frv.

Athugasemd. *Þess ber vel að gæta, að þar sem vjer nú höfum* o *á eptir* v, *þar er hljóðvarpið* æ *(eigi* œ); *því að það er komið af hinu forna* á; *sbr. 4. gr. um* á; *t. a. m.:* væri *af* várum *(nú* vorum). *Eins er líka* vægi *af* vágum *(nú* vógum); træði *af* tráðum *(nú* tróðum). *Og sömu reglu skal fylgja í öllum þeim orðum, sem leidd eru af öðrum þeim orðum, er nú hafa* o *á eptir* v, *að hljóðvarpið skal rita* æ *(eigi* œ*), vegna þess, að af hinni eldri myndinni* (vá) *er hljoðvarpið runnið, t. a. m.:* hervæða, *af* váð *(= voð), o. s. frv. Aptur á hinn bóginn skal þó rita* œ, *þar sem* v *er horfið á undan* æ, *því að bæði rita fornmenn svo, enda er það rjett í alla staði, því að* v + æ *stendur í sama hlutfalli við* œ, *eins og* v + i *við* y; *þannig t. a. m.* kœmi = kvæmi (*Ísl. s. II, 355, 359; Fms. X, 298)*, sœfir = svæfir *(sbr.* søfir, *Sn.-Ed. I, 668)*, sœnskur = svenskur, *o. s. frv.*

4. *œ* skal enn rita í eint. núl. tíma framsöguháttar af *gróa* og *róa: grœ, rœ.*

5. *œ* skal enn rita í þeim orðum, er nú skulu greind; því að þau eru mynduð með hljóðvarpi af öðrum orðum, er *ó* hafa í sjer, enda eru enn auðsjen frumorð margra þeirra.

*œgilegur [óg-i, óg-n]*; sbr. að *œgja;*

*œgir [óg-i]* sá sem hræðir (Fms. II, 289.); sjór; líka sjávarguðinn; sbr. *øgir,* Fms. VII, 329;

*œgur [óg-i]*, hræðilegur; sbr. *ýgur;*

að *œgja [óg-i, óg-n]*, hræða; sbr. á engilsaxnesku *oga*, hræðsla; en *æja* = á hestum;

*œglegur* [= œgilegur], Fms. XI, 198;

að *œða [óð-ur* = vitstola];

*œði [óð-ur* = vitstola], kvennk., = vitfirring; líka skeytt framan við önnur orð, = mjög, t. a. m. *œðihár, œðistór,* o. s. frv.;

*œði [óð-ur* = náttúra], hvorugk., = eðli, náttúra; *barnœði;*

*œðri, œðstur,* Ól. h. 21; sbr. *opre,* Frump. 159; *ǫzt*[1], *ǫztr,* Frump. 50, Frump. CI; *enō øzta,* Frump. 50[1].

---

[1]) *Sbr.:* „bræðr; landreki æðri", *Sn.-Ed. I, 316;* „êðre gramr und solu fêðaz", *Sn.-Ed. II, 542, og eru þar* bræðr *og* æðr, êð *og* fêð *aðalhendingar.*

að *æsa* [== *ærsa,* af *ór-ar*], Ól. h. 66; sbr. *austi*ſ*c,* Frump. XXXIX, *østiz øgir,* Fms. VII, 329;

*æsi* [== *ærsi,* af *ór-ar*], fremri hluti samskeyttra orða, t. a. m. *æsikaldur, æsirunnur,* o. s. frv.;

*æsilega* og *æsla* [*ór-ar*];

*æsir* [*ór-ar*], sá sem espar;

*æsing* [*ór-ar*], Ól. h. 53;

*æsingur* [*ór-ar*], eggjan;

*æska* [== *ærska*[1], af *ór*[2] == ungur], Fms. X, 232, Ól. h. 38; sbr. *øscu,* Fms. VII, 327; *ö*ſ*co,* Frump. LXVI; *eó*ſ*co,* Frump. LXVI; *barnæska;*

*æski* [*ósk*], fremri hluti orða, t. a. m. *æskibjóður, æskijörð, æskirýrir,* o. s. frv.;

*æskilegur* [*ósk*], Fms. X, 221, 226;

*æsking* [*ósk*], *tilæskingarsynir,* Fms. III, 166;

að *æskja* [*ósk*];

*ælilegur* [jeg *ól*];

*æll* [jeg *ól*], *óæll;* sbr. *óøll,* Grág. I, 88; en *æla* upp == spúa;

*ær* == *ærinn;* Fms. VI, 87; sbr. *orr,* Fms. IV, 100;

*ær* [*ór-ar*], vitstola, Ól. h. 37; sbr. *øR,* Grág. I, 167; en *ær,* ásauður;

að *æra* [*ór-ar*], gjöra óðan; sbr. *øra,* Sn.-Ed. II, 18; en *æra, ærður,* af *ár,* sem róið er með (*r e m u s*), *sexærður; ært,* af *ár* (*a n n u s*), *illa ært, hallæri, harðæri.*

*æringi* [*ór-ar*], glaðlyndur maður; en *sexæringur, teinæringur,* af *ár;*

*ærinn,* nœgilegur, Fms. X, 223, XI, 36; sbr. *ær, ýrinn;*

*ærsl, ærsli* [*ór-ar*], Fms. X, 379;

að *æxa* [== *vexa* == láta vaxa], auka, fornt orð, eigi haft nema

---

[1]) *Fms. VII, 70:* „ærskan veldr því, er írskum
ann ek betr en mèr svanna".

[2]) *Sn.-Ed. II, 18:* „orar eru úræktir órar"; *miðstigið* ærri;
*Sn.-Ed. II. 18:* „hit ellra (barn) má øra hið øra".

í 3. pers. eint. og fleirt. þál. tíðar, og hluttekn. orði lið. t. (*œxti, œxtu, œxtr*); sbr. *øxt*, Grág. I, 94, 221;

að *œxla* [jeg *óx*], Frump. 190;

*œxli* [jeg *óx*];

að *œpa* [*óp*], Frump. 143, Ól. h. 72;

*œfi* í *auðœfi*; sbr. *auðøfe*, Grág. II, 18, 22, 80; *ꜵþøfi*, Frump. 112, *ꜵþøuō* Frump. 155; *ꜵþævom*, Ísl.s. I, 379; en *æfi*, aldur;

að *œmta* [*óm-ur*], Ísl. s. II, 342;

*kœla* [jeg *kól*], sbr. á engilsaxnesku *col*, á ensku *cool*, á þýzku *kühl*, á dönsku *kölig*, kaldur, svalur; *Köle*, kaldi;

að *kœla* [jeg *kól*]; sbr. á engilsaxnesku *colian*, á ensku *cool*, að verða kaldur, á þýzku *kühlen*, á dönsku *köle*;

*kœna*, bátur; austurfœri; sbr. *kôna*, Sn.-Ed. II, 565;

*kœnska* [*kœnn*];

*kœnleikur* [*kœnn*], Ól. h. 40;

*kœnlegur*, og atv. *kœnlega* [*kœnn*], Ól. h. 27;

*kœnn*, Fms. X, 230; *vígkœnn*, Fms. X, 358; sbr. á þýzku *kühn*, á hollenzku *koen*, djarfur;

*kœpa* [*kóp-ur*], kvennselur;

að *kœpa* [*kóp-ur*], kasta kóp;

*kœplingur* [*kóp-ur*], lítill kópur;

að *kœfa* [*kóf*];

að *klœkja* [*klók-ur*], bera klœk upp á einhvern;

*klœki* [*klók-ur*], *klœkisorð*;

*klœkilegur* [*klók-ur*];

*klœkiskapur* [*klókur*];

*klœkur* [*klók-ur*], yfirsjón;

að *krœkja* [*krókur*]; *crœcði*, Fms. X, 258; en *krœkiber*, *krœklingur*, af *kráka*;

*krœkill* [*krók-ur*], snagi;

*krœkla* [*krók-ur*];

að *gœða* [*góð-ur*], Fms. X, 230;

*gœði* [*góð-ur*]; sbr. *gøþi*, Fms. VII, 346;

*gœðir* [*góð-ur*], sá sem eykur; sá sem fœðir; fornt skálda-

orð; *úlfgæðir,* Fms. X, 354, *böðgæðir, hjörgæðir, hrafngæðir,* o. s. frv.;

*gæðingur* [*góð-ur*], vildarmaður; góðhestur, Fms. X, 303;

*gæzka* [*góð-ur*], Fms. X, 280; *árgæzka;*

*gæla,* optast haft í fleirt. *gælur* [jeg *gól*];

að *gæla* [jeg *gól*], gleðja, Fms. XI, 221;

*gælir* [jeg *gól*], sá sem gleður; fornt skáldaorð, *hrafngælir, svangælir;*

að *glæða* [*glóð*], auka; sbr. á dönsku *gløde;*

*glæra* [*glór-a*], lítil birta;

*glæring* [*glór-a*], *eldglæringar;*

að *glæpast* [*glóp-ur*];

*glæpalegur* og *glæpilegur* [*glóp-ur*], Fms. X, 334;

*glæpugur* [*glóp-ur*];

*glæpur* [*glóp-ur*], Fms. X, 261;

*glæpska* [*glóp-ur*];

að *græða* [*gróð-i*], Fms. X, 263;

*græðari* [*gróð-i*];

*græði* [*gróð-i*] í *græðiblaðka, græðifingur,* o. s. frv.;

*græðir* [*gróð-i*]; en *græðir,* sjór, af *gráð;*

*græðing* [*gróð-i*];

*græðsla* [*gróð-i*];

*græna* í *spanskgræna;* sjá *grænn;*

að *grænast* [*græn-n*], verða grœnn; sbr. *grønast,* Merl. 2, 70;

*græningi* [*græn-n*] í *Græningjasund;*

*grænka* [*græn-n*];

að *grænka* [*græn-n*];

*grænn,* Frump. XXII, *Grænland,* sbr. á þýzku *grün,* hollensku *groen,* á dönsku og sænsku *grön;*

*græfur* [vjer *gróf-um*];

*gnægð* [*gnóg-ur*];

*hægindi* [*hóg-ur*], Ísl. s. II, 393; sbr. *høgenda,* Frump. LXXVI; *óhægende,* Ól. h. 62;

*hægur* [= *hógur*], Fms. X, 291;

að *hægja* [*hóg-ur*];

*hægð* [*hóg-ur*];

*hæglega* [*hóg-ur*];

að *hæta* og *hætta* [= *hóta*], Lokas. 62, Fms. X, 316, Fms. VII, 260, IX, 18;

*hætingur* [*hót-a*], hótun, ógnun[1];

að *hæla* [*hól*], lofa, Ísl. s. II, 369; en *hæla*, reka hæla í;

*hæli* [*hól-l*], skjól, fylgsni;

*hælir* [*hól*], sá sem lofar;

*hælingur* [*hól-l*] í *Esphælingur*, o. s. frv.;

*hælinn* [*hól*], *óhælinn*, *sjálfhælinn;*

*hælni* [*hól*], *sjálfhælni;*

*hæna*, fugl; sbr. *høna*, Sn.-Ed. II, 488, Frump. 96; sbr. á þýzku *Huhn*, á dönsku *Höne*, á sænsku *höna;*

að *hæna* að sjer;

*Hœnir*, einn af ásum; sbr. *hǿni*, Frump. LXIV;

*hænsn;* sbr. *hǿns*, Sn.-Ed. II, 488; sbr. á dönsku *Höns;*

*hæfa*, *óhæfa*, *tilhæfa;*

að *hæfa*, hitta; sbr. *høfðe*, Grág. I, 144; 2, ber, sæmir, Ísl. s. II, 369, Fms. X, 242, Frump. CI; sbr. *hœfer*, Fms. X, 377; *staðhæfa;*

*hæfi*, *athæfi*, Fms. X, 296, XI, 78; *vandhæfi*, *nærhæfis;*

*hæfilegur*, og atv. *hæfilega*, Ísl. s. II, 369; *óhæfilegur*, og atv. *óhæfilega;*

*hæfir*, naut; sbr. *høfis haus*, Ísl. dr. 16;

*hæfing*, hafning;

*hæfindi* [= *hóf*];

*hæfinn*, sem hittir vel;

*hæfur*, hafandi, Fms. XI, 94; *óhæfur*, *lítilhæfur*, *fjölhæfur*, *mikilhæfur;*

*hæfni*, það að hitta vel;

*hæverska;* sbr. á dönsku *hövisk;* *óhæverska;*

*hæverskur;* sbr. á dönsku *hövisk;* *óhæverskur;*

*hæverskl egur*, og atv. *hæversklega* [*hæversk-ur*];

---

[1]) *Sn.-Ed. II, 218:* „hæting ef böl rætir, *og er þar* hæt- *og* ræt- *aðalhendingar.*

*hlægi* [vjer *hlóg-um*], athlátur, Háv. 19; *athlægi,* Fms. X, 279;

*hlægilegur* og *hlæglegur* [vjer *hlóg-um*], Atlam. 53, Helg. Hjörv. 30;

að *hlægja*[1] [vjer *hlóg-um*], fá til að hlæja;

að *hlæða* [jeg *hlóð*], hlaða, Sig. 1, 13;

*hlæðir* [jeg *hlóð*], sá sem hleður, Nj. 22, 30;

*hlæður* [jeg *hlóð*] í *apturhlæður, framhlæður;*

*hræsi* [*hrós*] í *óhræsi, hræsibrekkur;*

*hræsinn* [*hrós*], hróðugur, Háv. 6; sbr. *veghrósinn* (= *veghræsinn,* vegsamlegur, Sn.-Ed. I, 604; *veghrǫssinn,* Sn.-Ed. II, 375;

*hræsni* [*hrós*];

að *hræra*[2], Fms. X, 373; sbr. *hröra,* Helg. Hund. 2, 4; *hrœrþ,* Frump. 51; sbr. á þýzku *rühren,* á dönsku *röre;*

*hrærir,* sá sem hrærir;

*hræring;*

*hrærilegur;* sbr. *røriligum,* Sn.-Ed. II, 398; á dönsku *rörlig;*

*hræpa* [*hróp*], tala illa um; sbr. *hrøp*[1], Frump. LXIV;

*tæki* [jeg *tók*], efni, ráð; *tiltæki, fátæki, tækifæri;*

*tækilegur* [jeg *tók*], Ól. h. 94; *tiltækilegur;*

*tækur* [jeg *tók*], takandi, gjörandi; *fátækur, fasttækur, lagtækur, rjetttækur,* o. s. frv.;

*tækt* [jeg *tók*] í *fátækt;*

að *tæja* [= *tjóa, týja*], hjálpa; sbr. *tør,* Grág. II, 154;

*tæta* [*tót* í *ótót*], loðna; *tætu eða tegund;*

að *tæta* [*tót*], rífa í sundur;

*tætingur* [*tót*], óhroða-ull; 2, sundrun;

---

[1]) *Þetta orð er ritað* hlæja *í Sn.-Ed. I, 214, II, 294:* „at Æsir skyldu hlæja hana", *og er þá ritað beint eptir framburði; en* „þat hlǫgir mik", *Nj. 131 og 143, og er það rjettara.*

[2]) *Í Sn.-Ed. I, 698:* „hróðr dugir hræra
ok honum færa",
*og er þar* hræra *og* færa *aðalhendingar.*

að *tæla* [*tól*], *um tæla*, ráða við, Fms. XI, 92; en *tæla*, af *tál*, svíkja, draga á tálar;

*tænaður* [að *tæja* = *tjóa*], hjálp, Fms. X, 238;

að *tæma* [*tóm-ur*], Ól. h. 60; sbr. *tømiz*, Grág. I, 221;

*dægur*, Fms. X, 250; sbr. *døgr*, Frump. LXII; *døgr*, Sn.-Ed. II, 433; sbr. á engilsaxnesku *dogor*, á dönsku *Dögn;*

*dægris* í *samdægris*, Fms. V, 216; *sídægris*, Fms. IV, 289;

*dæl*, laut, dæld, Sn.-Ed. II, 625, Sturl. IV, 49; sbr. á máli Kymra *dol, doldir;*

*dæla* í skipi; sbr. *døla*, Sn.-Ed. II, 482; *dæluaustur, dæluker;*

*dæld*, laut; sjá *dæl;*

*dælskur*, sem á heima í dal, að eins haft í samskeytingum, t. a. m. *vatnsdælskur*, Ísl.s. II, 335, *haukdælskur, naumdælskur*, o. s. frv.; sjá *dæl;*

*Dæll*, optar í fleirt. *Dælir*, sá sem á heima í dal, Ól. h. 23; helzt haft sem síðari hluti orðs, t. a. m. *Flókdælir*. Ísl.s. II, 345; *Bryndælir*, Sn.-Ed. II, 493 (ritað *bryndøla*), o. s. frv.; sjá *dæl;* en *dæll*, góður viðfangs, *ódæll*, Ól. h. 22, *inndæll;*

að *dæma* [*dóm-ur*], Fms. X, 309, Ól. h. 80; sbr. á dönsku *dömme;*

*dæmi* [*dóm-ur*], Fms. X, 257; sbr. *déomō*, Frump. XVIII; *einsdæmi, ódæmi, fádæmi;*

*dæmi* [*dóm-ur*] í samskeytingum, t. a. m. *keisaradæmi, biskupsdæmi, sjálfdæmi; dæmistóll*, o. s. frv.; sbr. á dönsku *dömme* i *Keiserdömme, Bispedömme;*

*dæmilegur* [*dóm-ur*] í *fádæmilegur;*

*dæmir* [*dóm-ur*], sá sem dæmir;

*dæming* [*dóm-ur*]; sbr. *dømingar*, Grág. II, 147; *dømengen*, Frump. 187;

*dæmur* [*dóm-ur*] í *rjettdæmur;*

*drægur* [vjer *dróg-um*], *harðdrægur, hógdrægur, hliðdrægur;*

*drægja* [vjer *dróg-um*]; *drægjulegur;*

*drægsli* [vjer *dróg-um*]; *drægslislegur;*

*drægni* [vjer *dróg-um*] í *eindrægni, tvídrægni;*

*dræsa* [*drós?*]; sbr. *drøso,* Skuggs. 178; sbr. á gauzku *driusan,* falla; á engilsaxnesku *dreosan;*

*þæfa* [*þóf*];

að *þæfa* [*þóf*];

*þæfinn* [*þóf*];

*þæfð* [*þóf*];

*þæfni* [*þóf*];

*Þrændur* [*Þrónd-*], Ól. h. 54; sbr. *Þrøndr,* Fms. VII, 334; *Þrœnder,* Fms. X, 381; *Þrœndi,* Fms. X, 410, Frump. 51; sbr. *Þrondheims,* Fms. X, 382, Frump. XXXIX[1]; sbr. nú *Throndhjem;*

*þrænzkur*[2], Ól. h. 78;

*sæing,* saumur [af *sæja* eða *sýja,* sauma; af því eru hluttekningarorðin *seðir,* Sn.-Ed. I, 418, og *seðar,* Sn.-Ed. I, 423, = *sæðir* og *sæðar,* og *sæða,* Fms. XI, 197; af *sæja* virðist líka vera *sépv* (= *sæðu*), þriðja persóna fleirtölu þálegrar tíðar í framsöguhætti, Sn.-Ed. II, 20]; sbr. á gauzku *siuan;* á engilsaxnesku *siwian;* á ensku *sew;* á dönsku *sye;* á sænsku *sy;* á latínu *suere;* en *sæng,* áður *sæing,* rúm;

*sæki* í fornum samskeytingum, t. a. m. *sækiálfur, sækinjörður,* o. s. frv.; sjá *sækja;*

*sækilega* í *þrásækilega;* sjá *sækja;*

*sækir,* sá sem sækir, *heimsækir, mensækir,* o. s. frv.; sjá *sækja;*

*sækinn* í *þrásækinn;* sjá *sækja;*

að *sækja* [sbr. *sókti* = *sótti*]; sbr. *tilsøkja,* Fms. VII, 330; sbr. á gauzku *sokjan;* á engilsaxnesku *socan;* á þýzku *suchen;* á dönsku *söge;* á sænsku *söka;*

*sækni* í *ásækni;* sjá *sækja;*

að *sæta,* gjöra sætt; sjá *sætur;* en *sæta* hey, af *sáta; sæta* einhverju [vjer *sát-um*];

*sætindi,* sjá *sætur;*

---

[1]) *Sn.-Ed. II, 248:* „hverir bændu slíks? Þrændir", *og er þar* bænd- *og* Þrænd- *aðalhendingar.*

[2]) *Sn.-Ed. II, 168:* „þrænskr jarl konung sænskan", *og er þar* þrænsk- *og* sænsk- *aðalhendingar.*

*sætur,* Fms. X, 241; sbr. *sotan,* Frump, LXXIII; sbr. á gauzku *sutis*; á engilsaxnesku *swet;* á ensku *sweet;* á þýzku *süss;* á dönsku *söd;* á sænsku *söt;*

*sætleikur,* Fms. X, 288; Frump. 102 (ritað *sotleix*); sjá *sætur;*

*sætlegur,* sjá *sætur;*

að *sætna,* sjá *sætur;*

*sær* [jeg *sór*]; *sær dagur; ósær;*

að *særa* [jeg *sór*], sárbæna; en *særa,* af *sár;*

*særi* [jeg *sór*], eiður; sbr. *sorin,* Sn.-Ed. II, 18; en *særi,* af *sár,* t. a. m. í *varasæri;*

*særing* [jeg *sór*];

*sænskur* [= *svenskur*], Fms. XI, 183; sbr. *sønscir,* Grág. I, 172; *sønsca,* Ísl. s. I, 374;

að *sæfa* [= *svæfa*];

*sæfir* [= *svæfir*], sverð; sbr. *söfis,* Sn.-Ed. I, 668;

að *sæma* [*sóm-i*], Ísl. s. II, 340; sbr. á dönsku *sömme;*

*sæmilegur,* og atv. *sæmilega* [*sóm-i*], Fms. X, 225, Frump. XXII, Fms. X, 234, Ísl.s. II, 339; sbr. á dönsku *sømmelig;*

*sæmir* [*sóm-i*], sá sem sæmir;

*sæmur* [*sóm-i*], Nj. 51; *ósæmur;* sbr. *óséomt,* Frump. XVIII; *alsæmur,* Rígsm. 1; *baugsæmur;*

*sæmd* [*sóm-i*], Fms. X, 230, Ísl.s. II, 341; sbr. *sômðar,* Frump. XXIX;

að *skæða* [*skó-r*], Fms. XI, 197;

*skæði* [*skó-r*], efni í skó;

*skæði* [*skóð*], það að vera skæður, í *tunguskæði;* Frump. 50;

*skæður* [*skóð*], Fms. X, 362[1];

*skæfur* [jeg *skóf*] í *auðskæfur,* Ar. 16;

*skræða* [*skrjóð-ur*];

að *skræpa* [*skróp-ar*], gjöra sjer upp; sbr. *scropa,* Frump. 16;

að *stækka* [*stór*];

*stæða* [jeg *stóð*] í *innstæða;* sbr. *iNstoðor,* Grág. I, 231; líka

---

[1]) *Fms. V, 364:* „hjálmskæð, Grikkir flæðu", *og er þar* skæð *og* flæð - *aðalhendingar.*

*innstæði*, karlk.; sbr. *iNstøðaN*, Grág. I, 227; *iNstøða*, Grág. I, 233, og víðar;

*stæði* [jeg *stóð*] í *hússtæði*, *búðarstæði*, *vefstæði*, o. s. frv.;

*stæðilegur* [jeg *stóð*]; *undirstæðilegur*, Sn.-Ed. II, 423;

*stæðingur* [jeg *stóð*], eitthvað á skipi; sbr. *stöðingar*, Sn.-Ed. I, 588; *einstæðingur*;

*stæður* [jeg *stóð*]; *einstæður*, *hugstæður*, *minnisstæður*, *samstæður*;

að *stæra* [*stór*], auka;

*stæri* [*stór*] í *stærilátur*, *stærilæti*;

*stærir* [*stór*], sá sem eykur;

*stærð* [*stór*];

*slæki?* [*slók-ur*, Sn.-Ed. II, 495];

*slækinn?* [*slók-ur*];

*slækja?* [*slók-ur*] = slœki;

að *slækja?* [*slók-ur*], ganga letilega;

*slækni?* [*slók-ur*], leti;

*slægur* [vjer *slóg-um*], hagur;

*slægur* [vjer *slóg-um*], brögðóttur; sbr. *sløgið*, Frump. 57; *slogre*, Frump. 159; *sløgvitr*, Fms. X, 420; líka um hest, sem slær;

að *slægja* [*slóg*] fisk, taka innan úr fiski;

*slægja* [vjer *slóg-um*];

*slægð* [vjer *slóg-um*], Fms. X, 269; sbr. *sløgþ*, Frump. 64;

*slæglegur*, og atv. *slæglega* [vjer *slógum*], Fms. X, 358;

*slæður* [*slóð*], að eins haft í fleirtölu: sloppur; 2) tíningur;

að *slæða* [*slóð*];

*slæðingur* [*slóð*];

*slæglega* [= *sljólega*], Nj. 156;

*slær* [= *sljó-r*], *óslær*; sbr. á dönsku *sløv*;

að *slævast* [*sljó-r*], sljóvgast;

að *slæma*, Ól. h. 42;

*snæðir?* sá sem flýtir, Sn.-Ed. I, 686; sbr. *snyðja*, og *snúða*;

*snæri*, sbr. *snúa*, *snöri* = sneri, Ól. h. 2;

*snærður*, þáttaður, í *fjölsnærður*, Sn.-Ed. I, 682;

*spækja* [*spók-ur*], spýta;

að *spækja* [*spók-ur*], repta;

*lækur,* Ísl. s. II, 339, 340; sbr. *løkr,* Sn.-Ed. II, 80, 479;

*lægir* [*lóg-a*], sá sem fargar, Ól. h. 53;

*læna* [*lón*];

*rækilegur,* og atv. *rækilega,* Frump. XXI; sbr. *røkileg,* Sn.-Ed. II, 86; sjá *rækja;*

*rækinn; ættrækinn, trúrækinn, bænrækinn,* o. s. frv.; sjá *rækja;* en *rækur,* sem verður hrakinn [vjer *rák-um*];

að *rækja; órækjast,* Fms. X, 343; sbr. *afrøcþiz,* Fms. VII, 327; sbr. á dönsku *rögte;*

*rækt;* sbr. *rǫ́kþ,* Frump. 50; sbr. *oröctar,* Grág. II, 55; *vanrækt;* sjá *rækja;*

að *rækta,* sjá *rækja;*

*ræktun,* sjá *rækja;*

*ræksla,* sjá *rækja;*

*rægi* [*róg*] í *rægikarl,* o. s. frv.;

*rægilegur* [*róg*], *rægilegt fall,* Sn.-Ed. II, 116;

að *rægja* [*róg*], Fms. X, 232;

að *ræta* [*rót*], Fms. X, 236;

*rætingur* eða *rætlingur* [*rót*], lítil rót;

*ræða,* Fms. X, 222, Frump. XXI; sbr. *reóþa,* Frump. 51; sjá að *ræða;*

að *ræða,* Fms. X, 232, Frump. XXII; sbr. *røddo,* Fms. VIII, 331; sbr. á gauzku *rodjan;*

*ræði* [*róður*], ár; sbr. *góþrøþi,* Sn.-Ed. II, 22;

*ræði* [*ræða*] í *viðræðisgóður;* sjá að *ræða;* en *ræði,* af *ráð,* í *skjótræði,* o. s. frv.;

*ræðilegur,* og atv. *ræðilega,* í *óumræðilegur* og *óumræðilega;* sbr. *oūbrøþelego* og *oūbroþelegō,* Frump. 188; sjá að *ræða;*

*ræðinn,* sjá að *ræða;*

*ræður* í *rjettræður* (um stafi); sjá að *ræða;*

*ræður* í *áttræður, níræður, tíræður, tólfræður;* sbr. *attrøþr,* Grág. I, 224; *attrøðr,* Grág. I, 246; sbr. *atrøþr,* Ísl.s. I, 364;

*ræna*, vit; sbr. *rún;*

að *ræna* í að *norræna;*

*ræna* í *útræna, austræna, suðræna, vestræna;* sbr. á engilsaxnesku *ryne;* en að *ræna* [*rán*]; *ræningi;*

*rænn* í *einrænn, austrænn, suðrænn, vestrænn, norrænn, fárænn, fjallrænn;* sbr. *norøN*, Grág. I, 169, og víðar; sbr. *norrōna*, Frump. 142; *noꝛrǿna*, Frump. 171; *norønſ* og *aꝛſtrøN*, Ísl.s. I, 365;

*rænlega* í *einrænlega;*

að *ræma* [*róm-ur*]; *alræmdur, tíðræmdur, þjóðræmdur*, o. s. frv.;

*ræmi* [*róm-ur*] í *alræmi, samræmi;*

*nægilegur* [*nóg-ur*];

*nægur* [*nóg-ur*];

að *nægja* [*nóg-ur*];

*nægt* [*nóg-ur*];

að *næra*, Frump. 50, Fms. X, 368; sbr. *nøra*, Frump. 207; sbr. *gunnórúnga*, Ísl. s. II, 361, 390; sbr. á ensku *nourish*, og *nurse;*

*nærir*, sá sem nærir, Fms. X, 376; sbr. *gunnörum*, Sn.-Ed. I, 696; sjá að *næra;*

*næring*, Frump. 50; sbr. *nǫreng*, Frump. 187; sjá að *næra;*

*næfur?* hagur, Ól. h. 88;

*næfurlega?* haganlega, Fms. X, 231;

*plæging* [*plóg-ur*];

*plæginn* [*plóg-ur*] í *sjerplæginn;*

*plægja* [*plóg-ur*];

*bæki* [*bók* = beykitrje]; *bækiskógur*, Fms. XI, 224;

*bæklingur* [*bók*];

*bægsli* [*bóg-ur*];

að *bæta* [*bót*]; sbr. *bota*, Grág. I, 129, Frump. XXVII;

*bætanlegur* [*bót*]; *óbætanlegur;*

*bætilegur* [*bót*]; *óbætilegur;*

*bæti* [*bót*] í *bætifláki, bætiþráður;*

*bætir* [*bót*], sá sem bætir; *kaupbætir, skapbætir, lagabætir, brjóstbætir; viðbætir;*

að *bæla* [*ból*]; en *bæla* [*bál*], brenna;

*bæli* [*ból*]; *svínabæli, bjarnarbæli;*

*bælingur* [*ból*] í *nýbælingur*, nýbýlingur; *Breiðbælingur;*

*bæll* [*ból*], byggjandi;

*bær* [*bú-a, bjó*], Fms. X, 264, Ísl. s. II, 334; sbr. *bó*, Frump. 167; sbr. á dönsku *By;* en *bær* [vjer *bár-um*], sem verður borinn; sem ber, *snemmbær, jólbær; frábær, ljábær; bærilegur;*

*bæn* [*bón*], Fms. X, 244; sbr. *bónō*, Frump. 165;

að *bæna* [*bón*]; sbr. *bǿndr*, Grág. I, 10; *grátbæna, sárbæna;*

*bæninn* [*bón*];

*bænn* [*bón*] í *gjörbænn, torbænn;*

*blæti* [*blót*], það sem blótað er, í registrinu aptan við „Syntagma de baptismo";

að *blæða* [*blóð*]; sbr. *bløpir*, Grág. I, 148;

*bræðra* [*bróðir*] í *næstabræðra;* sbr. *næsta brøðro*, Grág. II, 52, 59;

*bræðri* [*bróðir*] í *næstabræðri, annarabræðri, priðjabræðri;* sbr. *priðia-brøðre, anara-brøðre*, Grág. II, 26;

*bræðrunga* [*bróðir*];

*bræðrungur* [*bróðir*]; sbr. *brøðrungar*, Grág. I, 193, II, 60;

*fæta* [*fót-ur*] í *háfæta*, Fsk. 143; sbr. *hᴐfᴐto*, Fms. X, 378;

*fætingur* [*fót-ur*] í *andfætingur, einfætingur;*

*fættur* [*fót-ur*] í *hraðfættur, sárfættur, stórfættur, langfættur, berfættur, lítt fættur*, Ól. h. 22; *ferfættur, margfættur*, o. s. frv.;

*fætla* [*fót-ur*] í *hundraðfætla, margfætla*, o. s. frv.;

*fætlingur* [*fót-ur*] í *gulfætlingur;*

*fæða* [*fóð-ur*]; sjá að *fæða;*

að *fæða* [*fóð-ur*], eiga, bera (barn); 2) ala upp, fœra fram; Fms. X, 235; sbr. *føða*, Grág. II, 22; *féopō*, Frum. XVIII; á gauzku *fodjan;* á ensku *food;* á þýzku *füttern;* á dönsku *föde;* á sœnsku *föda;*

*fæði* [*fóð-ur*]; sjá að *fæða;*

*fæðir* [*fóð-ur*], sá sem elur; sjá *fæða;*

*fæðing;* sjá að *fæða;*

*fæðingi,* sá sem er borinn og barnfæddur, Fms. X, 225;

*fæðsla [fóð-ur],* Fms. X, 219; sbr. *feozlo,* Frump. XVIII; *føtflo* og *fótflo,* Frump. 93;

að *fæla [fól],* kalla heimskingja; sbr. *føler,* Frump. LXIV; en *fæla? [fál-a],* hræða;

*fær* [jeg *fór*]; sbr. *þingføʀ,* Grág. I, 119; *orðfær, einfær, seinfær, skjótfær;* 2) sem verður farinn, *fær vegur, fært veður;*

*færa* [jeg *fór*] í *ófæra, torfæra;*

að *færa* [jeg *fór*], sbr. *fora,* Grág. I, 140; *ráðfæra, orðfæra, sannfæra;*

*færi* [jeg *fór*], það að færa, *framfæri, orðfæri, málfæri;* 2) tól; *hljóðfæri, reiðfæri, verkfæri,* Ísl. s. II, 329; 3) tækifæri; en *fær,* sauður, t. a. m. *færsauður, Færeyjar, færilús;* sbr. á dönsku *Faar;*

*færi* [jeg *fór*] í *færikvíar, færiöndur, færilykkja;*

*færilegur* [jeg *fór*]; sbr. *førilict,* Fms. VII, 335;

*færir* [jeg *fór*], sá sem flytur, í *skattfærir;*

*færing* [jeg *fór*] í *sannfæring, ráðfæring, fórnfæring, framfæring;*

*færinn* [jeg *fór*] í *nærfærinn, varfærinn;*

*færni* [jeg *fór*] í *nærfærni, varfærni;*

*færð* [jeg *fór*];

*færsla* [jeg *fór*]; *lagfærsla, undanfærsla,* Ól. h. 81;

*færleikur* [jeg *fór*], það að vera fær; en *færleikur,* hestur;

*flæja* (fornt) = *flýja;*

*flækingur [flók-i]; flækingslegur;*

*flækja [flók-i]; lagaflækjur;*

að *flækja* og *flækjast [flók-i];*

að *flæða [flóð];*

*flæði* og *flæður [flóð];* Frump. XXI;

að *flæma?* sbr. *flaum-ur;* sbr. á engilsaxnesku *flyman;*

*flæmingur?* sbr. á engilsaxnesku *flyming* og *flyma;*

*fræ [frjó-r];* sbr. á dönsku og sænsku *Frö;*

*frækilegur,* og atv. *frækilega;*

*frækinn,* Ól. h. 50;

*frækleikur;*

*fræklegur;*

*frækn* = *frækinn,* Grímn. 17, Ól. h. 50;

*fræknleikur,* Fms. X, 256;

*fræknlegur,* og atv. *fræknlega,* Ísl. s. II, 369;

að *fræða* [*fróð-ur*];

*fræði* [*fróð-ur*]; *guðfræði, málfræði,* o. s. frv.;

*fræðingur* [*fróð-ur*] í *guðfræðingur, málfræðingur,* o. s. frv.;

*frær* [*frjór*];

*frænn* [*fræ*] í *sjálffrænn;*

að *fræva, frævast* [*fræ*];

að *mæta* [*mót*], Fms. X, 248, Ól. h. 72; sbr. *mötti,* Fms. VII, 340; en *mæti* [vjer *mát-um*], virðing; *mætur,* ágætur;

*mæða* [*móð-ur*]; *mæðusamur;*

að *mæða* [*móð-ur*], Fms. X, 357; *ómæddur, örmæddur;*

*mæði* [*móð-ur*]; *þolinmæði;*

*mæðisamur* [*móð-ur*], Ól. h. 89;

*mæðilegur,* og atv. *mæðilega* [*móð-ur*];

*mæðir* [*móð-ur*], sá sem mæðir;

*mæðing* [*móð-ur*], Lilja, 79;

*mæðinn* [*móð-ur*]; *ómæðinn;*

*mæðgin* [*móð-ir*];

*mæðgur* [*móð-ir*];

*mæðri* [*móðir*] í *sammæðri;* sbr. *sammøðri,* Grág. I, 167;

*mær* [*mó-r*], jörð; sb. *mörar,* Sn.-Ed. I, 300;

*mær*[1], frægur, ágætur, Völusp. 2, 4, Hýmk. 21, Atlam. 8, 93, Hamd. 12, Atlak. 5, Ísl. s. II, 353; en *mær,* stúlka;

---

[1]) *Enda þótt eigi finnist neitt það orð í öðrum málum, er með vissu bendi til hljóðvarpsins œ í þessu orði, og þeim, sem af sama stofni eru leidd, að* mœra, mœringur, mœrð, *þá verður þó að fylgja rithætti þeirra fornbóka, er að greina æ og œ; auk þessa má telja, að þessi orð eru víða höfð til aðalhendinga við önnur orð, er hafa œ í sjer, t. a. m. Sn.-Ed. I, 682:*

að *mæra,* lofa, Fms. VII, 152;

*Mæri* [*mó-r?*], hjerað í Noregi; sbr. *More,* Ísl.s. I, 364; *Mœri,* Fms. X, 387; *Norðmæri, Sunnmæri;* sbr. *Norþmøri,* Fms. VII, 335; *Sunmore,* Fms. X, 412;

*Mærir,* íbúar Mœrar í Noregi; sbr. *Mørir,* Fms. VII, 339; *Mœrom,* Fms. X, 386; *Norðmærir, Sunnmærir;*

*mæringur,* frægur, ágætur maður;

*mærð* og *mærður;*

*mærskur,* sem er frá Mœri í Noregi, Fms. X, 355;

að *mærna,* ysta; sbr. að *meyrna;*

*mærningur,* ystingur;

*mæna?* í hrygg;

að *mæna* hús; sbr. *møndi,* Sn.-Ed. II, 22;

*mænir;* sbr. á dönsku *Mönning.*

## 11. grein.

## Um u.

1. Í hinni fornu afleiðsluendingu kvennkenndra nafna, *an,* er þau eru leidd af stofni sagna, hefur *a* á síðari tímum breytzt í *u* í gjör., þol. og þiggj. eint. Nú vilja sumir halda hinni fornu endingu; en með því hún er nú með öllu úrelt í tali, og hin síðari endingin er í alla staði rjett og samkvæm eðli málsins, þá er alls engin ástœða til, að hverfa aptur til fornmálsins í þessu efni, heldur skal rita sem talað er, t. a. m.: *myndun* fyrir *myndan, huggun* fyrir *huggan,* o. s. frv. Eins hefur *aður,* afleiðsluending karlkenndra nafna, breytzt í *uður* í flestum þeirra orða, og ef *a* hefur verið í atkvæðinu á undan, hefur það breytzt í *ö;* verður hin forna myndin nú mjög svo óviðfelldin í sumum orðum, og stundum annarar merkingar, t. a. m. orðið *söfnuður* og *safnaður,* með því vjer nú höfum *safnaður* einungis þá, þegar fyrirlitlega er talað um eitthvað; t. a. m.: *„tarna er fallegur safnaður“;* en

---

mœrð fjölsnœrða; *Fms. V, 355:* dragist mœrð þannig hrœrða; *sbr. Sn.-Ed. I, 314:* munstörandi möra (= munstœrandi mœra); *og á hinn bóginn til skothendingar við þau orð, er æ hafa í sjer, t. a. m. Fms. VII, 152:* værir mildr, ef mœra.

með því endingin *uður* er nú orðin almenn, og í engu gagnstæð eðli málsins, þá skal og svo rita, þar sem svo er að kveðið, en *aður*, þar sem svo er að kveðið, og rita t. a. m. *fögnuður*, en *hagnaður*.

2. Af því *u* og *ö* hafa nokkuð líkt hljóð í fljótum framburði, er engin áherzla liggur á þeim, þá er *ö* ranglega komið í gjör., þol. og þiggj. fleirt. af *hjerað*, svo að menn segja nú *hjeröð*, og sumir, er eigi þekkja eðli málsins til hlítar, rita og svo eptir framburði. Orðið mun vera myndað af *hjer*[1] (*hic*), og afleiðsluendingunni *að*; en það er einkenni allra orða í íslenzku, er meginhluti þeirra er tvö atkvæði, og í beygingarendingu er *u*, eða endingin hefur upphaflega verið *u*, eins og er um fleirt. hvorugkynsorða, að *a* í síðara atkvæðinu breytist í *u*, en í hinu fyrra í *ö*, ef það er þar, og því skal rita *hjeruð*, eins og *sumur*; sbr. t. a. m. *köllurum*, af *kallari*, *kölluðum*, af *kallaði*, *ríkust*, af *ríkastur*. Eptir sömu reglu skal líka rita *einurð*, en eigi *einörð*; því að kvennkynsnöfn þau, er enga beygingarendingu hafa í gjör. eint., hafa að uppruna sínum endað á *u*, en sem fallið er í burtu, og veldur þó hljóðvarpinu, eins og það hjeldist. Ef á hinn bóginn meginhluti orðsins er að eins eitt atkvæði, þá verður *a* að *ö*, eins og t. a. m.: *land*, *lönd*, *för*, *spök*, *köllum*. Sömu regla fylgja og samsett orð, allt eptir því, hvort síðari hluti samskeytingsins er eitt atkvæði eða tvö; því að hljóðvarp verður aldrei í fyrri hlutanum, þótt *u* eða *i* verði í endingunni. En orðin: *kafald*, *hafald*, breytast óreglulega, er fleirt. verður *köföld*, *höföld*, og hafa því í fyrra atkvæðinu hljóðvarp samsettra orða, en í hinu síðara ósamsettra, og eins er um *kerald* og *folald*, fleirt. *keröld*, *folöld*, og skal þó rita þau orð, eins og að þeim er kveðið.

Þá er enn, að *ö* og *u* skiptast á í *örmull* og *urmull*; en munu þetta ekki tvö orð ólíks uppruna? Jeg held rjettast, að rita *örmull*, þegar það merkir *leifar*, en *urmull*, er það merkir *fjöldi* (sbr. *Vrimmel* á dönsku).

3. Þá er enn *u* komið í staðinn fyrir *i* í *ugur* (áður *igr*),

---

[1]) *Sumir telja það leitt af* her (*herlið*), *og* hjerað *sje fyrir* herjað.

afleiðsluendingu einkunna; t. a. m.: *máttugur, kunnugur, auðugur,* er áður var *máttigr, kunnigr, auðigr,* og skal nú og *u* rita í þessari endingu, eins og talað er. Draga má þessi orð saman, er beygingarendingin hefst á hljóðstaf, ef svo þykir betur fara, og rita t. a. m.: *auðgum, auðga, auðgir,* eins og alltítt er í fornum bókum. Aptur á hinn bóginn verður það með engu rjettlætt, er vjer nú segjum t. a. m.: *hann kvaðst mundi* eða *skyldi gjöra það,* fyrir: *mundu* eða *skyldu;* því að *mundi* og *skyldi* getur eptir mynd sinni eigi verið annað en þál. t. samtengingarháttar, en þá mynd sagnarinnar má eptir eðli tungunnar eigi hafa í þessu og öðrum eins dœmum; því að *kvaðst* (= kvað sig) og *sagðist* (= sagði sig) heimtar nafnhátt á eptir, eins og sjá má, ef vjer segjum t. a. m.: *hann sagðist vera að gjöra það; hann kvaðst vilja, ætla,* o. s. frv., *gjöra það.* En nafnhátturinn af sögninni *jeg mun* er *munu* eða *mundu* (að fornu opt líka *myndu*[1]), og af *jeg skal* er hann *skulu* eða *skyldu*[2]; þessa mynd nafnháttar hafa menn eigi skilið, og því breytt henni; en með því engin önnur mynd er til af nafnhætti þessara sagna, verður að halda hinum fornu myndunum.

Ýms eru þau orð í íslenzku, er *u* og *y* skiptast á í, eða þau eru ýmist með hljóðvarpi eða án þess, og eru báðar myndirnar rjettar, t. a. m. *fussa* og *fyssa, glumur* og *glymur, gluggur* og *glyggur,* og verður eigi önnur regla um þau sögð, en að hafa skal þá myndina, sem almennust er og viðkunnanlegust; og þótt svo sýnist, að heldur ætti *y* að vera, þar sem það er fyrir *vi* eða *ve,* þá hefur *u* náð slíkri festu í sumum orðum, að alls eigi er reynandi, að rýma því í burtu; enda hafa fornmenn það einnig í sumum þess konar orða, og má vel segja, að *u* sje allt eins rjett og *y;* þannig t. a. m. *forusta,* fyrir *forvista, dögurður,* fyrir *dagverður* (enda er aldrei sagt: *dögyrður);* því að *u* er eigi fram komið af *v+i,* eða *v+e,* heldur hefur *v* breytzt í *u,* en *i* eða *e* fallið úr. Sum eru þau orð, að vjer berum fram *u* í, í staðinn

[1]) *Fms. VI, 313:* hauklyndr vera myndu, *þar sem* lynd *og* mynd *eru aðalhendingar.*

[2]) *Eins er* vildu, Nj. 32, *Fms. XI, 10.*

fyrir *y*, en þar sem *y* er þó rjetthafðara; þannig t. a. m.: *spyrja, kyrr*, rjettara en *spurja, kjurr;* sbr. 13. gr.

Athugasemd. *Fornmenn skipta á um u og y miklu meir, en vjer gjörum, einkum í skáldskap, er þeir virðast hafa sína myndina á hverjum staðnum, rjett eptir því, hvor þeim þótti viðfelldnust á hverjum staðnum.*

Um blending á *u* og *au* sjá 15. gr.

Um *u* og *ú* á undan *ng* sjá 18. gr.

## 12. grein.

## Um ú.

Það virðist eigi nauðsyn til bera, að fjölyrða um þennan staf, með því hann hefur skýrt hljóð, og hvorki blandast mjög við aðra hljóðstafi í framburði, nje að aðrir stafir sjeu komnir þar, er *ú* skyldi rita. Reyndar er það, að *úr* skiptist á við *ör, er*, er það er skeytt framan við orð, og þó eigi í sama orðinu, t. a. m. er vjer segjum: *úrvinda, örendur, erlendis*, sökum þess, að upprunamyndin hefur verið *ur*, enda verður nú að rita þar *úr*, er svo er sagt, þar *ör*, er það heyrist, og þar *er*, er svo er að kveðið. Eins er um það, er ýmist er haft *ú* eða *ý* í sama orðinu, t. a. m.: *drúldinn* og *drýldinn*, að hafa verður þá mynd þeirra orða, er fegri þykir og almennust er.

Bæði í ritum, fornum og nýjum, og eins í daglegu tali er þál. tíð framsöguháttar af *flýja* opt *flýði*, og sagnarbótin *flýð;* en rjettara er þó *flúði* og *flúið*, eins og *lúði, lúið* og *lúð*, af *lýja, knúði, knúð*, af *knýja*. Þar sem aptur á móti nafnháttur sagnarinnar *flýja* er ritaður *flúa*, þá verður sú mynd eigi talin annað en bögumæli.

Um *brullaup* og *brúðhlaup* sjá 22. gr.; sbr. og 17. gr.

## 13. grein.

## Um y.

Þessi stafur hefur nú að öllu sama hljóð og *i*, og getur því hljóðið í engu leiðbeint, hvar *i* skuli rita og hvar *y*, og verður því ávallt að leita upprunans, og skal þá rita *y* í öllum þeim orðum, eða

orðmyndum, sem leidd eru af þeim orðum, sem *u* eða *o* hafa, með því *y* er hljóðvarp af þessum stöfum, og veldur því eptirfarandi *i*, en það *i* kemur þó eigi ávallt fram í vorri tungu. En töluverða þekkingu á tungunni þarf til þess, ávallt að sjá afleiðsluna, og í mörgum orðum verður jafnvel að leita frumorðsins út fyrir íslenzkuna, og má nokkuð fara eptir því, hvar Danir rita *u*, *y* eða *ö*; því að í flestum þeim orðum, þar sem einhver þessara stafa er í tilsvarandi orðum í dönsku, skal í íslenzku rita *y*, ef *i* er fram borið; en þó er danskan heldur eigi einhlít. Í sumum orðum verður og beinlínis að fara eptir rithætti fornmanna, og verður engin regla fundin sú, er einhlít sje, og öllum ljós, og verður því að telja upp þau orðin, er *y* skal rita[1]. En til að stytta fyrir, má þó gefa nokkrar reglur, þær er eigi má á villast, ef aðgæzla er við höfð.

Þannig skal þá rita *y*, þegar *i*-hljóð er í framburðinum:

1, í þiggj. eint., gjör. og þol. fleirt. af *sonur: syni, synir, syni;*

2, í meginhluta miðstigs og efsta stigs einkunna þeirra, er *u* hafa í meginhluta frumstigs; þannig t. a. m.: *þyngri, þyngstur,* af *þungur;*

3, í *ykkur* og *ykkar,* þol., þiggj. og eig. tvítölunnar, og *yður* og *yðar,* þol., þiggj. og eig. fleirt. af hinu persónulega fornafni *þú.*

4, í nafnhætti og núl. tíð framsöguháttar og samtengingarháttar þeirra sagna, er *u* hafa í eint. þál. tíma framsöguháttar; þannig t. a. m.: *flytja, flyt, flytjum, flytji,* o. s. frv. (þál. tíð: *flutti); dylja, dyl, dyljum, dylji* (þál. tíð: *duldi); hylja, hyl, hyljum, hylji* (þál. tíð: *huldi),* o. s. frv.;

---

[1]) *Fornmenn hafa lengi vel fram eptir gjört nákvæman mun á* i *og* y *í framburði sínum; hefur* y *haft hið sama hljóð og uppruni stóð til, eða* ui, *og því hafa þeir getað gjört svo glöggan og rjettan greinarmun þessara hljóðstafa í riti. En þegar á 13. öld hefur farið að haggast um hið upphaflega hljóð í* y, *og það orðið* i, *fyrst í einstökum orðum, t. a. m.* þykkja, fyrir, yfir, *er þeir rita* þikkja, firir, ifir, *og síðan fleirum og fleirum. Nú höfum vjer í allflestum orðum breytt* y-*hljóði í* i, *en í einstökum orðum í* u, *t. a. m.* spurja, kjurr, *er þó eigi skal svo rita.*

5, í þál. tíð samtengingarháttar þeirra sagna, er *u* eða *o* hafa í fleirt. þál. tíðar framsöguháttar, með því þál. tíð samtengingarháttar er mynduð af fleirt. þál. tíðar framsöguháttar; þannig t. a. m.: *flytti* (af *fluttum*), *dyldi* (af *duldum*), *brynni* (af *brunnum*), *fyndi* (af *fundum*), *rynni* (af *runnum*), *þyrði* (af *þorðum*), o. s. frv.;

6, í þeim orðum, er nú skal greina:

*Ásynja,* Sn.-Ed. I, 82, 114;

*örlygi,* Sn.-Ed. I, 563;

*Örlygr,* mannsnafn;

*ykkarr;*

*Yggur* (Óðinsheiti), Sn.-Ed. I, 80;

*yggur,* uggvænn, Eg. 38;

*yggjungur,* hinn ógurlegi guð, Völusp. 21;

*Yggdrasill,* Sn.-Ed. I, 68;

*ygglegur,* Fms. III, 31;

að *ygla* [*ugl-a*], Sn.-Ed. II, 491;

*ytri* og *yztur* [*út*]; sbr. á dönsku *ydre;*

að *ydda* [*odd-ur*];

*yðvar* (fornafn);

ys, Fms. V, 107;

*Ysa,* árheiti, Sn.-Ed. I, 575;

*Ysja,* árheiti, Sn.-Ed. I, 576; 2) eldsheiti, Sn.-Ed. II, 486, 570; 3) ambáttarheiti, Rígsm. 13;

að *ysja,* B. H.

*ysjungur,* björn, Sn.-Ed. I, 478;

að *ysta* [*ost-ur*];

*ysting;*

*ystingur;*

*ylgja* [*ólg-a*];

*ylgja,* úlfynja, en eigi eins gamalt og *ylgur;*

að *ylgja,* Fms. XI, 136;

*ylgur,* úlfur og úlfynja, Sn.-Ed. I, 478, 592; 2) árheiti, Grímn. 28, Sn.-Ed. I, 578;

að *ylja* [*yl-ur*]; en *ilja* eigandi fleirtölunnar af *il* á fœti;

*ylli,* vefjarrifur, Nj. 158;
*yllir,* viðartegund, Sn.-Ed. II, 482;
að *ylna* [*yl-ur*];
*ylfingur,* konungsheiti, Sn.-Ed. II, 469;
að *ylmast* [*ólm-ur*], hatast, Fms. X, 289; sbr. *ylmpisc,* Fms. X, 420;
*ylur,* Skuggs. 10;
*Ylvi,* ey í Noregi, Fms. II, 1;
*yrki* í *yrkisefni;*
*yrki* í *einyrki, harðyrki,* Fms. IX, 435; sbr. *virki* í *einvirki;*
*yrkilega* og *yrklega* í *vandyrkilega, vandyrklega,* Frump. LXXIV;
*yrking;*
*yrkja* í *jarðyrkja, garðyrkja,* o. s. frv.;
að *yrkja,* rækta, og skálda; sbr. á gauzku *vaurkjan;* á ensku *work;* á engilsaxnesku *weorcan;*
*yrkur* í *lítilyrkur,* Nj. 11; *hagyrkur,* í Oðinsheitum, Sn.-Ed. II, 472;
*yrja,* smáregn, B. H.;
*Yrjar,* bæjarnafn í Noregi, Fms. X, 322;
að *yrða* á einhvern [*orð*], að *fjölyrða, skattyrðast,* o. s. frv.;
*yrði* [*orð*] í *illyrði, ofuryrði, kappyrði, lausyrði,* o. s. frv.;
*yrðlingr* [*urð*];
*Yrsa,* kvennmannsnafn, Sn.-Ed. I, 394;
*yrlygur,* skjöldur, Sn.-Ed. I, 572; 2) haukur, Sn.-Ed. II, 488;
*yrmi* [*orm-ur*] í *illyrmi;*
*yrmlingr* [*orm-ur*];
*Yn,* árheiti, Sn.-Ed. I, 577, II, 480;
*yngi* [*ung-ur*] í *yngismaður, yngismær,* o. s. frv.;
að *yngja* upp [*ung-ur*];
*Ynglingar,* Sn.-Ed. I, 522, Fms. X, 210;
*ynglingur,* konungur, Sn.-Ed. I, 526;
*ynglingur,* unglingur, B. H.;
*yngvi* (upphaflega mannsnafn), Sn.-Ed. I, 522;
*yndi* [að *un-a*], Nj. 7., Sn.-Ed. I, 80;

*yndislegur;*

*yndleikur,* Fms. X, 236;

*ynnilegur* [*unn-a*], Fms. X, 256; en *innilegur* = hjartanlegur;

*yxn* [*uxi*];

*yxna* (haft um kýr);

*yxni* [*uxi*], Ísl. s. II, 330, 331;

að *yppa* [*upp*], Sn.-Ed. I, 698;

*yppinn;*

að *yppta* (öxlum);

að *ybba* sig, B. H.;

*ybbinn,* B. H.;

*yfir* [*of*]; sbr. *ufirbop,* Fms. X, 390;

*yfrir* [*ofr-a?*], sverð, Sn.-Ed. I, 566;

*yfrinn,* nógur, Fms. VIII, 18;

*ymir,* haukur, Sn.-Ed. II, 571;

*ymur,* hávaði, Sn.-Ed. I, 144, Fms. V, 163; 2) Óðinsheiti, Sturl. VII, 69;

að *ymta* [*óm-ur?*];

*ymtur,* Fms. VI, 194, 332;

að *ympra* á einhverju, B. H.;

*ympur,* B. H.;

*ymbrudagur,* Fms. VI, 31;

*ymbruvika;*

að *kykja* [*kok*], gleypa, B. H.;

*kykvi,* aflvöðvi, Sn.-Ed. I, 296;

*kytja* [*kot*] í *húskytja,* Fms. V, 95;

*kytra* [*kot?*], Eg. 30;

að *kytra* sjer niður, B. H.;

að *kyssa* [*koss*];

*kyl* [= *kul*];

*kylja* = kaldi [*kul*];

að *kylja* [*kul*];

*kylur* = kaldi;

*kyltl,* pils, Nj. 33; sbr. *kult,* Fms. X, 16; en *kiltingur,* skaut, skikkjuskaut, Fms. IV, 300, VII, 208;

*kyllir* í *skyrkyllir,* Grett. 28; sbr. *glotkullir,* Ísl. s. I, 212;

*kylliflatur* [*koll-ur*];

*kylna* í *kylnueldur;*

*kylfa* [kólf-ur]; *eikikylfa,* Fms. XI, 130; sbr. á dönsku *Kölle;*

*kylfa* = *kylfi;*

að *kylfa?* eða *kýlfa* [*kólf-ur?*], stama, tvítaka, Fms. VII, 165; lestrarmunur: *kyfla; tvíkylpt,* Sn.-Ed. II, 392; *tvíklypt,* Sn.-Ed. I, 658;

*kylfi,* Fms. IV, 100 (*skeiðarkylfi,* á sama stað);

*kyri* í *gjaldkyri,* Frump. XXXIII.;

*kyrking* [*kyrkja*], Grág. I, 150;

*kyrkingur* [*kork-a?*];

að *kyrkja* [*kverk*], Grág. I, 145; en *kirkja,* guðshús; sbr á engilsaxn. *circ, circe, ciric;*

*kyrja* [vjer *kur-um*] í *valkyrja,* Sn.-Ed. I, 120;

að *kyrja* [*kurr?*];

*kyrtill,* Fms. IV, 27, Nj. 13; sbr. *kvrtil,* Frump. 165;

*kyrtla* í *geitakyrtla,* Rígsm. 20;

*kyrtlaður* í *berkyrtlaður,* Fms. II, 29;

*kyrr;* sbr. í daglegu tali *kjurr;* Nj. 59, Fms. IV, 28, VI, 444;

að *kyrra,* Fms. IV, 247;

*kyrra* (óbeygjanleg einkunn) í *alkyrra,* Fms. XI, 72;

*kyrrð,* Fms. VI, 438, X, 64; sbr. *curd,* Fms. X, 405;

*kyrrlegur;*

*kyrrleikur; ókyrrleikur,* Fms. XI, 10;

að *kyrna* [*korn*] í egg á bitvopni; en að *kirna,* strokka;

að *kyrpa* [*korpa?*], B. H.;

*kyrpingur,* hrukkur; vesalmenni, Grett. 17, Sn.-Ed. II, 495; sbr. *Kyrpinga-Ormur,* Fms. X, 419;

að *kyrfa* í *þverkyrfa,* kljúfa um þvert, Grág. II, 88;

*kyrmir,* jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 555;

*kyn* [*kon-*]; sbr. á gauzku *kuni;* á engilsaxn. *cyn;*

*kyngja,* B. H.;

að *kyngja* niður;

*kyngi* í *kyngihríð;*

að *kynja;*

*kynjar; kynjalæti;*

*kynjaður,* Ól. h. 26; sbr. *kuniop,* Fms. X, 384;

að *kynda,* Fms. III, 129, IX, 515;

*kyndari,* eldsneyti, Fms. III, 200;

*kyndill,* Sn.-Ed. II, 429;

*kyndilmessa,* Fms. IV, 154; sbr. *cundilmessa,* Fms. X, 411;

*kyndur,* eldur, Sn.-Ed. II, 486.

*kynding;*

*kyndugur;*

*kyndugskapur,* Fms. III, 89, V, 163;

*kynduglegur;*

*kynstur,* Fms. III, 89;

*kynsl,* kynstur, B. H.

*kynlegur,* og atv. *kynlega,* Nj. 42, Fms. II, 154; *kynlega,* Nj. 88; sbr. *cunlegt,* Fms. X, 379;

að *kynna* [*kunn-ur*]; *einkynna,* Grág. II, 122; *vorkynna,* vorkenna, Ísl. s. II, 384; sbr. *vorkynnd;*

*kynni* [*kunn-ur*]; *ókynni, heimkynni, mannkynni, salkynni; kynnisvist, kynnisleit, kynnisför,* o. s. frv.;

*kynning,* Fms. II, 46., 122;

*kynngi* [*kunnug-ur*]; *fjölkynngi,* Fms. IV, 110; en *kinga,* Frump. 82—83, eins konar kvennskraut;

að *kyfla,* sjá *kylfa;*

*kyfla* [*kufl*], úlpa, Fms. VIII, 308;

*kynnd* í *vorkynnd* = vorkunn, Ól. h. 82;

*kymbi,* bindini, B. H.;

*kymbill* = kymbi, B. H.; *kymbilhyrndur,* apturkembdur, B. H.; sbr. *kumbaldi;*

að *kymbla;*

að *klykkja* [*klukk-a*];

*klyppur,* mannsnafn og viðurnefni, Fms. III, 83, X, 286; en að *klippa;*

*klyf*, baggi, Fms. V, 22; *klyfjaband*, Nj. 37; *klyfjahestur*, Nj. 152; en *klif* = brekka eða skarð;

að *klyfja*, leggja bagga á hest, Nj. 48;

að *klyfja* [vjer *kluf-um*], kljúfa, Vafþr. 53;

*kryki* [*krók-ur*]; *handkryki;* sbr. að *kroka*, *krokulegur*, og að *krokna;*

*krydd*, Nikulásdrápa, 39; sbr. á dönsku *Kryderi;*

að *krydda;*

*kryppa* [*kropp-ur*];

*kryppill*, Ól. h. 73, 85;

*krypplingur*, Fms. V, 140, 160;

*knyttir* (fleirtala) í *óknyttir*, Fms. X, 172;

*knyttinn* í *óknyttinn*, Grett. 12;

*Knytlingar* [*Knút-ur*];

*Gyða*, kvennmannsnafn;

*Gyðingur* [*guð*], Sn.-Ed. II, 186, Frump. XIV;

*gyðja* [*guð*], Sn.-Ed. I, 62; *ástargyðja*, Sn.-Ed. I, 18;

*gys*, Sn.-Ed. I, 544, Fms. IX, 494;

*gyski* [= *gys*];

*Gyljandi*, örnefni í Noregi, Fms. IX, 506;

*gylta* og *gyltur*, Fms. VI, 216; sbr. *gulta*, Sn.-Ed. I, 486;

*gyldir*, úlfur, Sn.-Ed. I, 308, II, 484, Fms. VI, 66; líka *gildir*, Sn.-Ed. II, 484;

*gylla* [*gull*], Nj. 83;

*gylldinn* [*gull*], gylltur, Fas. II, 40;

*gyllir*, hestsheiti, Sn.-Ed. I, 70, Grímn. 30; 2) jötunn, Sn.-Ed. I, 544, 616;

*gyllini* [*gull*];

*gylling* [*gull*]; *orðgyllingar; Gyllingar-Kali*, Fms. III, 153;

*Gylling*, ey við Hálogaland, Sn.-Ed. II, 492;

*gyllingur*, jötunsheiti, Sn.-Ed. II, 471;

*gyllingur*, haukur, Ísl. dr. 23; sbr. *göllungur*, Sn.-Ed. II, 488;

*gylfi*, konungsheiti, Sn.-Ed. I, 546; líka ritað *gylvi* og *gilfi;*

*gylmir*, hani, Sn.-Ed. II, 488; sbr. á ensku *guillam;*

*Gyrgir*, mannsnafn, Fms. VI, 135, o. s. frv.;

*Gyríður,* kvennmannsnafn, Fms. VII, 351;
*gyrtur; ógyrtur, lausgyrtur,* o. s. frv.;
að *gyrða* (með gjörð), Fms. X, 314, Nj. 54; en *girða* = gerða, af *garður;*
*gyrði,* gyrðisviður;
*gyrðill,* belti, peningapyngja, G. Súrs. 149; sbr. á þýzku *Gürtel; víggyrðill,* Fms. VIII, 216; *bígyrðill,* Sn.-Ed. I, 302; *bólmgyrðill, viðgyrðill, brúgyrðill,* Sn.-Ed. II, 491;
*gyrðing* (með gjörð); en *girðing* um tún;
*gyrðingur* í *hauðursgyrðingur,* um Miðgarðsorm, Merl. 2, 16;
*Gyrður,* mannsnafn, Fms. X, 421;
*gyrðla* í *víggyrðla,* Fms. VIII, 132, 374;
*gymbur?* Grág. II, 193, 247;
*glygg,* vindur, Sn.-Ed. I, 486;
*glyðra,* gáskafull kona, Sn.-Ed. II, 629;
*glys; glysmál,* Sn.-Ed. I, 402, II, 430, Fms. VI, 263;
*glyslegur;*
*glyssamlegur;*
*glyrna* [*glór-a*]:
að *glyrna;*
*glypja* [*gljúp-ur?*];
*glypjulegur;*
*glymjandi* [*glymja*], hávaði;
*glymur* [= *glum-ur*], Sn.-Ed. I, 544;
*glymur,* uxi, Sn.-Ed. I, 588, II, 483;
að *grynna* [*grunn-ur*];
*grynni* [*grunn-ur*] í *ógrynni, útgrynni;*
*grynning* [*grunn-ur*];
*gryfja* [vjer *gróf-um*]; sbr. á dönsku *Grube;*
*hannyrðir* [*hann* = *hand* = *hönd,* og *urð-um* eða *orð-inn,* af *verða*], Gkv. 2, 15.;
*heiðyrnir,* himinsheiti, Sn.-Ed. I, 592; sbr. *heiðornir;*
*hyggja* [*hug-ur*]; *áhyggja, vanhyggja, undirhyggja;*
*hyggjaður,* sá sem hefur í hug, Gkv. 2, 17;
*hyggilegur,* og atv. *hyggilega;*

*hyggindi,* Fms. V, 342;
*hygginn,* Sn.-Ed. II, 110;
*hyggjandi,* Háv. 6, Sn.-Ed. I, 544;
*hygð* í *varhygð;*
að *hygla* [*hugal-l*];
*hygli* í *athygli;*
*hyglun,* góð atlot, B. H.;
*hyski* [*hús?*], Fms. V, 237, Sn.-Ed. I, 48;
*hyskinn;*
*hyskni;*
*hylur* [*hol*], Sn.-Ed. I, 575, II, 479;
*hylki* [*hólk-ur* eða *hol-ur*]; *rifjahylki;*
*hyltingur* [*holt*], í ýmsum eiginnöfnum, t. a. m. *Stafhyltingar,* menn frá *Stafholti; Hjarðhyltingar,* menn frá *Hjarðarholti,* o. s. frv.;
*hyld* í *oddhyld,* B. H.;
að *hylda* [*hold*], taka holdið af, Fms. V, 178, Ól. h. 47; *hyldast,* fitna, Grág. I, 33;
-*hyldir* [*hylja*];
*hyldinn* [*hold*], holdugur;
að *hyldga* og *hyldgast* [*hold*];
*hyldni* [*hold*] í *ofhyldni,* villukjöt í sári;
*hylla;* sbr. á dönsku *Hylde;*
að *hylla* [*holl-ur*]; *aðhyllast;* sbr. á dönsku *hylde;*
*hylli* [*holl-ur*], Sn.-Ed. I, 640; *mannhylli, hylliboð,* Fms. IV, 378;
*hylling* [*holl-ur*], það að hylla einhvern;
*hyllingar,* það að eitthvað ber hátt; sbr. á engisaxn. *hyl* og *hyll* = hæð;
að *hylma* [*hul-a*], Fms. VI, 384, VII, 20;
*hylming;*
*hyr,* eldur, Sn.-Ed. I, 508; 2) sverð, Sn.-Ed. I, 567;
*Hyrrokkin,* tröllkonuheiti, Sn.-Ed. I, 176, 551;
*hyrna* [*horn*], horn á exi, Nj. 129; 2) viðurnefni konu, Nj. 114; *arghyrna,* axarheiti, Sn.-Ed. I, 569; *príhyrna;*

*hyrning* [*horn*], horn á húsi, Eg. 22, Fóstbr. 98;

*hyrningur* [*horn*], sá sem hefur horn, Fms. IV, 246, Ól. h. 26; líka mannsnafn; *nashyrningur, príhyrningur, ofurhyrningur,* hrútur, Sn.-Ed. I, 588;

*hyrndur* [*horn*], sem hefur horn; *gullhyrndur,* Hamh. 23; *príhyrndur, snaghyrndur, ferhyrndur,* o. s. frv.;

*hyrvi,* Sn.-Ed. I, 548;

*Hyndla,* tröllkona, sem Hyndluljóð eru um;

*hypill* [= *hypja*], B. H.;

*hypja* [*hjúp-ur*]; sbr. *Tötrughypja,* ambáttarheiti, Rígsm. 13;

að *hypja* sig í, eða *hypja* saman;

*Hlóðyn,* jarðarheiti, Völusp. 55, Sn.-Ed. I, 474;

*hlykkur,* Fms. V, 145;

*hlykkjóttur;*

*hlynur,* Sn.-Ed. I, 628, II, 483; sbr. *hlun,* Fms. V, 231; sbr. á dönsku *Lön;*

að *hlynna* [*hlunn-ur?*]; sbr. hlunnindi;

*hlynnindi* [= *hlunnindi*];

*hlynntur,* velviljaður;

*hlymur* [= *hljóm-ur*], Sn.-Ed. I, 664, II, 46;

*hrykalegur;*

*hryki* [*hrúk-a?*]; þó ritað *hriki,* Sn.-Ed. II, 496;

*hryga,* tröllkona, Sn.-Ed. II, 615;

*hryggilegur* [*hrygg-ur*];

*hryggur,* sorgbitinn, Fms. IV, 46, Œgisdr. 31; sbr. *hruggr,* Rekst. 32;

*hryggur,* bak, Völusp. 42, Sn.-Ed. I, 200, Nj. 83; sbr. á engilsaxn. *hrycg, hrycce;* á þýzku *Rücken;* á dönsku *Ryg;*

að *hryggja* og *hryggva,* Harms. 60, Ísl. s. II, 238; sbr. *hruggva,* Frump. 164;

*hryggjaður; krókhryggjaður;*

*hryggð,* Fms. X, 328;

*hryggla?*

*hryggleikur,* Frump. 102, Ól. h. 11;

*hrygða,* tröllkonuheiti, Sn.-Ed. I, 552;

*hrygna* [*hrogn*], Sn.-Ed. I, 578, II, 480;

að *hrygna?*

*hryða* [*hroð-i*], tröllkonuheiti, Sn.-Ed. II, 471; 2) ker, Sn.-Ed. II, 430;

*hryðja* [*hroð-i*], tröllkonuheiti, Sn.-Ed. II, 554; *hryðjukarl, hryðjuverk;*

*hryðjulegur* [*hroð-i*];

að *hryðja* [*hroð-i*], að ræskja sig;

*hryssa* [*hross*];

*hryssi* [*hross*] í *merhryssi, unghryssi;*

*hryssungur* eða *hryssingur* [*hross*] í *illhryssingur;*

að *hrylla* [*hroll-ur*];

*hryllilegur,* og atv. *hryllilega* [*hroll-ur*];

*hryllingur* [*hroll-ur*];

*hryn* [= *hrun*] í *fellihryn,* Sn.-Ed. I, 294; *hryns-öðul,* Höfuðl. 8; *hrynhenda,* Sn.-Ed. I, 678; *hrynhendur,* Sn.-Ed. I, 676;

*hrynjandi* [*hrun*], kvennkennt nafn, = hryndhendur háttur, Sn.-Ed. I, 676;

*hrymi* [*hrum-ur*], ellilasleikur;

*hrymur,* jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 188, 194;

að *hrymja* [*hrum-ur*], gjöra hruman;

*hrymdur* [= *hrum-ur*];

*hnykill;* sbr. á dönsku *Nögle;*

*hnykkir,* sá sem hnykkir, Ísl. dr. 21;

*hnykkur;*

að *hnykkja* [*hnokk-i*], Nj. 22, 45, Fms. IV, 90;

*hnyðja* [*hnoð-a*];

að *hnybbast,* að smástangast; sbr. *hnubbaralegur* og *nubbur;* sbr. á dönsku *knubbe* og *Knub;*

*tygi; hertygi, reiðtygi;* sbr. á þýzku *Zeug;* á dönsku *Töi;*

*tygill,* band, Fms. III, 86, IV, 300; *tygilknífur;* en *tigull* og *tigulsteinn;*

*tygur* [= *tugur*], optar *tigur;*

að *tygja; hertygjaður;*

að *tyggja* [*tugg-a*];

að *tytla* [= *tutla*];

*tylla* [*toll-a*] í *átylla, vegtylla,* Band. 33;

að *tylla* [*toll-a*], láta tolla;

*tylliboð, tyllidagur;*

*tylur* [= *dulur*];

*tylft* [*tólf*], Ísl. s. I, 25;

*tyr,* tjöruviður, Korm. 22, skjöldur; *tyrvitrje,* feitt grenitrje, Fms. VI, 153;

*Tyrkir, Tyrkland,* Fms. V, 283, XI, 412, Sn.-Ed. I, 12;

*tyrkjalegur;*

*tyrðill,* fuglsheiti; *haftyrðill,* Sn.-Ed. II, 489; *Háeyrartyrðill,* viðurnefni, Nj. 103; *tyrðilmýli,* álka, Sn.-Ed. II, 489;

*tyrrinn; ótyrrinn,* Fms. VI, 304, G. Súrs. 42, 127;

að *tyrfa* [*torf*];

*Tyrvi,* vatn í Noregi, Fms. VIII, 45;

*Tyrvist,* eyjarheiti, Fms. VII, 41;

*Tyrvingur,* mannsnafn; 2) sverðsheiti, Sn.-Ed. I, 566;

að *tyrma, honum tyrmir,* honum fer aptur, B. H.;

*tyrming,* uppdráttur, vesöld;

*tyngdur* [*tung-a*] í *illtyngdur, tvítyngdur,* Alex. 4;

að *typpa* [*topp-ur*], skauta, Hamh. 16, 19;

*typpi* [*topp-ur*], Fms. VI, 48;

*typping* [*topp-ur*];

*typptklæði,* Járns. 78;

*trygill* [*trog*], Ísl. s. II, 350; *grautartrygill,* Eb. 13;

*tryggi* í *auðtryggi,* = trúgirni, G. Súrs. 63;

*tryggilegur,* og atv. *tryggilega; tortryggilegur;*

*trygginn* í *tortrygginn;*

*tryggur; ótryggur, tortryggur,* Nj. 59, Fms. IX, 390; sbr. *truggver,* Fms. X, 394; sbr. á dönsku *tryg;*

að *tryggja* og *tryggva; tortryggja,* Fms. IV, 103, X, 371, Sn.-Ed. I, 654;

*tryggð; ótryggð, tortryggð,* Nj. 56, 64;

*trygglega* = *tryggilega,* Frump. XXI;
*tryggni* í *tortryggni;*
*Tryggvi,* mannsnafn, Fms. I, 5; sbr. *Truggva,* Fms. X, 390;
*trys* [= *tros*];
að *trylla,* Fms. X, 211, Ísl.s. II, 366; sbr. á dönsku *Trold;*
*trylling;*
*tryllska;*
*tryppi; mertryppi, flókatryppi;*
*dyggilegur, dygglegur,* og atv. *dyggilega* og *dygglega,* Fms. III, 115, 128, Frump. 105;
*dyggur; ódyggur,* Völusp. 62, Nj. 30;
*dyggð; ódyggð;*
*dyggðugur,* Guðmundar drápa Árna Jónssonar, 15, 21:
*dyttur,* viðurnefni, Fms. II, 67; sbr. *dotta,* Fms. XI, 358;
*dyðrill* [*duðr-a*], Fms. X, 315, 349, 354[1];
*dys,* Harb. 45, Fms. VIII, 206; sbr. á dönsku *Dysse;*
að *dysja;*
*dylgja, dylgjur* [*dólg*], Ólafsdr. 18, Fms. V, 141;
að *dylgja* [*dólg*];
*dylgjusamur* [*dólg*], Fóstbr. 55;
*dylgjulegur* [*dólg*];
*dylminn,* sem fer í felur, B. H.;
*dyr,* Völusp. 42, Nj. 92; hvorugkyns, Nj. 129, Sn.-Ed. I, 144; sbr. *durum* og *dura;* sbr. á dönsku *Dör;* á þýzku *Thür, Thor;* á engilsaxn. *duru;* á gauzku *daur;* á ensku *door;*
*dyr,* einhver hluti handar, Sn.-Ed. II, 490;
*dyraður* í *eindyraður, tvídyraður,* o. s. frv.;
*dyri* [*dyr*] í *anddyri, fordyri;*
*dyrgja* [*durg-ur* = *dvergur*];
að *dyrglast?*

---

[1]) *Þetta viðurnefni Þorkels, frænda Ólafs Tryggvasonar, er ýmist ritað* dyðrill *eða* dyrðill, *og þó optar* dyðrill; *enda stendur þessi myndin í Fms. II, 279:* „hvárt hefir vöknað dyðrillinn þinn“, *og X, 315:* „vit þú nú þá, hvart vættiz dyðrillinn“.

*dyrðill,* sjá *dyðrill;*
*Dyrn,* árheiti, Sn.-Ed. II, 480;
*dyn* [= *dun-ur*];
*Dyn,* árheiti, Sn.-Ed. I, 576, II, 479; 2) eyjarheiti, Fms. IX, 427;
*Dyna,* árheiti, Sn.-Ed. I, 576, II, 479;
*dynur* [*dun-ur*], Fms. IV, 98, VI, 436;
*dynkur,* Grett. 18;
*dyngja,* kvennahús, Nj. 44, 158, G. Súrs. 15; 2) hrúga; sbr. á dönsku *Dynge;* 3) eyjarheiti, Fms. X, 31;
að *dyngja,* hrúga saman;
*dynt,* B. H.;
*dynta,* viðurnefni, Fms. VII, 224, 350;
*dyntill,* viðurnefni, Fms. IX, 321, 533;
*dyntur,* hristingur; sbr. á engilsaxn. *dynt,* högg;
*dymbill* í *dymbildagar,* Fms. X, 72; *dymbilvika;*
*drykkur* [vjer *drukk-um*], Háv. 105, Sn.-Ed. I, 128; sbr. á þýzku *Trunk;*
*drykkja* [vjer *drukk-um*], Nj. 3, 156; sbr. *druckior,* Fms. X, 393;
*dryllur,* viðurnefni, Fms. VII, 300;
*drymbill,* maur, B. H.;
*þykki* [*þokk-i*] í *samþykki, sundurþykki,* Fms. X, 273, IV, 9; sbr. *samþvkce,* Frump. 171;
*þykkilegur,* þóttalegur;
*þykkildi* [*þykk-ur*];
*þykkinn,* bráðlyndur;
*þykkur* í *samþykkur,* Fms. II, 36;
*þykkur,* ávítur, Eg. 75; 2) högg, Dropl. 19, Ísl. s. II, 321;
*þykkur,* digur, gildur, þjettur, Fms. X, 240, Nj. 129; sbr. *þjukkr,* Frump. 14; *þjokkvan,* Sn.-Ed. I, 102; *þjokkvaxinn,* Sn.-Ed. I, 258; sbr. á dönsku *tyk;*
*þykkja,* reiði;
*þykkja* í *sundurþykkja, óþykkja,* Fms. IV, 159, X, 161;
að *þykkja; samþykkja,* Frump. 97;
að *þykkjast,* reiðast;

*þykkt,* digurð;

*þykkt* í *óþykkt, samþykkt,* Nj. 110, Frump. 136;

*þykkleikur,* þjettleikur, Fms. X, 177;

*þykklega* = *þykkilega,* Fms. III, 91;

*þykkn* í *gluggaþykkn,* dimma, Grett. 35;

að *þykkna,* verða þykkur;

*þykkni* í *einþykkni;*

að *þykja* virðast; 2) mislíka (mjer þykir fyrir); sbr. á þýzku *dünken;* á dönsku *tykkes;*

*þytur* [vjer *þut-um*], Sn.-Ed. I, 544; *úlfaþytur,* Sn.-Ed. I, 94;

*þys,* Fms. IV, 180;

*Þyri,* kvennmannsnafn, Fms. X, 309;

*þyrill; flautaþyrill;* líka bœjarnafn, Ísl. s. II, 72, 105, og víðar;

*þyrsklingur* [*þorsk-ur*], Sn.-Ed. II, 480;

að *þyrsta* [*þorst-i*], Nj. 30; sbr. *þursta,* Fms. X, 407;

*þyrstur* [*þorst-i*], Sn.-Ed. I, 156; sbr. *þvrstan,* Frump. 207;

að *þyrla* [*þyrill*];

*þyrringur* [*þurr*];

*þyrrinn,* þurr, harðnaður;

að *þyrna,* setja þyrnum, Sn.-Ed. I, 696;

*þyrnir* [*þorn*], Sn.-Ed. II, 483, 500, Grett. 42;

að *þyrpa* [*þorp*[1]], Fms. VIII, 89;

*þyrping* [*þorp*];

að *þyrma; misþyrma,* Sn.-Ed. I, 136, Fms. V. 170, Frump. LXXII;

*þyrmir* í *óþyrmir,* sá sem ekki hlífir, Sn.-Ed. I, 430;

*þyrmsl* eða *þyrmsli; misþyrmsl;*

*þyrms,* kvennkyns, NgL. I, 34;

*þyrmsamlega;*

*þyrmsla* í *vanþyrmsla,* hlífðarleysi, Frump. 152, Grág. 237;

*Þyn,* árheiti, Sn.-Ed. I, 576;

að *þyngja* [*þung-ur*], Ól. h. 88;

---

[1]) *Sn.-Ed. I, 532:* „maðr heitir einnhverr, tá ef II 'ro, þorp ef III 'ro".

*þyngd* [*þung-ur*];

*þyngsli* [*þung-ur*];

*þynna* í *hálfþynna*, axartegund;

að *þynna* [*þunn-ur*];

að *þynnka* [*þunn-ur*];

*þybbast*, þumbast;

*þybbinn*;

*þybbni*;

*þryngva* = þröngva, Sn.-Ed. I, 472;

*þrym*, árheiti, Sn.-Ed. I, 576;

*þryma* [*þrum-a?*], orusta; *hjörþryma*, Fms. I, 183, XI, 166; *hjálmþryma*, Ísl. dr. 4; líka ritað *þrima*;

*þrymur*, gnýr, Sn.-Ed. I, 544, II, 46; 2) bogi, Sn.-Ed. I, 571; 3) jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 549; *Þrymheimur*, Sn.-Ed. I, 94;

*Sigyn*, kona Loka, Sn.-Ed. I, 184; líka ritað *Sygin*, Sn.-Ed. I, 104;

*Sygnir* [*Sogn*], íbúar Sogns í Noregi, Fms. X, 83;

*sygnskur*, frá Sogni, Fms. IV, 35;

að *sykra*;

*sykur*; sbr. á dönsku *Sukker*;

*syðri*, *syðra* [*suð-ur*];

*syðstur* [*suð-ur*];

*systir*, Fms. X, 263; sbr. *suster*, Fms. X, 387, sbr. á gauzku *svistar*; á engilsaxn. *svuster*, *suster*; á þýzku *Schwester*; á dönsku *Söster*; á sænsku *syster*;

*systkin*, Sn.-Ed. I, 104;

*systrunga*;

*systrungur*, Sn.-Ed. I, 186;

*sylgur* [vjer *sulg-um*], drykkur Háv. 16, Ísl. s. I, 166; 2) árheiti, Sn.-Ed. I, 578, II, 480, 623;

*sylgja*, Nj. 109, 147, Frump. 129; 2) viðurnefni, Fms. IX, 470;

*syll* og *sylla*, Fms. VIII, 429, Skuggs. 91;

*Syllingar*, eyjaheiti, Fms. I, 145, X, 243; nú *Scilly*;

að *syrgja* [*sorg*], Nj. 128; sbr. *surgþi*, Fms. X, 379;

að *syfla* [*sufl*], leggja sufl á, B. Hít. 27;
*syrja* [*sor-i*];
*syrjóttur*;
að *syrta* [*sort-i*];
*syrpa* [*sorp*], ill kvennkenning, Sn.-Ed. II, 629;
*Syrvi*, sækonungsheiti, Sn.-Ed. I, 548;
*syrvar*, menn, Sn.-Ed. I, 560;
*Syn*, ein af ásynjum, Sn.-Ed. I, 116;
*syn*, neitun, Sn.-Ed. I, 116; að *ósynju* eða *ófyrirsynju*, Fms. IV, 142; en *sin*, *nervus*;
*synir*, hestsheiti, Sn.-Ed. I, 480;
að *syngja*, Fms. IV, 96, XI, 328;
að *synja*, neita, Nj. 51, 135, Sn.-Ed. I, 136;
*synjun*; *farsynjun*, Harb. 59;
*syngla*, söngla, B. H.;
*synd*, Frump. 156; sbr. *svnþ*, Frump. 155, 156; sbr. á engilsaxn. *syn*, *synn*; á dönsku *Synd*; á þýzku *Sünde*;
að *synda* [*sund*];
*syndi* [*sund*] í *miðsyndi*;
*syndugur*, Ól. h. 87; sbr. *svnþogr*, Frump. 172;
*syndur* [*sund*], Nj. 19, 25;
*syndga*, Fms. III, 167; sbr. *svnþga*, Frump. 178;
*syndsamlegur*;
*synningur* í *útsynningur*, *landsynningur*, Fms. IV, 306, IX, 387; *Heiðsynningar*, þeir, sem búa fyrir sunnan heiði;
*synnstur* = syðstur, Fms. XI, 229;
að *syfja* [*sof-a*], Nj. 61;
*syfjaður*, Fms. VIII, 94;
*skatyrnir*, himinsheiti, Sn.-Ed. II, 485;
*skykkur* [*skokk-a*], hristingur, Sn.-Ed. I, 144, II, 281;
*skygging* í *yfirskygging*;
að *skyggja* [*skugg-i*];
*skyggðir*, sverð, Sn.-Ed. I, 565, II, 476;
*skyggður*, Fms. V, 345;
*skyggn*; *óskyggn*, *glöggskyggn*, *fjeskyggn*, Nj. 149, Fms. V,

96, Nj. 49, Fms. V, 263; sbr. á gauzku *skuggva* (spegill);

*skyggna,* auga, Band. 16;

að *skyggna* og *skyggnast,* Sn.-Ed. I, 36;

*skyggni*;

*skyggnir,* viðurnefni, Fms. IX, 372;

*skyggnleikur,* Nj. 149;

*skyti* [*skot*]; *hvalskyti, óskyti,* Fms. II, 252, X, 362, VII, 192, 262;

*skytja* [*skot*], skotmaður, Sn.-Ed. I, 298;

*skytta,* skotmaður;

*skytningur* [*skot*], samdrykkja, Fms. VI, 440, Ól h. 35;

*skyssi,* óvættur, Alex. 42;

að *skyla* [= *skola*], Sn.-Ed. I, 674, II, 493;

*skyli,* konungsheiti, Sn.-Ed. I, 600:

*skyld* [*skuld*], skattur, Fms. X, 225; 2) skuld, Fms. I, 3;

*skylda* [*skuld*]; *fjölskylda, þegnskylda, skylduhjón,* Fms. III, 84;

*skylda,* skylduleiki, Fms. X, 405 (ritað *sculdu*);

að *skylda* [*skuld*], Fms. VIII, 231, Sn.-Ed. I, 672;

*skyldi* í *fjölskyldi,* Fms. XI, 68;

*skyldir* í *haukaskyldir,* Fms. II, 305; *herskyldir,* Fms. VI, 90;

*skyldilega,* vinsamlega, Fms. XI, 108;

að *skyldu* = að skulu;

*skyldugur* [*skuld*];

*skylduleiki* og *skyldleiki*;

*skyldur,* skyldugur; 2) í ætt við, Fms. III, 84, Nj. 49, Fms. III, 153, Nj. 83;

að *skylmast,* Alex. 137;

*skylming,* Fms. II, 100;

*skyr,* Fms. VI, 363, Eg. 74, Grett. 28;

*skyrta,* Fms. VII, 201, Sn.-Ed. I, 420; sbr. *scurta,* Fms. X, 383, 404; sbr á þýzku *Schurz;* á dönsku *Skjorte*;

*skyn,* vit, þekking, Fms. IV, 33, VI, 410. Sn.-Ed. I, 174;

í því *skyni; yfirskyn.*; sbr. á dönsku *Skjön*; en *skin* í *sólskin, tunglskin*;

*skynugur*;

að *skynja*, Fms. X, 229, Nj. 45; sbr. á dönsku *skjönne*;

*skynja* í *áskynja*;

að *skynda* [= *skund-a*];

*skyndaður* [*skund-a*], sá sem flýtir, Sn.-Ed. I, 514;

*skyndi* [*skund-a*], flýtir; *skyndikona, skyndibrúðkaup*;

*skyndilegur*, og atv. *skyndilega*, Frump. 157, Fms. X, 222; sbr. *scvnðiligar* Frump. 178;

*skyndir*, sá sem flýtir einhverju, G. Súrs. 42, Sn.-Ed. I, 322; 2) tungl, Sn.-Ed. I, 472;

*skynding* og *skyndingur*, Fms. X, 266, Sn.-Ed. II, 38;

*skynsamur*, Sn.-Ed. II, 26;

*skynsamlegur*, og atv. *skynsamlega*, Fms. X, 296, 374;

*skynsemi*, Fms. II, 167, Sn.-Ed. I, 86;

*skynsemd*, Nj. 51, Skuggs. 68, Frump. XX;

*skypill* [= *skupla*], Sn.-Ed. II, 494;

*skyflt?* í *fjeskyflt*, Nj. 36, við latínsku útlegginguna; *búskyflt, liðskyflt*, Fms. IV, 297; eða á að rita *skýflt* í þessum orðum?

*skrykkur*, Sn-Ed. I, 144 í neðanmálsgrein;

að *skrykkja* [*skrokk-ur?*], honum *skrykkir* niður, B. H.;

*skrykkjóttur*;

*stykki*, Fms. V, 149, Ísl. s. II, 115, 337; sbr. á þýzku *Stück*; á dönsku *Stykke*;

að *stykkja* [*stykki*];

*styggilegur*, og atv. *styggilega* [*stugg-ur*], Fms. XI, 286; *andstyggilegur*;

*styggur* [*stugg-ur*], Fms. IV, 236, X, 99, Nj. 93; *stygglyndur; svefnstyggur*;

að *styggja* og *styggva*, Fms. VI, 13;

*styggð*, Fms. X, 98; *andstyggð*;

*styggleikur*, Fms. III, 144;

*stygglega* = styggilega, Fms. VI, 178;

*stytta*, stoð;

*stytta* í *styttuband*;

að *stytta* [*stutt-ur*];

*stytting* [*stutt-ur*];

*styttingur; uppstyttingur*, Fms. III, 122;

*styttinn*;

*styttni*, Fms. IX, 329;

*styr*, ófriður, Sn.-Ed. I, 668, II, 108, 116;

*Styrkár*, mannsnafn, Fms. III, 108;

*styrkir*, sá sem gjörir sterkan, í *böðstyrkir*, Fms. VII, 82;

*styrking*;

*styrkur; fjárstyrkur*, Nj. 4, 29; sbr. *sturcr*, Fms. X, 395; sbr. á dönsku *Styrke*;

*styrkur*, sterkur, Nj. 9, Fms. V, 362; sbr. *stvrcir*, Frump. 178;

að *styrkja*, Nj. 29; sbr. *sturki*, Fms. II, 36; *stvrcþi*, Frump. 174;

*styrkt; óstyrkt*, Frump. 96;

*styrkleikur*;

*styrklegur*, og atv. *styrklega*, Fms. II, 81; sbr. *sturkligr*, Fms. II, 28;

að *styrkna*;

*styrja*, fisksheiti, Sn.-Ed. I, 519; sbr. á dönsku *Stör*; á engilsaxn. *styria*;

*styrjöld*, Fms. X, 265;

að *styrma* [*storm-ur*], Fms. I, 128;

að *styrma* yfir einhverjum, stumra, G. Súrs. 142;

*Styrmir*, mannsnafn, Fms. V, 170;

*styn* og *stynur* [= *stun*], Nj. 80, Fms. V, 218;

*stryk* [vjer *struk-um*];

að *stryka, strykja* og *strykva*, Ísl.s. II, 351, Sn.-Ed. I, 692 (*strykkva*); *strykvinn*, málaður, Sn.-Ed. II, 409;

*strykinn* [= *strokinn*];

*strykur*, ormur, Sn.-Ed. II, 487; 2) viðurnefni, Fms. IX, 544, 519;

*strykur* [= *stroka*] í *norðanstrykur*, Ísl.s. II, 135;

*stryklota*;

*stryllur*, viðurnefni, Fms. IX, 264;

*strympa* [*stromp-ur*]; *vatnsstrympa*;

*slytta* í *þvestslytta*, Grett. 12;

*slyttinn*, linur, kraptlaus, Fms. III, 206;

að *slytta* [*slot-a*], kyrra;

*slydda* [*sludd-a*], votviðri; sbr. á dönsku *Slud*;

*slyðra*, viðurnefni, Fms. IX, 443, 526; en *sliðra* = linleikur [*slinni?*], B. H.;

*slys*, Nj. 36;

að *slysa*;

*slysinn*;

*slyslega*;

*slysni*;

að *slyngja* og *slyngva* = slöngva, Fms. I, 30, Sn.-Ed. I, 192;

*slyppur*, vopnlaus, Ísl. s. II, 258, 407, Grett. 12;

*snytrir* [*snot-ur*], sá sem prýðir, Sn.-Ed. I, 308, 470;

að *snyðja*, flýta sjer, Sn.-Ed. I, 694; sbr. á norsku *snyde sig* = flýta sjer;

*snyrti* [*snot-ur*] í *snyrtimaður*, *snyrtidrengur*, o. s. frv., Sn.-Ed. I, 532, Fms. XI, 167, 174;

*snyrtir*, sá sem fágar, Fms. II, 275; 2) sverð, Sn.-Ed. I, 567;

*snyrtinn*, laglegur;

*spyrða* [*sporð-ur*]; *spyrðuband*;

að *spyrða*;

*spyrna* [*sporn-a*]; *viðspyrna*, *áspyrna*, Grett. 42;

að *spyrna* [= *sporn-a*], Fms. III, 133, XI, 153;

*smyl*, óvættur, í formálanum fyrir Grímnism.; 2) ey í Noregi, Sn.-Ed. II, 491;

*smyrill*, fuglsheiti, Sn.-Ed. II, 489; 2) viðurnefni, Fms. VII, 217;

*smyrsl*, *smyrsli*, Fms. III, 73, Frump. LXXIII;

*smyrslingur*, fugl, B. H.;

*lykill*, Fms. V, 142; *kistulyklar*, Nj. 60; sbr. *luklar*, Sn.-Ed. II, 56; *hanginlukla*, Rígsm. 20;

*lykkja*, Fms. V, 197, VI, 368;

*Lykur*, örnefni í Noregi, Fms. IX, 296;

*lykt*, endir, að *lyktum; álykt, endalykt, málalyktir*, Fms. III, 163, XI, 326, Nj. 56; *vanlycþir*, Grág. I, 92; *at vanlykðum*, Ísl. s. II, 333; sbr. *til lucþa*, Fms. X, 409;

*lykt*, þefur; *ólykt*;

að *lykta*, enda, Fms. IV, 224, Nj. 98;

að *lykta*, þefa;

*lykting*, lúkning;

*lygari*;

*lygi; lygigjarn, lygilegur; álygi*, Nj. 50, 89, Frump. XXIV, Fms. X, 342, Nj. 47, 49, Fms. IV, 311; sbr. *lugi*, Fms. X, 394; *lyghivitni*, Frump. 180;

*lyginn; ólyginn;*

*lygð*, Fms. X, 342, IX, 401;

*Lygra*, bæjarnafn í Noregi, Fms. IV, 309; 2) viðurnefni, Fms. VIII, 310;

*lygna* [*logn*];

að *lygna* [*logn*];

*Lytir*, goð Svía, Fms. X, 203;

*lydda*, Sn.-Ed. II, 496; sbr. *loddari*;

*lyskra* (í heyi);

að *lyskra?* = knosa;

*lyst*; *ólyst, matarlyst*; en *list*, hagleikur;

að *lysta* (mig *lystir* = mig fýsir), Hamh. 27, Fms. II, 135;

*lystilegur*, fýsilegur; en *listulegur*, af *list* = íþrótt;

*lysting*, Sn.-Ed. II, 234;

*lystugur; ólystugur*, Sn.-Ed. II, 216;

*lystur*, Fms. I, 44, V, 356, X, 190;

*lystisemi; ólystisemi;*

*lyrgja*, viðurnefni, Fms. I, 209;

*lyrfa?*

*lyrta*, viðurnefni, Fms. VIII, 111;

*lyng; lyngmór, lyngormur*, Fms. IV, 89, Ísl. s. II, 245; sbr. á dönsku *Lyng;*

að *lyngva*, lita;

*Lyngvi,* nafn á hólma, Sn.-Ed. I, 110;
*Lyngvi,* sækonungsheiti, Sn.-Ed. I, 548;
*lyntur* = lyndur;
að *lynda* við [*lund*];
*lyndi* [= *lund*]; *góðlyndi, illlyndi,* Fms. II, 159;
*lyndur* [*lund*]; *framlyndur, harðlyndur, hóglyndur, hljóðlyndur, jafnlyndur, trúlyndur, örlyndur,* Fms. V, 357, Nj. 9, Fms. X, 266, Nj. 59, 67;
*Lyxa,* bær í Noregi, Fms. II, 41;
að *lypta* [*lopt*], Fms. VI, 154, VIII, 22, Frump. 221;
*lypting* á skipi, Fms. II, 305, 322; sbr. *lufting,* X, 394;
*lyptur* [*lopt*] í *tvílyptur, þrílyptur;*
*lyf,* Fms. IX, 282; *ellilyf,* Sn.-Ed. I, 304; *lyfjagras, lyfjabúð, lyfsali,* o. s. frv.;
að *lyfja elli* = yngja upp;
*lymska* [*lóm-ur?*], svik; sbr. á dönku *lumsk;*
*lymskur,* í Rafns sögu Sveinbjarnarsonar, 32. kap. (*þjóð er til lymsk á láði*);
*ryk* [vjer *ruk-um* eða *rok*];
*rykkill,* viðurnefni, Fms. I, 5;
*rykking* [*rykkja*]; sbr. á dönsku *Rynke;*
*rykkur,* snarpt átak; sbr. á þýzku *Ruck;* á dönsku *Ryk;*
að *rykkja,* Fms. III, 124, XI, 438; sbr. á þýzku *rücken;* á döndsku *rykke;*
*Rygir* [*Rog-aland*], Fms. VIII, 110;
*rygskur,* frá Rogalandi, Fms. II, 252;
*rytja* [*rot-inn*];
*rytta;*
*rytjulegur;*
*ryttinn;*
*rytingur* og *rytningur,* Fms. IV, 173;
*rytur,* fuglsheiti, Sn.-Ed. II, 489;
*rytsa,* skeggla;
*ryð,* áður *ryður,* á járni [*roð-i*], Sn.-Ed. I, 284, Alex. 132; en *rið,* stigi, og *rið, riða,* skjálfti; að *riða, riðill* og *rið-*

*ull* = flokkur; *riðl* og að *riðlast; riðgarn, riðvaxinn,* þrekvaxinn, o. s. frv.;

*ryðugur*, Fms. II, 163;

að *ryðga* [*ryð*];

að *ryðna* [=*roðna*];

*rysking* [*rusk*], Grág. I, 150;

*ryskja* [*rusk*];

að *ryskja*, Sonart. 7, Alex. 57, Grág. I, 144;

að *rylla* [*rolla* = samanvafningur], velta;

að *rypta*, ropa, Skuggs. 91;

*Rymur*, nafn Þórs, Sn.-Ed. I, 553;

*rymur*, hljómur, Sn.-Ed. I, 544, Fms, II, 314;

*nauðsyn*, Fms. X, 265; sbr. *navþsvnom*, Frump. 57;

*nauðsynlegur*, Fms. X, 184, Frump. 158; sbr. *navþsvnlig*, Frump. 174;

*Norðymbraland*[1], hjerað á Englandi;

*Norðymbrar*, íbúar Norðymbralands;

*nykur*, nennir, Fms. X, 432, Sn.-Ed. II, 122;

*nykraður* (um bragarhátt), Sn.-Ed. I, 606, II, 122;

*nyt* [=*not*], Grág. II, 7;

*nyt* [*not*]; *ærnyt, kýrnyt;* líka = gagn, Fms. X, 287;

*Nyl*, árheiti, Sn.-Ed, I, 130, 578, II, 480;

*nyta* í *málnyta*, Nj. 143, Fms. VI, 103;

*nyti* [*not*] í *arfnyti, erfinyti*, Eb. 26? Eg. 83;

*nytur* (einkunn) í *málnytur*, mjólkandi, Grág. I, 136;

að *nytka* [*not*];

að *nytja* [*not*]; 2) mjólka;

*nytja* í *ónytja; að ónytju*, að engum notum;

---

[1]) *Svo virðist, sem rita eigi þetta orð svona, enda þótt það sje í fornum bókum miklu optar ritað* Norðimbraland, *þar eð það er á engilsaxnesku* Norðan-humbre, Norðan-hymbre, Norð-hymbre, *þ. e., þeir sem búa fyrir norðan* Humru, *og landið* Norð-hymbraland; *og svona er það ritað í Fms. IV, 64, 66; en* Norð-imbraland *mun vera leitt af engilsaxnesku myndinni* Norð-hembre; *á ensku er það* Northumberland.

*nytjungur* í *ónytjungur;*

*nytsamur;*

*nytsamlegur,* Frump. XXIX, 158;

*nytsemi,* Frump. 172; sbr. *nvtsemi,* Frump. 176;

*nytsemd,* Frump. XXIX; Fms. V, 240;

*nyrðingur* [*norð-ur*] í *útnyrðingur, landnyrðingur;*

*nyrðri, nyrztur* [*norð-ur*];

*nybba* [*nubb-ur*];

að *nybbast* = hnybbast;

*pyttla* [*pott-ur*];

*pyttlingur* [= *pyttl-a*];

*pyttur; saurpyttur,* Ísl. s. II, 367; sbr. á engilsaxnesku *pyt;* á þýzku *Pfütze;* á dönsku *Pyt;* á latínu *puteus;* á frakknesku *puits;*

*pysslingur* [*púss*], lítill pungur;

*pyngja* [*pung-ur*];

*plytur* og *plytt,* viðurnefni, Fms. X, 115, 123, 117;

*Björgyn* [= *Björgvin*], Fms. X, 155;

*bygill* [*bog-i*], krókur;

*bygg,* Alv. 33, Sn.-Ed. II, 493; sbr. á dönsku *Byg;*

*byggi* og *byggvir* í *sjábyggjar, frambyggjar, faðmbyggvir,* Sn.-Ed. I, 236, Fms. IV, 100; *skutbyggjar,* Fms. VIII, 224;

*byggilegur; rammbyggilegur;*

*bygging;*

*bygginn* í *íbygginn;*

að *byggja* og *byggva,* Ísl. s. I, 4, 6, 9, Sn.-Ed. I, 52, 136; 2) leigja, Nj. 6; sbr. á dönsku *bygge;*

*byggð,* Ísl. s. I, 3, Nj. 14;

*byggvingur,* íbúi, Fms. I, 45;

*bygði* [= *bugða*], Sn.-Ed, I, 584, II, 565;

*bytta,* Fms. VII, 59, Grett. 17, Fóstbr. 81; *skriðbytta, flotbytta,* Fms. IX, 11; *mjaðarbytta,* Fms. IV, 167; sbr. á þýzku *Bütte;* á dönsku *Bötte;*

að *bytna* [*botn*], ná til botns; 2) setja botn í;

*bytna* [*botn*] í *einbytna, tvíbytna;*

*byða; flautabyða, leirbyða;* sbr. *byðna;*

*byðna [boðn?];*

*byssa*[1]; sbr. á dönsku *Bösse;*

*bylur [bylj-a, bul-di],* G. Súrs. 22, Fms. VIII, 52; *hvirfilbylur;*

*bylgja [bólg-a],* Sn.-Ed. I, 500, II, 479; sbr. á dönsku *Bölge;*

*bylgjóttur;*

*byljóttur [byl-ur];*

*bylta;*

að *bylta;*

*bylting; umbylting;*

*byr,* Nj. 83, 91; *mótbyr, hraðbyri;* sbr. á dönsku *Bör;*

*byrgi [borg],* Sn.-Ed. I, 246; *fjárbyrgi, forbyrgi;*

*byrgisskapur,* samræði, Fms. III, 145;

*byrgilegur;*

*Byrgir,* nafn á brunni, Sn.-Ed. I, 56; 2) sá sem byrgir; Fms. XI, 138;

*byrging;*

*byrgingur* í *sjálfbyrgingur;*

*byrginn* = byrgur;

*byrgur; sjálfbyrgur;*

*byrgja [borg-ið];*

að *byrgja,* gjöra borgið, Grág. II, 69, 136;

að *byrgja,* hylja, loka, Frump. XVII, 161; sbr. *burgði,* Fms. II, 23, Eg. 60;

*byrgjast* í *ábyrgjast,* Nj. 100; sbr. Fms. II, 96;

*byrgðir?*

*byrgð* í *ábyrgð,* Nj. 106, 129; sbr. *áburgð,* Fms. II, 250;

að *byrja,* taka til einhvers, Fms. X, 310; sbr. *burja,* Fms. II, 65;

að *byrja,* mjer *byrjar* = mjer *ber,* Fms. V, 293; sbr. á dönsku *bör;*

---

[1]) *Þetta orð vilja sumir rita* bissa, *líklega vegna þess, að orðið er nýtt í íslenzku, og þykir þeim því rjettast, að rita það þeim staf, sem atkvæði þess bendir til; en með því það er* Bösse *í dönskunni, og orðið mun þaðan vera komið, þá virðist engin ástæða að fylgja eigi hinum vanalegu reglum í þessu orði, eða að rita þar eigi* y, *heldur* i, *þar sem Danir hafa* ö.

að *byrja* [*byr*], Fms. X, 278; sbr. *burjaði,* Fms. II, 6;
*byrja* [*bor-inn,* eða *bur-r?*] í *óbyrja,* Frump. LVI;
*byrjun;*
*byrða* [*borð*]; *smjörbyrða;* sbr. viðurnefnið *byrðusmjör,* Ísl.s. I, 198;
að *byrða* [*borð-i*], sauma á borða, Gkv. 2, 16;
að *byrða* [*borð*], negla saman borð á skipi; *einbyrður; síbyrða,* leggja hvert skip við hliðina á öðru, Fms. V, 12, Ól. s. Trygg. Christiania 1853, bls. 57, 66; *hábyrðaður,* Fas. II, 275;
*byrði* [*burð-ur*], það sem borið er, Nj. 12, 49;
*byrði* [*borð*] á skipi, Sn.-Ed. II, 482, 625;
*byrðis* [*borð*] í *útbyrðis, síbyrðis,* Nj. 85, Fms. VIII, 385;
*byrðingur* [*burð-ur*], flutningsskip, Fms. IV, 255, X, 25; sbr. *burðings,* Fms. II, 90; *talbyrðingur; stjórnbyrðingur,* sá sem er á stjórnborða, Fms. VIII, 224; *bakbyrðingur,* á s. st.; *tvíbyrðingur,* skjöldur, Sn.-Ed. I, 572;
að *byrsta* [*burst*], setja burst á; *byrstur,* Sn.-Ed. I, 264, 670; að *byrstast,* ygla sig, Fms. II, 174, Ól. h. 19 (ritað *bystizt);*
*byrzla,* jata;
að *byrla,* Fms. X, 331; sbr. *burllapi,* Fms. X, 379;
*byrlari,* Fms. I, 291;
*byrli* = byrlari, Fms. X, 302;
*byrvill,* sækonungsheiti, Sn.-Ed. I, 548;
*blygð* [*bljúg-ur*]; *blygðlaus;*
að *blygða* blekkja, Fms. III, 89; *blygðast,* skammast sín;
*blygðun;*
*blys;* sbr á dönsku *Blus;*
*bryggja,* Fms. X, 261;
*bryti,* Nj. 130; á engilsaxn. *brytta* og *bryta;*
að *brytja,* Sól. 23, Fms. IX, 248, Ísl. s. II, 337; sbr. á engilsaxn. *bryttian* og *bryttan;*
*brytjun* [*brytja*], Grág. I, 129;
að *brydda* [*borð-i*];
að *brydda* [*brodd-ur*]; það *bryddir* á; *bryddur* = broddaður;
*brydding;*

*bryðja,* skass, Skáldh. 5, 33;

*bryðningur* [= *bruðningur*];

*brysti* [= *brjóst*], Heil. v. 8, Gh. M. I, 400, mismunargr. 9;

*brysti* í *armbrysti,* eins konar bogi, B. H.;

*brystingur* í *rauðbrystingur,* fuglsheiti;

*brynja,* Sn.-Ed. I, 420, 573, Fms. IV, 98; *hringabrynja; brynhosur, brynstakkur;* sbr. á gauzku *brunjo;* á engilsaxn. *byrn;* á dönsku *Brynje;*

að *brynja,* Fms. V, 78; sbr. *bruniaþr,* Fms. X, 383;

að *brynna* [*brunn-ur*], Sn.-Ed. II, 22;

*brynnir,* sá sem brynnir, Sn.-Ed. II, 493;

*brynning,* það að brynna;

*forysta* [= *forvista* = *forusta*], Frump. 107, Fms. VII, 326;

*forynja,* Fas. II, 129;

að *fygla* [*fugl*], Grág. II, 186.

*fygli* [*fugl*] í *illfygli, andarfygli,* Fas. I, 480.

*fyðruskill,* fisksheiti, Sn.-Ed. I, 579, eða *fvðryskill,* Sn.-Ed. II, 480;

að *fyssa* [= *fussa*];

*fyl* [*fol-i*], folald, Fms. V, 220, Sn.-Ed. I, 138.

*fyla* [*fol-i*], hryssa, G. Súrs. 27.

*fylki* [*fólk*], Sn,-Ed. I, 178, Fms. IV, 6; á engilsaxn. *fylc.*

*fylkir,* konungur, Sn.-Ed. I, 512, Fms. IV, 44;

*fylking,* Fms. V, 53; X, 268; sbr. *miþfulking,* og *armfulking,* Fms. X, 403;

að *fylkja,* Nj. 51, 138; sbr. *fulcþi,* Fms. X, 408;

*fylgi; málafylgi, samfylgi; fylgismál;*

*fylginn, hendifylginn,* Nj. 30; *herfylginn,* Sn.-Ed. I, 400;

*fylgja,* Nj. 12, 41, Fms. VI, 39, Ísl. s. II, 340; *kynfylgja, heimanfylgja,* Nj. 6; *málafylgjumaður,* Nj. 1;

að *fylgja,* Fms. II, 318, Nj. 3, Sn.-Ed. I, 26; sbr. á engilsaxn. *fylgean, folgian;* á ensku *follow;* á þýzku *folgen;* á dönsku *fölge;*

*fylgjari,* Hkr. Mg. kap. 32, Stjórn., 9, 11;

*fylgjusamur,* Fms. VI, 211, Þ. hreð. 12;

*fylgd*, Nj. 41, 153, Fms. X, 343; sbr. *fulgþ*. Fms. X, 405; *líkfylgd, samfylgd*;

*fylgsni* [*fólg-inn*]; Fms. X, 269, Frump. 201; sbr. á gauzku *fulhsni*;

*fylja*, felling; sbr á dönsku *Folde*;

*fylja* [= *fyla*], G. Súrs. 111; *ífylja* = *fylfull*; *heiðafylja*, viðurnefni, Fms. VII, 301; *stangarfylja*, Fms. IX, 287;

að *fylja*, gjöra folaldsfulla;

að *fylja*, setja hrukkur á; *fylja* grön, B. H.;

*fyld* [= *fold*], Sn.-Ed. I, 428;

*fyldir* [*fold*] í Vestfyldir, þeir sem búa á Vestfold, Fms. VIII, 403;

*fyldingur*, fisksheiti, Sn.-Ed. I, 579, II, 480, 564;

*fyldingur* = fylling (á sauðkind);

*fyll* [= *full*], staup, Sn.-Ed. I, 340;

*fylla*; *kjálkafylla, vangafylla*, Fms. III, 224;

að *fylla* [*full-ur*], Fms. X, 259; sbr. *fella*, Frump. 168;

*fylli*, áður *fyllr* [*full-ur*], Sn.-Ed. I, 210, 666; *magafylli, handfylli*, Fms. V, 67;

*fyllilegur*, og atv. *fyllilega*, Fms. II, 231; *samfyllilegur*, Sn.-Ed. II, 82;

*fyllir* í *úlfafyllir, vargafyllir*, Nj. 30, Sturl. 7, 39; *sundafyllir*, viðurnefni, Ísl. s. I, 147;

*fylling*; *málfylling*, Sn.-Ed. I, 596; *hljóðfylling*, Sn.-Ed. I, 650;

*fyllur*, sjór, Sn.-Ed. I, 502;

*fylvingur*, sverðsheiti, Sn.-Ed. I, 566; líka = fýlungur, Hkr. saga af Sig. Ing. og Eyst., kap. 17;

*fylvingar*, fylgsni, Sn.-Ed. I, 298; 2) hnetur, Sn.-Ed. II, 430;

*fyr* [= *fur*], eldur, Sn.-Ed. II, 486, 570; sbr. á engilsaxn. *Fýr*; á þýzku *Feuer*; á dönsku *Fyr*; á grísku *πῦρ*;

*fyr* [*fur* eða *for*], áður; sbr. á dönsku *för*;

*fyra* [= *fura*], Sn.-Ed. II, 483;

*fyrir* [*fur* eða *for*]; sbr. á gauzku *faur*; á engilsaxnesku *fore*; á þýzku *für* og *vor*; á dönsku *for*;

*fyrðar*, menn, Sn.-Ed. I, 528, 558, Fms. V, 130;

að *fyrsa* [*fors*] í *hvítfyrsa*;

*fyrsta, í fyrstunni*, Fms. VI, 158;
*fyrri, fyrra, fyrstur* [*fur* eða *for*]; *í fyrra, fyrra dag;* en *firr, firri, firrstur,* að *firra, firrn, firrnindi* [sbr. *fjarri*];
*fyrrum*, áður;
að *fyrna* [*forn*], Nj. 158, Fms. II, 324;
*fyrnir*, jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 549;
*fyrning* [*forn*];
*fyrnd* [*forn*], Sn.-Ed. II, 336;
*fyrnska*, Fms. III, 131;
að *fyrva*, fjara, Grág. II, 125;
*fyrvar?* = *fyrðar*, Fms. I, 94;
*fyndilegur* í *tilfyndilegur*, Sn.-Ed. II, 38;
*fyndur* [vjer *fund-um*] í *auðfyndur, torfyndur*, Fms. VII, 356, XI, 55;
*fjörgyn*, jörð, Sn.-Ed. I, 476, 585;
*Fjörgynn* [= *Fjörgvinn*], faðir Friggjar, Lokas. 26, Sn.-Ed. I, 304;
að *flykkja* og *flykkjast* [*flokk-ur*], Ísl. s. II, 360, Fms VIII, 81;
*flykra*, ill kvennkenning, Sn.-Ed. II, 629;
*flygur* [*flug*], Fms. VI, 316;
*flyðra*, Sn.-Ed. I, 579, II, 480;
*flyðri*, heilagfiski;
*flysja* [*flos*]; sbr. *flusa;*
*flysjungur* [*flos*];
*flysjungslegur;*
*frygð*, Skáldh. 2, 47, 3, 2, 5, 1, 38, Stjórn, 14, 15; sbr. á þýzku *Freude;* á belg. *vreugd;* á svensku, *frögð;*
*frygðugur*, Skáldh. 7, 11;
*Frysja*, á við Osló í Noregi; *Frysjubrú*, Fms. VIII, 400, 403;
að *frysta* [*frost*];
*fnykur*, Fms. X, 213, 379;
*vargynja*, Sn.-Ed. I, 592;
*várkynnd* (að *várkunna*=*vorkenna*), Ól. h. 82;
*mykja* [*mok-a?*], *nautamykja;* sbr. á dönsku *Mög;*
*myki*, Grág. I, 28, Fms. X, 222; *mykikvísl*, á s.st., Fms. I, 75;

*myggla* [*mugg-a*]; sbr. á dönsku *muggen* og *mugne;*
að *myggla* [*mugg-a*];
*mygglingur* [*mugg-a*];
*mysa;* sbr. á dönsku *Myse;*
að *mylkja?* sbr. á engilsaxn. *milcian* og *meolcian;*
*mylkingur?* í *brjóstmylkingur;* þó *milki,* Nj. 120;
*mylgra,* B. H.;
*mylgrun,* B. H.;
*mylin,* sólarheiti, Sn.-Ed. I, 472;
*mylinn* [= *mulinn*], tungl, Alv. 15;
*Myl,* ey í Suðureyjum, nú *Mulben,* Fms. VII, 41; ey á Norðmœri, Sn.-Ed. II, 492;
að *mylda* [*mold*], þekja moldu, Frump. 16;
*myldinn* [*mold*], moldarmikill;
*mylskur,* frá eyjunni *Myl,* Fms. VII, 42;
*mylsna* [*mul-inn*]; *heymylsna;*
*Myríður,* tröllkonuheiti, Skáldh. 5, 23, 29;
*myrkur,* dimma, Fms. III, 98; sbr. *niðamurkr,* Fms. II, 5; sbr. á dönsku *Mörke;*
*myrkur,* dimmur, Fms. II, 314, VII, 342; *Myrká;*
*myrkleikur,* Sn.-Ed. II, 236;
að *myrkva;*
*myrkvi; þokumyrkvi,* Fms. II, 141; *sólmyrkvi, tunglmyrkvi;*
*myrkvun;*
*myrgin* [= *morgunn*], Fms. IV, 248;
*myrja* í *eimyrja,* Fms. III, 180, Sn.-Ed. II, 486; eigi eins rjett *eymyrja,* Sn.-Ed. II, 570; sbr. *eimvrio,* Frump. XCIX;
að *myrða* [*morð*], Fms. II, 171, IV, 310;
*myrðir* [*morð*], sá sem eyðir, Fms. I, 48, Nj. 63, Fms. II, 314;
*myrra;*
*mylska;*
*Myn,* árheiti, Sn.-Ed. II, 479;
að *mynnast?*[1] við, til, Fms. II, 255, III, 57, IV, 78, XI, 332;

---

[1]) *Þetta orð virðist vera leitt af* munnur, *og til þess virðist einnig benda ritháttur inn á þessum stöðum, sem þegar eru nefnd-*

*mynni* [*munn-ur*], Fms. II, 215; *ármynni, ósmynni;* en *minni,* það að muna eptir einhverju; *minna á* og *minnast á;*

*mynntur* [*munn-ur*]; *rangmynntur, stórmynntur, harðmynntur,* Grett. 16;

*mynd,* Fms. II, 122, Sn.-Ed. II, 74; *ómynd, ímynd;*

*Mynd,* árheiti, Sn.-Ed. II, 480; *Mynt,* Sn.-Ed. I, 477;

að *mynda* [*mund*], Fms. X, 422, G. Súrs. 115; að *mynda til,* Nj. 139; sbr. *mvnda,* Nj. 49; *ómyndur,* óafhentur, Fms. VI, 140; að *ímynda* sjer;

*myndarlegur* og *ómyndarlegur;*

að *myndu* [== *mundu*], Fms. X, 222, 242;

*myndun* [*mynda*]; *ímyndun.*

Athugasemd. *Með því* y *er myndað úr* ui, *og hefur að fornu fari haft sama hljóð og þessir stafir bornir fram í einu atkvæði, en* v *er upphaflega sami stafurinn og* u, *þá hafa fornmenn bæði sagt og ritað víða* y, *er vjer nefnum og ritum* vi, *eins og t. a. m.* kykr == kvikur, kykvendi == kvikindi; *enda er það sjálfsagt, að rita skal* y, *en eigi* i, *í öllum þess konar orðum, ef* v *er fellt úr; því að þá verður svo að líta á, sem* v *sje dregið saman við hið eptirfarandi* i, *en eigi með öllu fallið burt; en sá ritháttur er nú úreltur með öllu. Sjá Frump. ísl. tungu, bls. 202—203.*

Þá verður þess enn að geta um y, að það hefur sama hljóð og *y* ef *gi* fer næst á eptir því, og verður því að gæta þess, að rita eigi *ý,* þar sem eigi skyldi eptir upprunanum, þótt hljóðið sje flátt í framburðinum; enda má og finna það, hvar *y* skal rita, og hvar *ý,* ef þess er gætt, sem þegar hefur verið sagt í þessari grein. Þannig skal rita t. a. m. *y,* en eigi *ý,* í þál. tíð samtengingarháttar, ef *u* (eigi *ú*) er í meginhluta fleirt. þál. tíðar framsöguh.; því að af grönnu hljóði verður hljóðvarpið grannt; t. a. m. af *flugum* verður *flygi,* af *smugum* verður *smygi,* eins og *brynni*

---

*ir; en á hinn bóginn er það ritað með* i, *Nj. 3, 148, 150, 160, Fms. X, 99, 148, 226, og lítur þá svo út, sem fornmenn hafi leitt það af* minni; *og enda þótt sú afleiðsla sýnist langsóttari, þá má vel hugsa hana; enda eru þær bækur, sem rita það með* i, *öllu áreiðanlegri.*

af *brunnum*, o. s. frv. Í nokkrum orðum verður og granna hljóðið heyranlegt í sumum myndum, þegar endingin hefst á *a* eða *u*; þannig t. a. m. *lygar* af *lygi* (eigi *lýgi*); enda er *lygi* leitt af *lugum*; eins skal rita *lyginn*, *trygill* (af *trog*).

Í nokkrum orðum nefnum vjer *u*, er *y* skal rita; þannig segjum vjer *spurja* fyrir *spyrja*, *kjurr* fyrir *kyrr*, *ufrað*, *ufrá*, *ufrum*, *ufrundir*, fyrir *yfir að*, *yfir á*, *yfir um*, *yfir undir*. Hið sama finnst og opt hjá fornmönnum, t. a. m. er þeir rita *fur* = *fyrir*, *furr* = *fyrr*, *í furstu* = *í fyrstu*, *sturkr* = *styrkr*, *niðmurkr* = *niðmyrkr*, *kurtil* = *kyrtil*, o. s. frv.

## 14. grein.

## Um ý.

Þessi stafur hefur nú sama hljóð og *í*, en til forna hefur hann haft annað hljóð, sett saman af *ú* og *í*. *ý* er ýmist hljóðvarp af *ú* eða *ó*, og skal því *ý* rita, ef *í* er fram borið, í þeim orðum, er *ú* eða *ó* kemur fram í sumum myndum þeirra, og eins þeim, sem leidd eru af öðrum þeim orðum, þar sem *ú* eða *ó* er í.

1) *ý* skal rita í nöfnum, þar sem *í* er fram borið, ef *ú* eða *ó* er í sumum myndum þeirra; en þetta hljóðvarp á sjer stað í gjör. og þol. fleirt. nokkurra kvennkenndra nafna, t. a. m. *brú*, *brýr*; og eins í gjör. og eig. eint. af *kýr* (stofninn *kú*) og *sýr* (= svín; stofninn *sú*; sbr. á dönsku *So*).

2) *ý* skal og rita í eint. núl. tíma framsöguháttar þeirra sagna, er *ú*, *jó* eða *jú* hafa í meginhluta nafnháttar; þannig t. a. m. *lúka*, *lýk*; *brjóta*, *brýt*; *fljúga*, *flýg*, o. s. frv.

3) Enn skal *ý* rita í nafnhætti, núl. tíma framsöguháttar og samtengingarháttar, og hluttekningarorði núl. tíma þeirra sagna, er *ú* hafa í meginhluta þál. tíðar, og enn fremur í þál. tíð samtengingarháttar, ef *ú* er í fleirt. þál. tíðar framsöguháttar; þannig t. a. m.: *flýja*, *flý*, *flýi*, *flýjandi*, *flýði* (þál. tíð framsögub. *flúði*, fleirt. *flúðum*); *lýja*, *lý*, *lýi*, *lýjandi*, *lýði* (þál. t. framsögub. *lúði*, fleirt. *lúðum*); *knýja*, o. s. frv. Sbr. 12. gr.

Sögnin *trúa* er óregluleg í þessu efni, með því þál. tíð sam-

tengingarháttar er *trydi* fyrir *trýði;* en að öllum líkindum hafa fornmenn sagt *trýði,* en nú skal þó eigi svo rita.

4) Þá skal og rita *snýj* og *ný,* o. s. frv., eint. núl. tíma framsöguháttar af sögnunum *snúa* og *núa.*

5) Þá skal og rita *ý* í þeim orðum öllum, sem nú skulu greind:

*ýki* [jeg *jók*], Grág. II, 182;
*ýkinn* [jeg *jók*];
*ýkja, ýkjur* [jeg *jók*];
að *ýkja;*
*ýgur* [*óg-ur*], ógurlegur, Sn.-Ed. I, 608, Fms. I, 179, XI, 8, 173; *lundýgur,* Nj. 7; *mannýgur;*
að *ýta* [*út*], Fms. VI, 360, VII, 7, Sn.-Ed. I, 402;
*ýtar,* menn, Sn.-Ed. I, 712, I, 244, Nj. 158;
*ýtir* [*út*], sá sem ýtir, Nj. 7, Eg. 68, 75, Grett. 90;
*ýtinn,* keppinn, þrályndur;
*ýðgi* [*úðig-ur*] í *grunnýðgi,* Atlam. 70; *harðýðgi,* Fms. VIII, 232;
að *ýskja* = œskja, Alex. 16;
*ýsa,* Fms. VI, 385; sbr. á norsku *Hyse;*
að *ýla* [= *víla*], Fms. V, 161; sbr. á þýzku *heulen;* á dönsku *hyle;* á latínu *ululare;*
*ýlir,* mánaðarnafn;
*ýlda* [*úld-inn*], Fms. X, 379;
að *ýlda;*
*ýlur* [*víl*], Fms. I, 138;
*ýlfa* [*úlf-ur*], vargynja;
að *ýlfast* [*úlf-ur*], Fms. IV, 60; að *forýlfast,* hika við, Fms. VI, 360, ritað *foryflðist;*
*ýlfingar* í *Móðýlfingar* [*Móðúlf-ur*], Nj. 57;
*ýlfur,* væl, kvein;
að *ýlfra;*
*ýlfrun;*
*ýr,* bogi, Sn.-Ed. I, 571, 620, Höfuðl. 15;
*ýr* eða *ýri,* úruxi, Eg. 44;

að *ýra* [*úr*];
*ýrinn* = œrinn, Frump. 200;
*ýringur* eða *ýring* [*úr*], Eg. 44;
*Ýrungur,* Óðinn, Sn.-Ed. II, 556;
*ýf* = ýfing, Hkr. Ól. s. helg. kap. 259;
*ýfa,* þræta, B. H.;
að *ýfa* [*úf-inn*], Fms. II, 145, 249;
*ýfing* [*úf-inn*];
*ýfinn* [= *úfinn*], Fms. XI, 292;
*ýfð,* ýfing, B. H.;
*ýfingur,* fuglsheiti, Sn.-Ed. II, 489;
*ýfli* í *innýfli,* Fms. IX, 467; *dauðýfli, vanýfli,* Skuggs. 154;
*ýma,* tröllkona, í *ýmugustur;*
*ýmis, ýmist,* Nj. 31, Fms. IV, 37, Nj. 5, Fms. III, 90;
*ýmisleikur,* óstöðugleiki, breytilegleiki, Fms. II, 228;
*ýmislegur,* Fms. II, 89, IX, 508;
*Ýmir,* jötunsheiti, Völusp. 3, Sn.-Ed. I, 46, 166;
*kýta* [= *gýta*], fiskahrogn, B. H.;
að *kýtla,* berja, B. H.; sbr. á þýzku *Kuttler,* slátrunarmaður (en *kitla;* á dönsku *kilde);*
að *kýla* [*kúl-a*] fisk; 2) þenja út (*kýla vömb sína);* 3) þamba, Fms. VII, 190;
*kýli* [*kúl-a*]; *blóðkýli, mörkýli;*
*kýll* [*kúl-a*], poki, Sn.-Ed. I, 144, Fms. VII, 21, Nj. 158; *blóðkýll,* Fms. II, 317; *mjölkýll,* Nj. 140; en *kíll,* vogur, Sn.-Ed. I, 575, II, 479, 562;
*kýrr* [*kú*], naut, Sn.-Ed. I, 484; 2) sverð, Sn.-Ed. I, 564;
*kýfingur* [*kúf-ur*] í *auðkýfingur,* Sn.-Ed. I, 532;
að *klýpa, klýpti, klýpt* (fornt), sama sem *klípa, kleip, klipið,* Frump. 48;
*klýping* [*klýp-a*], Frump. 48;
*krýka* [*krók-ur*] í *samkrýka*[1];
*krýki* [*krók-ur*]; *handkrýki, lærkrýki*[1];

---

[1]) *Þessi orð eru í daglegu tali fram borin grönnu hljóði,* kriki; *og sumir rita það einnig svo; en það virðist liggja beint við, að leiða þau af* krókur, *og þá á að rita þau með ý.*

að *krýna* [*krón-a* = *kóróna*], kóróna;

*krýning* [*krón-a* = *kóróna*];

að *knýta* [*knút-ur*], Fms. IV, 347;

*knýti* [*knút-ur*];

*knýtill* [*knút-ur*]; *knýtilskauti*;

*gýgja*, *gýgur*; *hafgýgja*; sbr. *hafgúga*;

*Gýgur*, tröllkona, Sn.-Ed. I, 58; 2) öxi, Sn.-Ed. I, 569; *margýgur*, Frump. 116, Fms. IV, 56; en *gígur*, gjá, og *gígja*, hljóðfœri, og *gígjari*, sem leikur á gígju;

*gýta* [*gjót-a*], fiskahrogn; sbr. *gota*, *kýta*;

*gýfingur*, steinn, Sn.-Ed. II, 494;

*gýma*, jörð, Sn.-Ed. I, 585, II, 482;

*Gýmir*, jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 120, 549; 2) Œgir, Sn.-Ed. I, 574;

*Gýmnir* = *Gýmir*;

*glý*, gleði, Sn.-Ed. II, 494, Hamd. 7; sbr. á engilsaxnesku *gleo*;

*glýja* í augum;

að *glýja*, gleðja, Fms. I, 50, Völusp. 38, Eg. 44? sbr. á engilsaxnesku *gleo*;

*glýjaður*, sá sem gleður, í *svanglýjaður*;

*glýjuður*, sjór, Sn.-Ed. I, 574, II, 479;

*glýr*, hlátur, B. H.;

*grýjandi*, apturelding; sbr. á dönsku *grye*, *Daggry*;

*grýta*, pottur, Fms. VII, 232; 2) skjöldur, Sn.-Ed. I, 572; sbr. á dönsku *Gryde*;

að *grýta* [*grjót*], Sn.-Ed. II, 287, Fms. V, 222;

*grýti* [*grjót*] í *stórgrýti*, *blágrýti*;

*Grýtingur*, bœr í Noregi, Fms. II, 41;

*grýttur* [*grjót*], Sn.-Ed. I, 620;

*grýttur* [*grút-ur*], t. a. m. *grýtt lifur*;

*grýtlingar*, óróamenn, Fms. IX, 306;

*Grýla*, tröllkona, Sn.-Ed. I, 551; 2) tóa, Sn.-Ed. II, 490; 3) bókarnafn, Fms. VIII, 3; sbr. á þýzku *gräulich*; á dönsku *gruelig*;

*gnýr* [*gnú-a*], Fms. X, 265, Nj. 157; *vindgnýr, orustugnýr, Þorgnýr;*

*hý,* lítið hár, Sturl. I, 13;

*hý* [*hjú*] í *hýnótt,* Skírnism. 44, og *hývíg,* Grág. I, 190;

*hýi* [*hjú*], heimamaður;

*hýjungur* [*hý*];

að *hýða* [*húð*], Grág. II, 179, Fms. VI, 187;

*hýði* [*húð*]; en *híð,* bœli, Grett. 21, Vígagl. 3; sbr. á norsku *Hie;*

*hýðing* [*húð*], Grág. II, 179;

að *hýsa* [*hús*]; *innhýsa,* Fms. VI, 14; *úthýsa,* Fms. II, 225;

*hýsi* [*hús*]; *alhýsi, úthýsi,* Grág. I, 11;

*hýsing* [*hús*];

*Hýsingur,* mannsnafn, Fms. X, 168;

*hýsingur* [*hús*] í *innhýsingur,* Sn.-Ed. I, 560;

*hýr,* glaður, Sn.-Ed. I, 640; *óhýr;*

*hýra,* blíða; 2) velgja;

að *hýra,* gjöra greiða, B. H.; að *hýrast,* láta sjer lynda; en *híra við,* vera kyrr, Grág. I, 72, 212;

*hýrlegur; óhýrlegur,* ófrýnilegur, Fms. X, 35, III, 191;

að *hýma,* B. H.;

*Hýmir* = *Ýmir,* jötunn;

*hlý* eða *hlýr,* hiti, Fms. VI, 251; *ofhlý,* Alv. 23; sbr. *hlýr;*

*hlýða,* súð, Fms. XI, 295, 304;

að *hlýða* [*hljóð*], Nj. 156, 44;

*hlýðisamur* [*hljóð*], Fms. VI, 140, Ísl. s. II, 198;

*hlýðinn* [*hljóð*], Fms. X, 317;

*hlýðni* [*hljóð*], Frump. 166, Fms. V, 3;

*hlýr* [að *hlú-a*], heitur; sbr. á engilsaxnesku *hlywa,* heitur, *hleo,* skjól; á dönsku *Ly;*

*hlýr* og *hlýri,* kinnungur, Nj. 17, Sn.-Ed. I, 306, 584; sbr. á engilsaxnesku *hleor,* andlit;

*hlýra* í *tárughlýra,* grátin, Ghv. 9, og *úrughlýra,* Gkv. 2, 5;

*hlýri* fisksheiti, sjá *lýr;*

*hlýri,* bróðir, Sn.-Ed. I, 534, 462, II, 475;

*hlýrn,* dœgur, Sn.-Ed. II, 569, B. Hít. 59;

*hlýrnir,* himinn, Sn.-Ed. I, 470, 592;

að *hlýna* [*hlú-a*], verða heitur;

að *hrýta* [*hrút-ur*], B. H.;

*hrýting* [*hrút-ur*], B. H.;

*hrýfi* [*hrjúf-ur*], kláðsýki, Frump. LXXIV;

að *hnýta* [= *knýta*];

*hnýting* [*hnút-ur* = *knútur*];

*hnýtla* [*hnút-ur* = *knútur*];

*hnýðingur* [*hnúð-ur*], hvalsheiti, Sn.-Ed. I, 580, II, 481, 564, Skuggs. 29;

að *hnýsa* og *hnýsast* [*njós-n*], Eg. 44, Háv. 140;

*hnýsinn* [*njós-n*];

*hnýsni* [*hnýsinn*];

*hnýfill,* Fms. X, 170;

*hnýflóttur,* Fms. VIII, 243;

*tý* [= *tví*] í *týhraustur, týspakur,* Sn.-Ed. I, 98; *týmargur,* Fms. VI, 80;

að *týja* [= *tjóa*], hjálpa, Nj. 156; *fulltýja,* Fofn. 6;

*Týr,* einn af ásum, Sn.-Ed. I, 98; *týsdagur,* Fms. VII, 295; en *tír, orðstír;*

*týra* [*tór-a*], ljós;

að *týra* [= *tóra*];

*týri* í *æfintýri,* Fms. III, 89; sbr. á þýzku *Abenteuer;* á dönsku *Eventyr;*

að *týna* [*tjón*], missa, Fms. X 269, Nj. 3; en *tína,* lesa saman, telja upp, og *tíningur,* safn;

*týnir* [*tjón*], sá sem fyrirfer; *randatýnir,* Fms. X, 57;

*týnsla* [*tjón*], það að glata;

að *trýta,* kvaka, Hamd. 18;

*trýni* [*trjón-a*], Fms. III, 13;

*dý* [*dú-a*], veita;

*dýr,* kvikindi, Sn.-Ed. I, 638, Fms. V, 247; *hreindýr, bjarndýri,* Nj. 23; sbr. á engilsaxnesku *deor;* á dönsku *Dyr;*

*dýr*, dýrmætur, ágætur, Ísl. s. I, 164, Nj. 146; sbr. á engil-saxnesku *deor* og *dyre;* á þýzku *theuer;* á dönsku *dyr;*

að *dýrka* [*dýr*], Fms. X, 274, Frump. 149;

*dýrkari* [*dýr*];

*dýrkun* [*dýr*];

*dýrð* [*dýr*], Frump. 160, Fms. IV, 45;

*dýrðarsamlegur* [*dýrð*], Fms. IV, 34;

*dýrðlegur* [*dýrð*];

*dýrðlingur* [*dýrð*], Fms. V, 143;

*dýrlegur*, og atv. *dýrlega* [*dýr*], Fms. X, 223; sbr. *durliel*, Fms. X, 415; *durligar*, Fms. X, 416; *durligastr*, Fms. X, 418;

*dýrlingur* [= *dýrðlingur*], Frump. LXI; á engilsaxnesku *dyrling* og *deorling;*

*dýna* [*dún-n*], Nj. 63, Fms. III, 86;

að *dýpa* [*djúp*];

*dýpi* [*djúp*];

*dýpt* [*djúp*];

*dýfa*, það að fara í kaf;

að *dýfa*, láta fara í kaf, Frump. 141; sbr. á engilsaxnesku *dufian;* á dönsku *dyppe;*

*dýfill* í *tordýfill*, eins konar skorkvikindi, Dropl. 9, 10, 11; sbr. á sænsku *tordyffel;* á norsku *Tordyvel;*

*dýfing* [*dýf-a*];

*dýflissa*, Fms. III, 154;

*Dýflinn*, borg á Írlandi, Nj. 156; sbr. á ensku *Dublin;*

*drýgindi* [*drjúg-ur*]; *ódrýgindi;*

að *drýgja* [*drjúg-ur*], gjöra drjúgan;

að *drýja*, fremja, Nj. 7, Sn.-Ed. I, 74; sbr. *drugþi*, Fms. X, 392; *drugt*, Fms. X, 405;

*drýsill* í *drýsildjöfull*, Fms. III, 201;

*drýldinn* [= *drúldinn*];

*þýða* [*þjóð*] í *alþýða*, Fms. X, 264; sbr. *alþuþo*, Fms. X, 401; *alþýðlegur*, Sn.-Ed. II, 09;

*þýða*, þokki, Skuggs. 80, Ol. h. 79;

að *þýða*, skýra, Fms. X, 170, Sn.-Ed. I, 4; *þuþisc*, Frump. 83; sbr. Frump. 48, ath. 3; sbr. á þýzku *deuten;* á dönsku *tyde;* en *píða* jörð;

að *þýðast*, fella sig við, Fms. IV, 289, Skuggs. 79, 80;

*þýði* [*þjóð*] í *illþýði*, Fms. V, 70;

*þýðing*, útlegging, Sn.-Ed. II, 12;

*þýður*, viðfelldinn, Nj. 45, Sn.-Ed. I, 444; *óþýður*, Fms. I, 19; *þýður* hestur; en *píð* jörð;

*þýður* [*þjóð*] í *alþýður*, alþjóðlegur, Fms. V, 351;

*Þýðverjar* [= *Þjóðverjar*];

*þýðverska* [= *þjóðverska*];

*þýðverskur* [= *þjóðverskur*], Fms. X, 161; líka *þýðerskur*, Fms. VIII, 248;

*Þýzkaland*, Fms. I, 119, X, 245; sbr. á þýzku *Deutschland;* á dönsku *Tydskland;*

*þýzkur*, Fms. XI, 443; sbr. á þýzku *deutsch;* á dönsku *tydsk;*

*þýr*, ambátt, Fms. I, 50, Ghv. 15, Helg. Hund. 2, 2, Rígsm. 10;

*þýfi* [*þjóf-ur*], stuldur, Sonart. 1; *átuþýfi*, Grág. II, 165;

*þýfð* [*þjóf-ur*], þjófnaður, Grág. II, 94, 146, Fms. V, 27;

að *þýfga* [*þjóf-ur*];

*þýfður* [*þúf-a*], Fms. III, 207;

*þýfska* [*þjóf-ur*];

að *þrýsta*, Fms. II, 115, IV, 172, VI, 311; sbr. á ensku *thrust;*

*þrýstir*, sá sem þrýstir, Fms. I, 63, VI, 428;

*þrýsting;*

að *sýkjast* [*sjúk-ur*]; sbr. *sucþesc*, Fms. X, 410;

*sýki* [*sjúk-ur*];

*sýking* [*sjúk-ur*];

*sýkn*, saklaus, Atlam. 97, Fms. II, 208; 2) *sýkn* dagur, virkur dagur;

*sýkna*, Grág. I, 94, Fms. VI, 119;

*sýja*, umfar á skipi, Sn.-Ed. I, 254, 324, 583, II, 482, 565,

625; en *sía*, 1) neisti, Sn.-Ed. I, 42, 50; 2) járnmilti, Sn.-Ed. I, 288;

að *sýta* [*sút*], Fms. III, 28, Sn.-Ed. II, 230;

*sýting* [*sút*], Fms. X, 290;

að *sýsa*, sýsla, Hkr., Haraldar saga harðr., kap. 73;

*sýst*, starf, Fms. X, 179;

*sýsl*, sýsla, Fms. VI, 333; sbr. á dönsku *Syssel*;

*sýsla*, starf, Frump. 158, Fms. IV, 276; *búsýsla*, Fms. IV, 35; *Eysýsla*, *Ösel*, Nj. 30;

að *sýsla*, starfa, Fms. VIII, 116; sbr. á dönsku *sysle*;

*sýslega*, fljótlega, Fms. XI, 152;

*sýslun*;

að *sýla* [*súl-a*], frjósa, Eb. 40; sbr. á engilsaxnesku *sul* og *syll*, eins konar tól, til að hreinsa plóg; á dönsku *Syl*, alur; en *síli*, *síld*;

*sýr* [þol. *sú*], Grág. II, 194, Sn.-Ed. I, 486; 2) nafn Freyju, Sn.-Ed. I, 114, 557; 3) viðurnefni, Sigurður *sýr*, Fms. IV, 75; sbr. *surar*, Fms. X, 405;

*sýra* [*súr*], Nj. 130; *sýruker*, G. Súrs. 7;

að *sýra* [*súr*];

*Sýrland*, Fms. I, 275; sbr. á latínu *Syria*;

*Sýrnadalur* [= *Súrnadalur*], Fms. IX, 465;

*sýn* [= *sjón*], Fms. X, 279, Sn.-Ed. I, 78; sbr. *framsun*, Fms. X, 392; 2) sól, Sn.-Ed. I, 593;

að *sýna* [*sjón*], Fms. III, 84, V, 222, Fms. X, 280;

*sýni* [*sjón*]; *til sýnis*, Fms. VI, 362; *ásýni*, Fms. X, 284; *afsýni*, *rjettsýni*, *víðsýni*, *missýni*, Fms. V, 282; 2) sól, Sn.-Ed. II, 485;

*sýnilegur*, og atv. *sýnilega*, Fms. V, 34, II, 188; *ósýnilega*. Fms. X, 330;

*sýnir*, sá sem auðsýnir, Plac. 20;

*sýning* [*sjón*], Grág. II, 83; *auðsýning*, Sn.-Ed. II, 184; *missýning*;

*sýnd* [*sjón*] í *ásýnd*, Fms. II, 137; *tilsýndar*;

*sýndur* [*sjón*], sjáandi, Nj. 23;

*sýnn* [*sjón*]. sjáanlegur, Fms. V, 263, 306; *auðsýnn,* Fms. IV, 35, Sn.-Ed. I, 142; *ósýnn,* Fms. IV, 103; 2) sjáandi, *einsýnn, skammsýnn, starsýnn,* Nj. 34; *rjettsýnn,* Fms. IV, 112;

*ský,* Fms. VII, 10, X, 241; sbr. á ensku *sky;* á dönsku *Sky;*

*skýjaður* [*ský*], Fms. IV, 245, Ól. h. 25;

*skýla* [*skjól*];

að *skýla* [*skjól*], Ól. h. 41;

*skýli* [*skjól*];

*skýli* í *skýlihögg,* Fms. II, 218;

*skýlir* [*skjól*] í *gimskýlir,* skjöldur, Sn.-Ed. I, 572; *böðskýlir,* Sn.-Ed. I, 572;

*skýr,* greindur; ljós; frægur, Fms. VI, 102, Sn.-Ed. I, 700, Frump. 49; en *skír,* hreinn; *skírt* silfur, Sn.-Ed. I, 78; *skír* maður eptir járnburð;

að *skýra,* útlista; sbr. *scura,* Fms. X, 377; en *skíra,* hreinsa; *skíra* silfur; *skíra* barn;

að *skýra* [*skúr*], væta, Eg. 44;

*skýring* [*skýr-a*]; sbr. *scvring,* Frump. 154;

*skýrleikur,* greind;

að *skýfa* [*skúf-a*], Fms. I, 173, II, 163; *auðskýfandi,* Fms. V, 360;

*skýflir* [*skófl-a*] í *gullskýflir,* Hkr., Hákonar s. góða, kap. 8;

*skýfll,* sjá *skyflt;*

*skrýtingur,* fuglsheiti, Sn.-Ed. II, 489;

að *skrýða* [*skrúð*], Sn.-Ed. II, 44; sbr. *scruðder,* Fms. X, 417;

*skrýðir* [*skrúð*], sá sem prýðir, Harms. 19;

að *skrýfa* [*skrúf*], gjöra úfið, Fms. VI, 375; sbr. *skrúfhárr,* Fms. X, 420;

*Skrýmir,* jötunsheiti, Sn.-Ed. I, 146, 550; 2) sverð, Sn.-Ed. I, 564;

að *stýla;* sbr. á ensku *style;* á þýzku *Styl;*

*stýll;*

að *stýra* [*stjór-i*], Nj. 83, Fms. IV, 42; sbr. *sturt,* Fms. X, 395;

*stýri* [*stjór-i*], Sn.-Ed. I, 540, 646;
*stýrir* [*stjór-i*] í *bragarstýrir*, Sn.-Ed. I, 392; *hjaldursstýrir*. Sn.-Ed. I, 650; *brimdýrsstýrir*, Sn.-Ed. I, 690;
*stýring* [*stjór-i*] í *tilstýring*, Fms. II, 68;
að *stýfa* [*stúf-ur*], Sn.-Ed. I, 662, Fms. XI, 298;
*stýfir* [*stúf-ur*], Sturl. X, 10;
*stýfing* [*stúf-ur*];
*stýfingur* [*stúf-ur*] í *alstýfingur*, Grág. II, 160;
*strý*, úrkembingur úr hör, Fms. VIII, 341;
*strýking* [*strjúk-a*];
að *strýkja* [*strjúk-a*];
*slý*;
*slýja*, lýja;
að *snýja* [= *snjó-a*] (fornt), Sn.-Ed. I, 676;
*snýta*;
að *snýta*, Fms. III, 147; sbr. á þýzku *schnäutzen*; á dönsku *snyde*;
*spýir* [*spú-a*], sá sem spýr, í *glóspýir*, Ísl. s. II, 211;
*spýja* [*spú-a*], Eg. 74, Fms. III, 128;
*spýta* [*spú-a*]; *blóðspýta*; sbr. á dönsku *Spyt*;
*spýta*, trjespýta, Sn.-Ed. II, 431, 515;
að *spýta* [*spú-a*], Sn.-Ed. I, 216, 222; sbr. á dönsku *spytte*;
*spýting*, hráki, Lb. 15;
*spýtingur* í *blóðspýtingur*;
*lýja* [*lýja, lúði*]; *bandlýja*;
að *lýta* [*ljót-ur*], Sn.-Ed. II, 48;
*lýti* [*ljót-ur*], Frump. 58, Sn-Ed. I, 344; sbr. á dönsku *Lyde*;
*lýtilegur*, ljótur;
*lýtir* [*ljót-ur*], sá sem lýtir, Fms. V, 249;
*Lýtingur*, mannsnafn, Nj. 99;
*lýður* [*ljóð-*], Fms. X, 278; sbr. *lupinn*, Fms. X, 380;
*lýsa* [*ljós*], hvíta;
*lýsa*, fiskur, Sn.-Ed. I, 578, II, 480, Fms. VI, 376;
að *lýsa* [*ljós*], Fms. IV, 258; 2) gjöra kunnugt, Grág. I, 15, Nj. 6; 3) gefa sjón, Frump. 154 (ritað *luser*);

*lýsi* [*ljós*] í *nýlýsi*, Ól. h. 51; *lýsitollur*, ljóstollur; *lýsigull*, Sn.-Ed. I, 178; 2) feiti úr lifur;

*lýsing* [*ljós*], birting, Fms. II, 195, IV, 151; *löglýsing*, Nj. 8, og víðar;

*lýsting* [*ljóst-a*];

*lýzka* [*lýð-ur*], Frump. 93, Fms. XI, 78; *mállýzka;*

*lýzkaður* [*lýð-ur*], siðaður, Fms. I, 134;

*lýr*, fisksheiti, Sn.-Ed. I, 579, II, 480; *lýsheimur*, Sn.-Ed. I, 632; *lýslóð*, Sn.-Ed. I, 658;

*lýra*, ormur, Fms. IV, 91;

*lýri* = *hlýri;*

*lýrittur* og *lýritti*, Nj. 56, Grág. II, 82;

*Lýbika*, Fms. X, 22; sbr. *Lübek;*

*rýgur*, kona, Sn.-Ed. I, 410, 536, 558; 2) tröllkona, Sn.-Ed. I, 553;

*rýg* í *rýgjartó*, Fms. V, 101; sbr. *ruckiarto*, Fms. X, 398;

*rýing* [*rýja*, *rúði*];

að *rýta*, um svín, Háv. 84, Þ. hreð. 20, Herv. 41;

að *rýða* [= *rjóð-a*];

*rýr*, Nj. 61, Fms. VII, 267; sbr. á gauzku *riurs;*

að *rýra*, Fms. IV, 13, Merl. 1, 35;

*rýrir*, sá sem rýrir, Fms. IX, 302, Sn.-Ed. I, 406, Nj. 78;

að *rýrka;*

*rýrð;*

*rýrlegur;*

að *rýrna;*

*rýrnun;*

að *rýna* [*rún*], Rígsm. 11;

*rýni*, sjón, Sonart. 18;

*rýnir*, beinhákall, B. H.;

*rýning;*

*rýninn*, sá sem kann rúnir; 2) vitur, í *fullrýninn*, Atlam. 11;

*rýndur* í *samrýndur;*

*rýnn* [*rún*] í *glöggrýnn*, Fas. I, 212;

*rýnni* [*rún*], kunnátta, Sn.-Ed. II, 26 (prentað *rynni*);

að *rýma* [*rúm*], Fms, IV, 239, VI, 35, X, 15; en að *ríma* í skáldskap; *rím, ríma;*

*rými* [*rúm*]; *órými, útrými, landrými, hálfrými,* Fms. X, 157;

að *rýmka* [*rúm*];

*rýmnir* [*rúm*] í *Sessrýmnir,* Sn.-Ed. I, 96;

*ný,* nýtt tungl, Sn.-Ed. I, 56;

*ný* í *Orný,* Fms. III, 107; *Hróðný,* Nj. 99; *Dagný,* Fms. III, 175; *Þórný,* Fms. V, 267; *Signý,* Fms. VI, 109, o. s. frv.;

*Nýi,* dvergsheiti, Sn.-Ed. I, 64;

að *nýja,* endurnýja, Fms. II, 168;

*nýjung,* Fms. VI, 120;

að *nýta* [*njóta*], Fms. IV, 129; *ónýta,* Nj. 22; *hagnýta;* en *níta* = neita;

*nýtanlegur* [*njót-a*];

*nýtilegur* og *nýtlegur,* og atv. *nýtilega* [*njót-a*], Fms. IV, 39;

*nýtir* [*njót-a*], sá sem nýtir, B. Hít. 38;

*nýtinn* [*njót-a*]; *ónýtinn;*

*nýtur* [*njót-a*], Fms. IV, 66, IX, 457; *ónýtur,* Nj. 145;

*nýtni* [*nýtinn*];

að *nýsa* = *hnýsast;*

*nýlegur,* og atv. *nýlega,* Fms. X, 372; *nýla,* Sn.-Ed. I, 458;

*nýr,* Fms. X, 157, 399, Nj. 58; sbr. á gauzku *niujis;* á engilsaxnesku *niwe;* á ensku *new;* á þýzku *neu;* á dönsku og sænsku *ny;*

*Nýr,* dvergsheiti, Sn.-Ed. I, 66;

*nýra; hafnýra,* Sn.-Ed. I, 268; sbr. á dönsku *Nyre;*

að *pýta* [*pút-a*];

að *prýða* [*prúð-ur*], Frump. XVIII, Fms. X, 318; að *óprýða;* sbr. á dönsku *pryde;*

*prýði* [*prúð-ur*], Fms. VI, 1, 364; *óprýði,* Frump. 106 (ritað *opprvþar*); *hirðprýði, hjartaprýði, siðprýði;*

*prýðilegur,* og atv. *prýðilega* [*prúð-ur*], Fms. IV, 232; sbr. *prvþþilega,* Frump. 106;

*prýðir* [*prúð-ur*], sá sem prýðir, í *aldurprýðir,* Harms. 50;

*bý*, býfluga, Höfuðl. 15, Sn.-Ed. I, 76, II, 264; sbr. á engilsaxnesku *beo;*

að *býta* [*bút-ur*], Skáldh. 2, 35; sbr. á dönsku *bytte;*

*býti;*

*býtir*, sá sem út býtir, Skáldh. 1, 7, 16;

*býsn*, Fms. XI, 10, 64;

að *býsna*, Fms. V, 199, X, 261;

*býli* [*ból*]; *híbýli*, Fms. III, 116, Nj. 38, 49; *tvíbýli, sambýli*, o. s. frv.;

*Býleistur*, bróðir Loka, Sn.-Ed. I, 104;

*býlingur* [*ból*] í *frumbýlingur;*

*býll* [*ból*] í *árbýll*, Fms. V, 314; *harðbýll;*

*býr* [*búa, bjó*], bœr, staður, Fms. IV, 136, VII, 10; sbr. á dönsku *By;*

*blý*, Fms. IX, 421; *blýbönd*, Fms. X, 172;

*brý*, tröll, Sn.-Ed. II, 494;

*Brýja*, tröllkonuheiti, Sn.-Ed. I, 551;

*brýði* [*brúð-ur*] í *afbrýði*, vandlæti, Gkv. 1, 10, Hkr. Ynglingasaga, kap. 24;

að *brýna* [*brún*], 1) brýna ljá, Sn.-Ed. I, 220, Ísl. s. II, 348; 2) brýna skipi, Fms. II, 93, Nj. 12;

*brýndur* [*brún* = augabrún] í *sambrýndur, skolbrýndur, ljettbrýndur*, o. s. frv.;

*brýni* [*brún*], Ísl. s. II, 348;

*brýning* [*brún*];

*brýnsla* [*brún*];

*brýnn* [*brún* = augabrún] í *ljettbrýnn, þungbrýnn;*

*brýnn*, beinn, ber, Fms. II, 299, Sn.-Ed. II, 22, Band. 18;

*fý*, Sturl. I, 13;

að *fýsa* [*fús*], Fms. V, 103, Nj. 83; sbr. *fusti*, Fms. X, 387; *fvsasc*, Frump. 161;

*fýsi* [*fús*], Fms. VI, 318, Sn.-Ed. I, 8; *góðfýsi*, Fms. V, 182; *heimfýsi;*

*fýsilegur*, og atv. *fýsilega* [*fús*], Frump. 189, Nj. 76, Fms. II, 239;

*fýsinn* [*fús*], fús, Eg. 82;
*fýst* [*fús*], fýsn, Fms. X, 340; *góðfýst*, Fms. II, 225;
*fýsn* [*fús*];
*fýla* [*fúl-l*], Fms. X, 213, Lilja 73; *mannfýla*, Nj. 51, 54;
að *fýla* [*fúl-l*], ýlda;
*fýlingur* [*fúl-l*], votviðri;
*fýling* og *fýlingur*, fugl, Sn.-Ed. II, 489, Fms. VII, 232;
*fýlungur* = *fýlingur;*
*Fýri*, á í Svíþjóð, Sn.-Ed. I, 396; *Fýrisvellir*, Fms. V, 249;
*flý*, viðurnefni, Fms. VIII, 129;
*flýjanlegur* [*flýja, flúði*] í *óumflýjanlegur;*
að *flýta* [*fljót-ur*];
*flýtir* [*fljót-ur*], 1) hraði; 2) sá sem flýtir, Nj. 62; *morðflýtir*, Sn.-Ed. I, 650; *herflýtir*, Fms. V, 7;
*flýra*, vinalæti, B. H.; *flýrulegur*, vinalegur, B. H.;
að *flýra*, láta vel að, B. H.;
*frýja*, Fms. IV, 308; *frýjuorð*, Nj. 73;
að *frýja*, Nj. 38, 146, Fms. IV, 98;
að *frýsa* = *fnýsa;*
að *frýna* sig, B. H.; sbr. á þýzku *frohn*, heilagur, tigulegur, fallegur; á ensku *frown*, gretta sig;
*frýnilegur; ófrýnilegur;*
*frýnlegur* í *ófrýnlegur*, Fms. I, 303, II, 101, X, 35;
*frýnn; ófrýnn*, Fms. IV, 319;
að *fnýsa*, Fms. X, 187, Sn.-Ed. II, 326; sbr. *fnustu*, Sn.-Ed. I, 418;
*mý*, Sól. 53;
*mýgir* [*múg-ur?*], sá sem eyðir, Sn.-Ed. II, 498, Fms. X, 424; *fólkmýgir*, Eg. 58, B. Hft. 31;
að *mýgja* [*múg-ur*], eyða, Fms. V, 348; sbr. á engilsaxnesku *mawan;* á ensku *mow*, skera korn;
*mýking* [*mjúk-ur*];
*mýkindi* [*mjúk-ur*];
*mýkja* og *mýkva* [*mjúk-ur*], Fms. X, 288, 331;
*mýkt* [*mjúk-ur*];

*Mýsingur,* sækonungsheiti, Sn.-Ed. I, 376;
*mýsla* [*mús*];
*mýslingur* [*mús*];
að *mýla* [*múl-l*], t. a. m. naut; *ómýldur;*
*mýlingur* í *hvítmýlingur,* ör, Sn.-Ed. I, 570, II, 478, 561, 621;
*mýll,* hnöttur, Sn.-Ed. I, 540, Fms. X, 205, 206; *herðimýll,* Sn.-Ed. I, 372;
*Mýlnir,* hestsheiti, Helg. Hund. 1, 50;
*mýri,* áður *mýrr* [*mó-r*], Nj. 152, Fms. V, 51; sbr. *muri,* Fms. X, 387; sbr. á engilsaxnesku *mor;* á ensku *moor;* á þýzku *Moor;* á hollenzku *moer;* á dönsku *Myre;*
*mývill,* már, Fms. II, 328; sbr. á engilsaxnesku og ensku *mew;* á þýzku *Mewe* og *Möwe;*

## 15. grein.

## Um au.

Með þessum lausaklofa táknum vjer í rauninni það hljóð, sem *oí* hefði, fram borið í einu atkvæði; er það hljóð óvillugjarnt. Þó ber þess að geta, að þar sem *au* hefur áður verið, er nú komið *u* í stað þess í sumum orðum, og mun þó eigi vert, að breyta til hinnar fornu myndarinnar, ef *u* hefur náð fullri festu; en sjeu báðar myndirnar tíðkanlegar, þá skal hafa hina upphaflegri myndina, og rita t. a. m. *aurriði,* en eigi *urriði, gaupnir,* en eigi *gupnir;* en á hinn bóginn mun *flaum* nú vera með öllu úrelt, og því eigi vert að taka það upp aptur fyrir *flum.* Aptur er *au* komið fyrir *u* í *baukur,* fyrir *buðkur,* og bendir danska orðið *Bödker* einnig til þess. Enn fremur skal rita *sautján* og *sautjándi,* en eigi *seytján* og *seytjándi,* þótt þær myndir finnist. Eptir upprunanum ætti að vera *sjautján* og *sjautjándi,* en þær myndir mundu nú þykja óviðfelldnar.

Í eint. þálegrar tíðar framsöguháttar ýmissa sagna, er meginhluti þeirra endar á *g,* skiptist, einkum í fornmálinu, *aug* á við *ó,* eins og t. a. m. *flaug* og *fló, smaug* og *smó, laug* og *ló;* er

það hvorttveggja, að *aug* er upphaflegra en *ó* í þessum orðum, enda nú miklu tíðhafðara og viðkunnanlegra.

Athugasemd, *Fornmenn rituðu opt þennan lausaklofa einni mynd, rituðu* aɔ.

## 16. grein.

## Um ey.

Þessi lausaklofi er hljóðvarp af *au* (*e* af *a*, *y* af *u*), en með því *y* hefur nú fengið sama hljóð og *i*, verður hljóðið í *ey* hið sama og í *ei*; en áður hefur það verið að nokkru frábrugðið, að sínu leyti eins og *y* hefur að hljóði sínu til verið frábrugðið *i*; enda breytist *ey* t. a. m. í dönsku í *ö*, þar sem *ei* breytist í *e*. Með því *ey* hefur sama hljóð og *ei*, getur framburðurinn að engu leiðbeint, hvar hvern lausaklofann skuli rita, og verður því að leita upprunans, og rita þar *ey*, sem *au* er í frumorðinu.

1. *ey* skal rita, ef *ei* er fram borið, í þeim orðum, sem *au* hafa í sumum myndum, og er það helzt í eint. núl. tíma framsöguháttar sagna; þannig t. a. m. *eys* af *ausa*, *eyk* af *auka*, *hleyp* af *hlaupa*; enn fremur í þál. t. framsöguh. og samtengingarh., sagnarbót og hlutteknɪngorði lið. tíma af *kaupa* (*keypti*, *keypt*, *keyptur*; *auðkeyptur*, *dýrkeyptur*, o. s. frv.). Þá er það í þriðja lagi í eint. nafnsins *eyrir*, fleirt. *aurar*.

2. *ey* skal og rita í þeim orðum, er nú skulu greind:

*ey*, hólmur, Nj. 69, Fms. X, 167; sbr. *ay*, Fms. X, 391; *eyland*, *eybyggjar*, *Eysteinn*, *Eyvindur*, o. s. frv.; sbr. á dönsku *Ö*;

*ey*, ávallt, í ýmsum samsetningum, t. a. m. *eygló* og *eyglóa*, sól, Alv. 17, Sn.-Ed. I, 472; *eyviti*, eldur Eg. 56; en *ei* og *eigi*, ekki;

*eyingur* í *Suðureyingur*, *Færeyingar*, *Flateyingar*, o. s. frv.;

*eyki*, akfœri, Dropl. 26;

*eykinn*, mannýgur (um naut);

*eykur*, akdýr, Nj. 30, Fms. V, 20, 249; sbr. á dönsku *Ög*; en *eik*, *eikur*, trje;

*eykt,* þrjár stundir; að fornu líka = nón, Sn.-Ed. I, 510, Ísl. s. II, 329, Fms. XI, 136, Grág. I, 26;

*eygir* = *ægir,* sá sem hræðir, Sn.-Ed. I, 256; 2) sverð, Sn.-Ed. I, 566;

*eygur* [*aug-a*] í *fasteygur, bjarteygur,* Fms. IV, 38; *fagureygur,* Fms. IV, 38; *bláeygur, snareygur,* o. s. frv.; *Bileygur, Báleygur,* nöfn Óðins, Sn.-Ed. I, 86;

að *eygja* [= *ægja*], hræðast, Sn.-Ed. I, 310;

að *eygja* [*aug-a*];

*eygður* [*aug-a*], Fms. IV, 38; sbr. *avgðr,* Nj. 25; *eineygður, inneygður, úteygður;*

*eygður* í *manneygður;* sjá *ýgur;*

*eygla* [*aug-a*], baugótt ær;

*eyglóttur* [*aug-a*], baugóttur (um sauði);

*eyja* [= *ey*];

*eyða* [*auð-ur*]; *landeyða,* Fms. IV, 126; en *eiða, móðir;*

að *eyða* [*auð-ur*], Fms. IV, 44, Nj. 18; *óeyddur, gjöreyddur;* sbr. á dönsku *ö d e, ö d s l e;*

*eyðanlegur* [*auð-ur*];

*eyði* [*auð-ur*]; *eyðimörk, eyðiland;* en *eiði,* tangi, grandi; *eiður,* svardagi;

*eyðilegur* [*auð-ur*], Fms. V, 7;

*eyðir* [*auð-ur*], sá sem eyðir, Sn.-Ed. I, 408, 700;

*eyðing* [*auð-ur*], Lilja, 90;

*eyðsla* [*auð-ur*]; *fjáreyðslumaður,* Fms. III, 83; *eyðslusemi;*

*eysill* [*aus-a*], lítil ausa; 2) viðurnefni, Fms. X, 116;

*eyskur* [*ey*] í *suðureyskur,* Fms. X, 131; *færeyskur,* Fms. IV, 285, o. s. frv.;

*eysta;*

*eystri* [*aust-ur*], Nj. 5, Fms. VI, 435; *Eystrasalt;*

*eyra,* Frump. 43, Nj. 43; á gauzku *a u s o;* á þýzku *O h r;* á dönsku *Ö r e;* á sænsku *ö r a;*

*eyri* [*aur*], Nj. 91, Fms. X, 269; sbr. *ayronom,* Fms. X, 411; sbr. á dönsku *Ö r* í *H e l s i n g ö r, K o r s ö r;* en *eir,* vægð; að *eira,* vægja; *Eir,* ein af ásynjum; *eir,* málmtegund;

*eyringur* [*aur-ar*] í *tólfeyringur*, Grág. I, 193; *tvíeyringur*, Fms. III, 105;

*eyrr* í *Duneyrr*, hjartarheiti, Sn.-Ed. I, 74;

*eyrður* [*eyr-a*]; *lafeyrður, langeyrður;*

*eyrskur* [= *œrsk-ur*], ólmur, Atlak. 32; sbr. á norsku *örsken;*

*Eynir*, íbúar Eynafylkis í Noregi, Fms. IV, 237, X, 183;

að *eyma?* [*óm-ur*];

*eymur?* hljómur; en *eimur*, eldur;

*eymd* [*aum-ur*];

*eymdarlegur* [*eymd*];

*eymstur* [*aum-ur*], aumleiki, sársauki;

að *eymstra* [*aum-ur*];

að *keyra*, Nj. 37, 59, Fms. IV, 136; sbr. á dönsku *at kjöre;*

*keyri;*

*keyrir*, sá sem keyrir, Ísl. s. I, 223;

*keypi* [*kaup-a*] í *hagkeypi*, Fms. V, 256; *umkeypi, samkeypi*, Fms. II, 96; *ókeypis*, Fms. XI, 301;

*keyf*, B. H.;

að *keyfa;* B. H. dregur það af *kóf;* en mundi það eigi vera = *geyfa*, af *gauf;* sbr. *kýta* = *gýta*, af *gjóta;*

*kleyfis* [*klauf*] í *afkleyfisorð*, Sn.-Ed. I, 690; *afkleyfissamstafa*, Sn.-Ed. I, 684; en *kleif* = *klif;*

*kleyfur* [jeg *klauf*], sem verður klofinn; *ferkleyfur;*

að *kneyta*, setja saman, Nj. 44;

*kneytir*, sem heldur um, B. Hít. 36;

að *kneyfa*, þamba, drekka í einum teyg, Eg. 74; 2) brotna, Fms. II, 205;

*kneyfir*, sá sem knýr, Sn.-Ed. I, 298;

*kveykja*, Nj. 135; sbr. *eldsqøco*, Frump. 57;

að *kveykja*, Nj. 125, 130; *kveykva*, Nj. 130, Grág. I, 16; sbr. *quøq̃*, Frump. 82; *qvocþi*, Frump. 132;

*kveykir*, eldur, Sn.-Ed. II, 486;

*gey*, gelt;

að *geyja*, gelta, Fms. XI, 12; 2) gjöra gys að, Fms. X, 298, Nj. 103, Háv. 136; sbr. á dönsku *gjöe;*

*geys*, ákafi;

*geysa*, tröllkonuheiti, Sn.-Ed. I, 552, II, 554; 2) viðurnefni, Fms. VI, 252;

að *geysa, geysti* [jeg *gaus*], láta gjósa eða þjóta, Fms. IV, 85, V, 73, 118, VI, 23, XI, 435, Sn.-Ed. I, 188; en *geisa, geisaði*, œða, skunda, Nj. 37, 44, 89, Sn.-Ed. I, 508, 632, II, 537, Fms. VII, 348; en þó er ritað *geysa*, Fms. XI, 42, Sn.-Ed. I, 664; er það ritvilla, eða er það af *geysa, geysti*, í sömu merkingu og *geisa, geisaði?*

*geysi* [jeg *gaus*] í samsetningum: *geysi-ójafnt*, Sn.-Ed. I, 72; *geysi-mikill*, Fms. IV, 57; *geysi-illa*, Fms. II, 295; *geysi-stærð, geysi-tíður*, o. s. frv.;

*geysilegur*, og atv. *geysilega, geysla*, Ísl. s. II, 390;

*geysing* og *geysingur* [jeg *gaus*], Fms. XI, 81, Ísl. s. II, 347;

*geystur* [jeg *gaus*], Nj. 7, 30, Fms. II, 109, VII, 326;

*geyfa* [*gauf*], svart kafald;

að *geypna* [*gaupn*], halda í hendi sjer, Lb. 25, Harms. 29; *um-geypnandi*, Fms. V, 346;

að *geyma* [*gaum-ur*], Fms. V, 13;

*geymi* [*gaum-ur*] í ýmsum fornum samskeytingum, t. a. m. *geymi-bil*, Eb. 29; *geymigöndul, geymirunnur*, Fms. II, 274;

*geymilegur* [*gaum-ur*], varkár, B. H.;

*geymir* [*gaum-ur*], sá sem geymir, Nj. 99, Ísl. s. II, 67;

*geyminn* [*gaum-ur*], Fms. IV, 46, Háv. 64;

*geymd* [*gaum-ur*], Frump. 134 (ritað *gøymdir);*

*geymsla* [*gaum-ur*], Fms. IV, 71; *vangeymsla*, Nj. 48;

*gleypa* í *gleypubein*, B. H.;

að *gleypa*, Sn.-Ed. I, 58, Vafþr. 53, Fms. VI, 403;

*gleypilegur*, og atv. *gleypilega*, gráðugur og græðgislega, B. H.;

að *gleyma* [*glaum-ur*], Fms. V, 217; *gleymast*, gleðjast, Merl. 1, 52;

*gleyming* [*glaum-ur*], Lilja 90; *fyrirgleyming*, Skuggs. 132;

*gleymingur* [*glaum-ur*] í *algleymingur;*

*gleyminn* [*glaum-ur*];

*gleymur* [= *glaum-ur*], B. Hít. 23;

*gleymur* [*glaum-ur*], kátur, í *allgleymur,* Sturl. VIII, 13, Eb. 13;

*gleymska* [*glaum-ur*];

*gleymskur* [*glaum-ur*], gleyminn;

*grey,* hundur, Fms. X, 298, Nj. 103; *greyhundur,* Fms. XI, 10, 12; *greyskapur,* Fms. II, 61;

að *greytast* [*graut-ur*], verða að graut;

að *greypa* [*graup-ur*], vera grimmur við, Fms. I, 267;

*greypilegur,* og atv. *greypilega* [*graup-ur*], Fms. VI, 367;

*greyping;*

*greypur* [= *graup-ur*], grimmur, ógurlegur, Fms. VI, 43, Sn.-Ed. I, 686; ritað *graupr,* Fms. X, 380, 385; en *greipur* = gripgjarn, Fms. VI, 340; *greip* á hendi;

*greyptur,* Fms. III, 125; sbr. *grópaður;*

að *greyfast,* Eg. 68, Fms. III, 127, Skáldh. 5, 33; sbr. *grúfa;*

að *gneypa,* fara illa með, Skírn. 30;

*gneypur,* illilegur, Eg. 55, Fms. X, 402;

*Háleygir,* íbúar Hálogalands í Noregi, Fms. IV, 257;

*háleyskur,* sem er frá Hálogalandi, Fms. I, 253;

*hey,* Fms. X, 22, Nj. 47, Frump. 205 (ritað *høy*); sbr. á gauzku *havi;* á ensku *hay;* á þýzku *Heu;* á dönsku *Hö;*

að *heykja;* sbr. *hokinn;*

að *heygja* [*haug-ur*], Nj. 67; sbr. *haugþr,* Fms. X, 380;

að *heyja* [*hey*];

að *heyja, háði,* Fms. IV, 43, V, 247, XI, 164;

*heyli* (sbr. *hol-ur*) í *heyliböl,* Sn.-Ed. I, 284;

að *heyra,* Nj. 133; sbr. *høra,* Frump. 133; *haurþi,* Fms. X, 389; sbr. á gauzku *hausjan;* á engilsaxnesku *hyran;* á þýzku *hören;* á dönsku *höre;* á sænsku *höra;*

*heyrilegur,* Fms. II, 135; *áheyrilegur,* Fms. IV, 133, Nj. 49; *óheyrilegur;*

*heyrir?* sá sem heyrir, í *heyrum kunnugur;*

*heyrður* í *þungheyrður, daufheyrður,* Fms. VI, 30;

*heyrsi* í *áheyrsi,* sá sem heyrir á, Fms. II, 295;

*heyrsla* í *áheyrsla, yfirheyrsla;*

*heyrn,* Grág. I, 149, Frump. LXI, Sn.-Ed. I, 52;

*hleytar,* frændur, Sn.-Ed. II, 497;

*hleyti,* tengdir, Sig. 1, 34, Skuggs. 165 (ritað *leytum),* Eb. 16 (ritað *leyta); hleytismaður,* Sn.-Ed. II, 90, 465, 548; *hleytamaður,* Sn.-Ed. II, 475, 611; *nauðleytamaður,* Ísl.s. II, 324; sbr. *hljóti,* Sn.-Ed. I, 462;

að *hleypa* [*hlaup*], Nj. 151, Sn.-Ed. I, 686;

*hleypi* [*hlaup*] í samsetningum, *hleypidómur, hleypiskúta, hleypiloka,* o. s. frv.; *forhleypi,* ginningarfífl, Nj. 139;

*hleypingur* [*hlaup*] í *einhleypingur,* Ísl. s. II, 325; *umhleypingur;*

*hleypinn* [*hlaup*], hlaupgjarn; *framhleypinn;*

*hleypir* [*hlaup*], kæsir;

*hleypur* [*hlaup*] í *einhleypur;*

að *hreykja* [*hrauk-ur*];

að *hreyta* [jeg *hraut*], Rígsm. 35, Sn.-Ed. I, 652;

*hreyti* [jeg *hraut*] í *hreytispeldi,* Fms. III, 227;

*hreytir* [jeg *hraut*], sá sem fleygir, Fms. I, 267, Nj. 7; *sundurhreytir,* Nj. 7;

*hreysa,* ill kvennkenning, Sn.-Ed. II, 629;

*hreysi* (fleirtalan *hreysar),* urð, Helg. Hund. 1, 36, Fms. III, 227, Fms. V, 70, Hým. 35; *hreysiköttur;* sbr. á norsku *Rös;*

að *hreysta* [*hraust-ur*] í *hughreysta;*

*hreysti* [*hraust-ur*], Nj. 153, Fms. X, 314;

*hreystilegur* [*hraust-ur*], Fms. II, 45;

að *hreyfa* [=*raufa, rjúfa*], losa, Sn.-Ed. I, 146; en *hreifa,* hræra;

*hneykir* [*hnauk*], sá sem hneykir, Sn.-Ed. I, 514, Fms. VI, 340;

*hneyking* [*hnauk*];

að *hneykja* [*hnauk*], buga, Fms. IV, 66, X, 231;

að *hneyksla* [*hnauk*];

*hneyksl* og *hneyksli* [*hnauk*]; *hneiksliyrði,* Hkr. Ól. s. helg. kap. 151;

*hneykslun* [*hnauk*];
*teyging* [*taug*], Fms. I, 304;
*teygja* [*taug*];
að *teygja* [*taug*], Nj. 77, Sn.-Ed. I, 210; sbr. *tøgia*, Frump. 155;
*teyða*, skauð, mannskræfa, Sn.-Ed. I, 532, II, 464, 547;
að *teyma* [*taum-ur*], Sól. 55;
*teyming* [*taum-ur*];
*teymingur* [*taum-ur*] í *einteymingur*, *tvíteymingur*;
*treyja*, Nj. 17, 83, 93, Fms. X, 361; sbr. á dönsku *Tröie*; *söðultreyja*, Fms. IV, 58, V, 165;
að *treysta* [*traust*], Nj. 24, 44, Fms. VIII, 79; sbr. á þýzku *trösten*; á dönsku *tröste*;
*treystir* [*traust*], sá sem gjörir öruggan, Sn.-Ed. I, 644, Fms. XI, 307;
að *deyja*, Fms. X, 310; sbr. *dóia*, Frump. 132; *døia*, Frump. 133; sbr. á dönsku *dö*;
*deyða* [*dauð-i*] í *ládeyða*, *ördeyða*;
að *deyða* [*dauð-i*], Nj. 102, Ísl.s. II, 24; sbr. á þýzku *tödten*; á dönsku *döde*;
að *deyna* [*daun-n*], gefa daun af sjer;
*deyfa* [*dauf-ur*]; *heyrnardeyfa*;
að *deyfa* [*dauf-ur*], Háv. 149, Eg. 68;
*deyfir* [*dauf-ur*], sá sem deyfir; *hungurdeyfir*, Fms. XI, 215;
*deyfð* [*dauf-ur*];
að *dreyra*, Sn.-Ed. I, 260;
*dreyri*, Fms. X, 318; sbr. á engilsaxnesku *dreore*;
*dreyrinn* í *hagdreyrinn*, Ísl.s. II, 249;
*dreyrugur*, Nj. 78; *valdreyrugur*, Sn.-Ed. I, 386;
að *dreypa* [jeg *draup*]; sbr. *drøpi*, Frump. 133;
*dreypi* [jeg *draup*] í *dreypifórn*;
*dreypilegur* [jeg *draup*], votur;
að *dreyma* [*draum-ur*], Nj. 62, Fms. X, 270;
*þeygi* [=*þó eigi*], Grág. I, 146, Sn.-Ed. I, 444;
að *þeyja*, hlána; sbr. á dönsku *tö*;
að *þeyta* [jeg *þaut*];

*þeyti* [jeg *þaut*] í *þeytispjald;*
*þeytir* [jeg *þaut*], sá sem þeytir; *lúðurþeytir;*
*þeytingur* [jeg *þaut*];
að *þeysa,* Eg. 74, Fms. X, 39, VIII, 201;
*þeysir* í *örþeysir,* Sn.-Ed. I, 240;
*þeysing* og *þeysingur;*
*þeyr,* þíðvindi, Fms. II, 228, VIII, 393; *þeyló;* sbr. á þýzku *Thau;* á dönsku *Tö;*
*þreying;*
að *þreyja,* Fms. V, 231;
*þreyta* [*þraut*];
að *þreyta,* Nj. 21, Sn.-Ed. I, 154, Fms. II, 176;
*þreytir* [*þraut*], sá sem þreytir, Fms. VII, 235; *sveimþreytir,* Sn.-Ed. I, 644;
*þreyttur* [*þraut*], Fms. X, 352; *atþreyttur,* Nj. 36;
*seytill;* sbr. *sötra* (fyrir *sautra?*);
*seytján* [= *sautján*], Fms. X, 415;
*seytjándi* [= *sautjándi*];
að *seyða* [jeg *sauð*], sjóða; en að *seiða,* fremja kukl, Sn.-Ed. I, 236, Fms. I, 10;
*seyði* [jeg *sauð*], það að sjóða, Sn.-Ed. I, 208, Nj. 130;
*seyðir* [jeg *sauð*], eldur, Hým. 15, Sn.-Ed. I, 306;
*seyðingur;*
*seyður* [jeg *sauð*], það sem soðið er, Sn.-Ed. I, 208, 209; en *seiður,* töfrar, Fms. I, 10, IV, 10; *seiðmaður;*
*seyðsla;*
*seyra,* vesöld Fms. VIII, 181; sbr. *saura,* Fms. X, 385;
að *seyrast* (sbr. *sori, syrja*), taka í sig sora;
*seyrir* í *frumseyrir,* Sn.-Ed. I, 292;
*seyrinn,* sorafullur, óvandaður;
að *seyrna* = seyrast;
að *seyma* [*saum-ur*]; *háseymdur,* Grett. 54;
*seymi* [*saum-ur*]; *hvalseymi; línseyma,* viðurnefni, Fms. X, 97;
að *skeyta* [*skaut*], 1) fella saman; 2) ánafna, Fms. VI, 432; 3)

*skyldur* og *skeyttur*, Fms. VI, 53, VII, 315; *skuldskeyta;* 4) hirða um; sbr. á dönsku *skjöde* og *skjötte;*

*skeyti* [jeg *skaut*], skotvopn, Fms. V, 170; sbr. *scøti* og *scœtit*, Fms. X, 384;

*skeyti* [jeg *skaut*], það að skjóta, í *harðskeyti*, Fms. IV, 61;

*skeyti* [*skaut*] í *samskeyti;*

*skeyting* [*skaut*] í *skuldskeyting, samskeyting; skeytingarleysi;*

*skeytingur* [*skaut*] í *þverskeytingur*, hliðvindi, Fms. VII, 94;

*skeytinn*, hirðusamur;

*skeytur* og *skeyttur* [jeg *skaut*] í *harðskeytur, happskeytur*, Sn.-Ed. I, 102; *beinskeyttur*, Fms. II, 320; *allóbeinskeyttur*, Fms. II, 103;

*skeyttur* [*skaut*] í *ferskeyttur*, Sn.-Ed. I, 162;

*skeytlegur*, og atv. *skeytlega* [jeg *skaut*], í *hvatskeytlegur* og *hvatskeytlega*, Fms. II, 33; *voskeytlegur;*

*skeyða* [*skauð*], ónytjungur, Sn.-Ed. II, 610;

*Skeynir* [*Skaun*], íbúar Skeynafylkis í Noregi, Fms. IV, 237;

*skreyja*, 1) ónytjungur, B. Hít. 26; 2) viðurnefni, Eg. 59; sbr. *scraygia*, Fms. X, 382;

að *skreyta* [*skraut*], Fms. V, 358;

*skreytir* [*skraut*], sá sem skreytir, Fms. II, 52, XI, 187;

*skreytinn* [*skraut*];

*skreytni* [*skraut*];

að *skreyfa* korn [*skrauf-þurr*], hreykja kornbindinum upp til þurrkunar;

að *steyta* [*staut-ur*]; sbr. á þýzku *stoszen;* á dönsku *stöde;*

*steyting* [*staut-ur*] í *kafsteyting;*

*steyra* [*staur*], lifa við vesöld, B. H;

*steypa* [*staup*];

að *steypa* [*staup*], 1) bræða, Gkv. 2, 19; 2) fella, Nj. 73, 130, Fms. VI, 130; sbr. *stauppesc*, Fms. X, 384;

*steypi* í *steypireyður;*

*steypir* [*staup*], sá sem fellir, Sn.-Ed. I, 296, Fms. XI, 317; 2) viðurnefni, Fms. VIII, 9;

*steyping* [*staup*];

að *streyma* [*straum-ur*];

*streymi* [*straum-ur*] í *andstreymi, öfugstreymi; forstreymis,* Fms. IV, 49;

*streymur* [*straum-ur*] í *andstreymur,* Ól. h. 21; *rjettstreymur;*

*sleyma,* ill mannkenning, Sn.-Ed. I, 532, II, 464, 547;

að *sneyða* [*snauð-ur*], svipta; en *sneiða,* sníða;

*sneypa,* Nj. 121, Fms. X, 394; sbr. *snaypo* og *snaupu,* Fms. X, 394;

að *sneypa;*

*sneypir,* viðurnefni, Fms. I, 250;

*sneypinn;*

*sneypulegur;*

*smeykilegur* og *smeyklegur;*

*smeykja;*

að *smeykjast;*

*smeykur;*

að *smeygja* [jeg *smaug*], Fms. VI, 15;

*leygur,* eldur, Sn.-Ed. I, 510; sbr. *laug, logi;*

*leyti* [jeg *laut*] í orðtækjunum: að sumu *leyti,* nokkru *leyti,* mínu *leyti,* o. s. frv.; um þetta *leyti;* en *leiti,* hæð, hóll, B. Hít. 25, Nj. 152;

að *leyðra* [*lauður*[1] = *löður*], hreinsa, þvo, Sn.-Ed. I, 242;

*leysa* [*laus*] í samsetningum, t. a. m. *siðleysa,* Fms. IV, 199; *mannleysa;*

að *leysa* [*laus*]; sbr. *lausti,* Fms. X, 391; *óleysandi;*

*leysi* [*laus*] í samsetningum, t. a. m. *gáleysi, heyleysi, hugleysi;* sbr. *liplaysi,* Fms. X, 403;

*leysing* [*laus*], Sn.-Ed. II, 206;

*leysingi* [*laus*], Grág. I, 228;

*leysingur* [*laus*] = leysingi, Grág. I, 172, 202;

*leysingja* [*laus*], Grág. I, 227, 228;

*leyra,* ill mannkenning, Sn.-Ed. I, 532;

að *leyna* [*laun*], Nj. 51, Háv. 27; sbr. *launisc,* Fms. X, 383;

---

[1]) *Sn.-Ed. II, 451:* „haflauðr um við rauðan“, *og er þar* lauð- *og* rauð- *aðalhendingar.*

*leyni* [*laun*], Fms. X, 269;
*leynilegur*, og atv. *leynilega* [*laun*], Fms. X, 262, 269, Nj. 3;
*leynir* [*laun*] í *fyrleynir*, Ísl. s. II, 366;
*leynd* [*laun*]; *leyndartal*, Fms. X, 262; sbr. *til laundar*, Fms. X, 383;

að *leyfa*, hœla, Háv. 80, Sn.-Ed. I, 688; sbr. að *lofa;* á engilsaxnesku *lofian;* á þýzku *loben;* á dönsku *love;*

að *leyfa*, gefa leyfi til, Nj. 6, 58, Fms. X, 238; sbr. að *lofa;* á gauzku *uslaubjan;* á engilsaxnesku *lyfan, alyfan;* á ensku *allow,* á þýzku *erlauben;* á dönsku *love;* en *leifa*, skilja eptir, Frump. VI; *leifar;*
*leyfi*, Fms. X, 235, Frump. 164 (ritað *levfi*); sbr. *laufi*, Fms. X, 398; sbr. á dönsku *Lov, Löfte;*
*leyfilegur*, Sn.-Ed. II, 210; *óleyfilegur;*
*leyfð*, hól, lof, Sn.-Ed. I, 468, 514;
*reykelsi* [jeg *rauk*], Frump. LVI, Fms. II, 37; sbr. á dönsku *Rögelse;*
*reykur* [jeg *rauk*], Nj. 130, Fms. IV, 52; sbr. á þýzku *Rauch;* á dönsku *Rög;*

að *reykja* [jeg *rauk*]; sbr. á þýzku *rauchen;* á dönsku *röge, ryge;* en *reika*, ganga, Frump. LXXIV; *reikan*, Frump. LXXXIII;

að *reyta* gras, Nj. 80, 154, Fms. II, 161, 163; en *reita* = áreita, Alex. 55;
*reytir* í *hausreytir*, Fsk. 3;
*reyting*, það að reyta;
*reytingur*, samtíningur;
*reyði* [*rauð-ur*] í *reyðikúla*, eins konar sveppur;
*reyður*, 1) hvaltegund, Sn.-Ed. I, 580, II, 481; 2) silungur, Sn.-Ed. I, 578; en *reiður*, illur í skapi, *reiði*, heipt; *skipsreiði;* að *reiða*, gjalda, lypta upp, flytja;
*reysti* [*raust*] í *háreysti;* sbr. *haravsti*, Nj. 54; *horevsti*, Frump. 146;

að *reysta* [*raust*], kveða, Skáldh. 3, 6;
*reyr*, 1) reyrgresi, Sn.-Ed. II, 483, 566, Fms. VI, 153; 2) dys,

Fms. I, 60; sbr. *raur,* Fms. X, 390; sbr. á þýzku *Rohr;* á dönsku *Rör;*

að *reyra,* 1) binda, Fms. V, 157; 2) dysja, Fms. VII, 227, IX, 274;

að *reyna* [*raun*], Nj. 54, Fms. X, 262;

*reynir* [*raun*], sá sem reynir, Fms. IV, 50; *dómreynir,* Nj. 78;

*reynir,* viðartegund, Sn.-Ed. II, 483, 566; sbr. á dönsku *Rön;*

*reynd* [*raun*], Sn.-Ed. I, 78;

*reynsla* [*raun*];

*reyfari* [= *raufari*], Fms. VI, 162; sbr. á þýzku *Räuber;* á dönsku *Röver;*

*reyfi,* Grág. II, 247; *ullarreyfi,* Grág. I, 25, II, 71, 205;

að *neyta* [jeg *naut*], Fms. X, 267; en *neita,* segja nei;

*neyti* [jeg *naut*], fylgd, Sn.-Ed. I, 534, II, 465, 548; *samneyti, ráðuneyti,* Fms. X, 405 (ritað *raðponaytis*); *föruneyti,* Nj. 24, Fms. X, 262; *mötuneyti,* Frump. XX (ritað *matuneyti*);

*neyti* [*naut*] í *ungneyti, geldneyti, blótneyti;*

*neytir* [jeg *naut*], sá sem neytir, Sn.-Ed. II, 166;

*neytinn* [jeg *naut*] í *sparneytinn;*

*neytur* [jeg *naut*], notandi, nýtur, Fms. III, 192; *fjeneytur,* Fms. IV, 340;

*neytni* [jeg *naut*] í *sparneytni;*

*neyð* [= *nauð*]; sbr. á þýzku *Noth;* á dönsku *Nöd;*

að *neyða* [*nauð*], Fms. X, 263, Nj. 56;

*neyzla* [jeg *naut*]; *afneyzla,* Nj. 50; *ofneyzla;*

*peysa;*

*beyki;* sbr. á þýzku *Buche;* á dönsku *Bög;* rjettara *bæki;*

*beygilegur* [*baug-ur*] í *umbeygilegur,* Sn.-Ed. II, 8, 88;

*beygja* [*baug-ur*]; *vaðbeygja;*

að *beygja* [*baug-ur*], Fms. II, 108;

*beygjanlegur* [*baug-ur*];

*beygla* [*baug-ur*];

að *beygla* [*baug-ur*];

*beyrsta* (*beysta*), berja, Frump. 64 (ritað *bøysta*), Nj. 103, Fms. XI, 272; sbr. á þýzku *bürsten;* á dönsku *börste;*

*Búseyra*, tröllkonuheiti, Sn.-Ed. I, 260;
*bleyta* [*blaut-ur*];
að *bleyta* [*blaut-ur*];
*bleyting* [*blaut-ur*];
*bleytugur* [*blaut-ur*];
*bleyða* [*blauð-ur*];
að *bleyðast* [*blauð-ur*], Fms. VIII, 137;
*bleyði* [*blauð-ur*], Sn.-Ed. I, 306, Fms. II, 306, VIII, 135;
*bleyðimaður*, Nj. 36;
*bleyðulegur* [*blauð-ur*];
að *breyta* [jeg *braut*], Nj. 2, 130, Fms. IV, 4;
*breytilegur*, og atv. *breytilega* [jeg *braut*], Fms. VI, 374; *fábreytilegur; óbreytilega*, Fms. II, 267;
*breytir* [jeg *braut*], Sn.-Ed. I, 236;
*breyting* [jeg *braut*]; *eptirbreyting;*
*breytingi* [= *brautingi*];
*breytinn* [jeg *braut*] í *fábreytinn, fjölbreytinn*, Sn.-Ed. I, 104; *margbreytinn*, Fms. II, 7;
*breytni* [jeg *braut*], Nj. 7; *tilbreytni, nýbreytni;*
*breyskja;*
að *breyskja*, t. a. m. korn;
*breyskur*, Frump. 158, Skuggs. 133, 150;
*breyskleiki* og *breyskleikur*, Skuggs. 134, 150, Frump. 157;
að *breysta*, kvika, Fms. XI, 129;
*breyma* [*brau-r*? Sn.-Ed. I, 278, mismunagrein 8], um ketti;
*feykilegur*, og atv. *feykilega* [jeg *fauk*];
*feykir* [jeg *fauk*], eldur, Sn.-Ed. II, 486, 570;
að *feykja* [jeg *fauk*], láta fjúka; líka = þjóta, Fms. VII, 342;
*feygja;* sbr. á þýzku *feucht;* á dönsku *fugtig;*
að *feygja, feygði;* upprunalega mun þetta orð og orðið næst á undan hafa verið *feyja*, og að *feyja, feyði, feyð;* sýna það myndirnar: *hann feyr*, NgL. II, 106, og *feyðr*, Barl. 139; enda virðist *fúi* að benda til, að ekkert *g* eigi að rjettu lagi að vera í þeim;
*feyra;*

að *feyra;*
*feyskinn* [*fausk-ur*];
*feyskja* [*fausk-ur*];
að *feyskja* [*fausk-ur*];
*fley,* skip, Sn.-Ed. I, 582, Fms. IV, 282;
að *fleyga* [*flaug* = skora], kljúfa;
*fleygi* [jeg *flaug*] í *fleygiferð;*
*fleygir* [jeg *flaug*], sá sem þeytir, Sn.-Ed. II, 498, Þ. hreð. 30;
*fleygur* [*flaug*], verkfœri til að kljúfa með;
*fleygur* [jeg *flaug*], sá sem getur flogið; *hraðfleygur, ófleygur,* Sn.-Ed. I, 368; *hjeraðsfleygur;*
að *fleygja* [jeg *flaug*], Fms. X, 267, XI, 72;
að *fleyta* [jeg *flaut*], Fms. III, 211;
*fleyti* [jeg *flaut*] í *fleytifullur;*
*fleytur* [jeg *flaut*] í *hallfleytur;*
*fleyttur* [jeg *flaut*] í *samfleyttur, sífleyttur;*
*fleymingur* [*flaum-ur*] = flœmingur;
*Freyja,* Sn.-Ed. I, 96, Nj. 103; *húsfreyja,* Fms. X, 265; sbr. á þýzku *Frau;*
að *freyða* [*frauð-ur*];
*Freyr,* Sn.-Ed. I, 96; 2) naut, Sn.-Ed. I, 587; sbr. á gauzku *frauja;*
*mey,* að rjettu lagi *mær* í gjöranda, en *mey* í þolanda og þiggjanda, og eiganda *meyjar;* fleirtalan: *meyjar, meyjum, meyja,* Nj. 1, Frump. 149 (ritað *møyum*), 150 (ritað *møyium*);
að *meykja* [*mauk*];
*meyla,* viðurnefni, Fms. VII, 321;
*meyr,* Frump. 186; sbr. á þýzku *mürbe;* á dönsku *mör;*
að *meyrna;*

## 17. grein.
## Um ei.

Þessi tvíhljóður hefur skýrt hljóð, nema að *ey* hefur sama hljóð, og hefur þegar verið gjörð nokkur grein fyrir því, hvar *ey*

skuli rita; í öðrum orðum skal því *ei* rita, er það hljóð heyrist, og svo á undan *nk* og *ng;* sbr. 18. gr. Enn fremur ber þess að geta, að *ei* hefur í sumum orðum blandazt saman við *i,* og sjeu báðar myndirnar tíðkanlegar í tali, skal hafa þá myndina, sem málrjettari er; þannig skal rita t. a. m. *geislungar,* en eigi *gislungar, háleistur,* en eigi *hálistur;* en *gleiðna* og *gliðna, skreika* og *skrika, sveiti* og *sviti; sviti* er nú miklu almennara í tali; en þó verður eigi móti því borið, að betur fer á *sveiti* stundum, t. a. m. í guðfræðislegu máli. Þá skal og rita *jarteikn,* enda eru hinar eldri myndirnar, *jartegn* og *jartein,* nú úreltar.

Athugasemd. *Í fornum bókum er þráfaldlega ritað* í *fyrir* ei, *t. a. m.* svíma = sveima, níta = neita, svít = sveit; *en eigi er slíkt hafandi nú.*

## 18. grein.

### Um granna og fláa hljóðstafi fyrir framan **ng**.

Í öllum ósamsettum orðum skal rita granna stafi á undan *nk* og *ng,* það er: *a* (eigi *á), ö* (eigi *au), e* (eigi *ei), i* (eigi *í), u* (eigi *ú), y* (eigi *ý),* og er óþarfi, að telja hjer upp sannanir fyrir því, að fornmenn hafi svo að kveðið; það er nógsamlega og ljóslega gjört í Frump. 8—11; enda eru og enn leifar þessa framburðar fyrir vestan land. Þó skal þess getið, að hljóðbreyting hinna fláu stafanna, sú sem nú er höfð, á undan *nk* og *ng* er gagnstæð öllum þeim reglum, er hljóðvörp fara eptir í íslenzku í öðrum orðmyndum, og því gagnstæð eðli málsins; og úr því þar að auki leifar hinna grönnu hljóðanna enn eru til, og þau hljóðin miklu fegri, virðist ekki áhorfsmál, að rita *ank, önk, enk, ink, unk, ynk,* en eigi *ánk, aunk, eink, ínk, únk, ýnk; ang, öng, eng, ing, ung, yng,* en eigi *áng, aung, eing, íng, úng, ýng,* nema því að eins, að orðið sje annaðhvort samskeytt, og síðari hlutinn byrji á *k* eða *g,* eða þá afleitt af öðru orði, er hefur breiðan hljóðstaf í meginhluta sínum, og afleiðsluendingin hefjist á *k* eða *g,* því að þá skal hinum fláa hljóðstaf haldið; þannig t. a. m.: *ein-kunn, ein-kenni,* að *ein-kenna, ein-kar, ein-ka, ein-kum*

(af *einn)*; *sín-ka, sín-kur* (af *sín)*; *svín-kaður* (af *svín)*; að *mein-ga, mein-gun* (af *mein)*; *kvein-ka* (af *kvein)*; *sein-ka* (af *sein)*, o. s. frv. Með því enginn grannur hljóðstafur er sá, að svari til *æ*, þá verður að halda því, af því eigi mun þykja takandi ritháttur fornmanna, að bœta inn í *i*, og rita *sæing, hæingur, Klæingur*, o. s. frv., og væri það þó með öllu rjett.

# II. kafli.

## Um samhljóðendurna.

### 19. grein.

### Um k.

Í upphafi orðs eða atkvæðis hefur þessi stafur víðast skýrt hljóð, nema að eins ef *v* fer á eptir, er munurinn eigi glöggur, hvort *k* skuli rita, eða þá *h*, og mun það verða að nokkru skýrt síðar, hvar *h* skuli rita á undan *v*; en hver helzt annar stafur sem á eptir fer, segir hljóðið sjálft til, ef *k* skal rita, hvort sem á eptir fer hljóðstafur eða samhljóðandi, t. a. m. *karmur, kör, ker, kári, kær, kór, kur, kyrr, kúra, kýr, keyra, klaga, kragi, knefi*.

Í miðju atkvæðis getur *k* staðið á undan *j, t, s, z, l, r, n, v*; hefur *k* ávallt skýrt atkvæði á undan *k, j, r, n* og *v*, og virðist því enga nauðsyn til bera að gefa neinar reglur fyrir, hvar *k* skuli rita á undan þessum samhljóðendum, með því óhætt er, að fylgja framburðinum í því efni. Þannig skal rita: *sakka, sprikla, ekra, vakna, vökvi*, og er skýr munur hljóðsins í þessum orðum og t. a. m. *saggi, vaglar, ögra, vagn*, o. s. frv.

Á undan *t* hefur *k* og *g* sama hljóð eptir vorum framburði, og þarf því að hafa skýrar reglur fyrir, hvar *k* skuli rita, og hvar *g*.

1) Í flestum þeim orðum, þar sem *t* heyrir meginhlutanum til, eða helzt í öllum myndum orðsins, skal *k* rita, en eigi *g*, því að *t*, sem er harður dumbur stafur, heimtar í rauninni *k* á undan sjer, enda þótt orðið sje myndað eða leitt af þeim orðum, sem *g* hafa í meginhluta sínum; þannig skal því rita *sekt* (af *sekur)*,

*spekt, nekt, flökta,* o. s. frv. Um þau orð, er rita skal með *g,* þar sem *t* heyrir meginhlutanum til, sjá 20. gr.

2) Þá skal og rita *k* í öllum þeim orðum, þar sem *t* heyrir beygingarendingu til, og *k* heyrir meginhluta orðsins til, og á það sjer stað:

a) í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *k;* þannig t. a. m.: *spakt* af *spak-ur, spök; ríkt* af *rík-ur, rík;* sömuleiðis *þekkt* af *þekk-ur;*

b) í þál. tíð, gjörsagnarbót og hlutteknigarorðum liðins tíma þeirra sagna, er meginhluti þeirra hefur *k* í sjer, og má sjá, hvort svo sje, t. a. m. á nafnhætti, með því þar er *k*-hljóðið ljóst; þannig skal t. a. m. rita: *kveykti* af *kveykja, rakti* af *rekja, vakti* af *vekja,* o. s. frv.

Undantekning frá þessari reglu eru sagnirnar *þykja* og *sækja,* bæði samkvæmt framburði og rithætti fornmanna, er þál. tíð í framsöguhætti skal rita: *þótti, sótti,* sagnarbót: *þótt, sótt;* hlutt. orð liðins tíma af *sækja* er *sóttur;* en af *þykja* er það eigi til; þál. tíð samtengingarháttar skal ritin: *þætti,* en viðfelldnara verður *sækti,* enda þótt í fornritum sje *sætti.*

Ef *s* fer á eptir, verður eigi af framburðinum einum ráðið, hvort rita skuli *k* eða *g,* með því hljóð þessara samstafana, *ks* og *gs,* er hið sama og í *x,* og verða því brýnar reglur nauðsynlegar, svo að rjett verði ritað.

Hvar *x* skuli hafa, mun síðar grein fyrir gjörð, en *ks,* heldur en *gs,* skal hafa í öllum þeim orðum, er meginhluti þeirra endar á *k,* en *s* er ending, en það á sjer stað, þar sem nú skal greint:

1) í eig. eint. af ýmsum karlkynsnöfnum og hvorugkynsnöfnum, enda lýsir *k* sjer sjálft þegar í gjör. eint.; þannig t. a. m. *hróks* af *hrókur, leiks* af *leikur, taks* af *tak, loks* af *lok, foks* af *fok;* en *teigs* af *teigur, logs* af *log;*

2) í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna, og sjest það einnig á meginhlutanum, eða gjör. eint. í kvennkyni; þannig skal rita *spaks* af *spakur, ríks* af *ríkur, veiks* af *veikur,* o. s. frv.

3) Þá skal og rita *loks* og *loksins,* með því þau orð eru leidd af *lok;* sbr. *að lokum;*

4) í 2. pers. eint. þál. tíðar áhrifsmyndar sagna, ef 1. pers. endar á *k;* þannig t. a. m. *sveikst* af *sveik* (*svíkja*), *veikst* og *vjekst* af *veik* og *vjek* (*víkja*); á hinn bóginn *seigst* af *seig, steigst* af *steig,* af *síga* og *stíga.* Að öðru leyti má þetta saman bera við það, sem sagt er um *g.*

5) Í sagnarbót þolbreytingar sagna er og sami vafi á, hvort *k* skal rita eða *g,* því að þar fer *z* á eptir, en *z* hefur sama hljóð og *s;* en þar skal *k* rita, þar sem *k* er í meginhlutanum, en það má sjá þegar í nafnhætti; þannig t. a. m.: *hreykzt* af *hreykja, veikzt* af *veikja* (aptur *vígzt* af *vígja*).

Nú má eigi enn hlíta framburðinum einum, til að ráða úr, hvort rita skuli *k* að eins, eða þá *kk,* ef *t* fer á eptir, og verður því eins að leita meginhlutans, eða frumorðanna, ef orðið er afleitt; en *kk* skal rita:

1) í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni þeirra einkunna, er meginhlutinn, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *kk;* þannig t. a. m.: *þekkt* af *þekk-ur, þykkt* af *þykk-ur,* o. s. frv. (en t. a. m.: *stækt* af *stæk-ur, spakt* af *spak-ur, mjúkt* af *mjúk-ur*);

2) sömuleiðis í þál. tíð, gjörsagnarbót og hluttekningarorðum liðins tíma þeirra sagna, er meginhluti þeirra hefur *kk,* og má sjá, hvort svo er, á nafnhætti og núl. tíma framsöguháttar; því skal rita: *stökkti, stökkt,* af *stökkva* (jeg *stökkvi*); *blekkti, blekkt, blekktur,* af *blekkja,* o. s. frv.; en aptur á hinn bóginn: *hrakti, hraktur,* af *hrekja; þakti, þaktur,* af *þekja,* o. s. frv.;

3) í þeim nöfnum, sem leidd eru af þeim orðum, er *kk* hafa í meginhluta sínum, með því að bæta við *t;* en þessi eru hin helztu:

*þekkt, óþekkt* [*þekk-ur*];
*þykkt* [*þykk-ur*];
*samþykkt* og *óþykkt.*

Eins skal og rita *mekktur,* hlutekn. eink., af *makki.*

Ef *s* fer á eptir *k,* þá sýnir enn eigi framburðurinn, hvort rita skuli *k* að eins eða *kk,* og verður þá að leita meginhlutans; því að jafnan skal meginhlutinn óbreyttur að því leyti, að engan samhljóðanda skal úr fella, ef hann annars verður fram borinn í sam-

stöfun, og eins er um *kk*, að það skal rita á undan *s*, ef *kk* er í meginhluta orðsins, og á það sjer stað:

1) í eig. eint. ýmissa karlkenndra nafna, ef *kk* er heyranlegt í gjör. eða þol. eint.; þannig skal því rita: *sekks* af *sekkur*, *hrekks* af *hrekkur*, *stakks* af *stakkur*;

2) í eig. eint. ýmissa hvorugkyns-nafna, enda ber gjör. eint. það þegar með sjer, ef *kk* er í meginhlutanum, t. a. m. *stökks* af *stökk*;

3) í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þeirra einkunna, er gjör. eint. í kvennkyni hefur *kk* að niðurlagi; þannig t. a. m. *þekks* af *þekkur*, *þykks* af *þykkur*;

4) í 2. pers. eint. þál. tíðar áhrifsmyndar sagna, er 1. pers. þeirrar tíðar endar á *kk*; þannig t. a. m.: *gekkst* af *gekk (ganga)*, *hjekkst* af *hjekk (hanga)*, *stökkst* af *stökk (stökkva)*, *fjekkst* af *fjekk (fá)*, o. s. frv.;

5) í eint. þál. tíðar þolbreytingar sagna, þar sem þolbreyting annars er til, ef 1. pers. eint. þál. tíðar áhrifsmyndar endar á *kk*; þannig t. a. m.: *hann fjekkst ekki.*

6) Sömuleiðis skal og rita *kk* í sagnarbót þolbreytingar allra þeirra sagna, er *kk* er í meginhluta þeirra, og má það sjá á nafnhætti; þannig t. a. m.: *hann hefur hvekkzt* (af *hvekkja, hvekki hvekkt*).

*kk* skal og rita á undan *n* ávallt, þegar uppruni er til, en framburðurinn er hinn sami, hvort heldur *k* er, eða *kk*, og því skal rita *kk* ávallt á undan *n*:

1) í þiggj. eint. í karlkenndum nöfnum, er greinirinn er skeyttur saman við þau, þegar *kk* er heyrilegt í gjör. eint.; þannig t. a. m.: *sekknum* af *sekkur*, *stekknum* af *stekkur*, o. s. frv.;

2) í öllum samandregnum myndum einkunna og hluttekningarorða, er endast á *inn*, ef *kk* er heyrilegt í hinum ósamandregnu; þannig t. a. m.: *hrokkna, hrokknum, hrokknir*, af *hrokkinn; stokkna, stokknum, stokknir*, af *stokkinn* (af *stökkva)*, o. s. frv.;

3) í þeim orðum, er leidd eru af öðrum þeim orðum, er *kk* hafa í meginhluta sínum, og eru þessi hin helztu:

að *klökkna* [*klökk-ur*];

að *drukkna* [vjer *drukkum*];

*þekkni* [*þekkinn*] í *geðþekkni* og *glöggþekkni*;

að *þykkna* [*þykk-ur*];

*þykkni, einþykkni* [*þykk-ur*];

að *slokkna* [*slökkva*];

*bekkni* [*bekkinn*].

Á hinn bóginn nefnum vjer *kk* fyrir *k* eitt í *klaklaust* (framb. *klakklaust*), og *staksteinótt* (framb *stakksteinótt*, af *stakur*), og skal eigi rita þessi orð nema einu *k*.

Í enda atkvæðis hefur *k* skýrt hljóð, hvort sem á undan fer hljóðstafur eða samhljóðandi, en *k* getur staðið á eptir alla hljóðstafi, og samhljóðendurna: *ð, s, l, r, n, f, m*, t. a. m.: *taka, sök, sek, hákur, vik, vík, voka, tók, tæk, mjúkur, mýki, rauk, eyk, eik, traðk, hásk-i volk-a, spark-a, minnk-a, rífk-a, rýmk-a*. En það getur líka staðið á eptir *t*, og er þá fram komið af *g*, eða með öðrum orðum, að linur gómstafur (*g*) hefur breytzt í harðan gómstaf (*k*) á eptir harðan tannstaf (*t*), en það á sjer stað:

1) í hinum samandregnu myndum einkunnarinnar *máttugur*, og þeirra einkunna, sem af henni eru samsettar; þannig skal því rita: *máttkan, almáttkan, almáttkum, almáttkir, ómáttkan, ámáttkum*, o. s. frv., ef þessar samandregnu myndir annars eru hafðar;

2) í *vættki* = eigi neitt, sem þó sjaldan mun vera haft nú á dögum.

Eins er *k* komið í staðinn fyrir *g* í samtengingarorðinu *hvorki*, upphaflega samsett af *hvort*, hvorugkyninu af *hvor*, og neitunarsamstöfunni *gi*, sem hengd er aptan við orð, og ætti því að rita *hvortgi*, en sem þó eigi skal, heldur *hvorki*.

Enn fremur segja sumir *tólg*, en sumir *tólk*; og enn sumir *tólgur* eða *tólkur*, og held jeg *tólg* sje rjettast.

Athugasemd. *Fornmenn rituðu stöðuglega* k, *þar sem vjer höfum nú* g, *í fornöfnunum*: ek, mik, þik, sik, *og smáorðinu* ok, *og optar í* mjök, *fyrir* eg, mig, þig, sig, og, mjög, *en eigi er þetta nú hafandi, því að nú höfum vjer breytt hljóðinu, og* g-*hljóðið er skýrt, enda raskar það að engu eðli málsins. Því síður er ritandi* k *í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni þeirra einkunna, er myndast með afleiðsluendingunum* legur *og* ugur (*fornt*

ligr *og* igr), *enda þótt opt finnist þess dæmi hjá fornmönnum, að þar sje* k *ritið, t. a. m.:* maklikt *fyrir* makligt, göfuglikt *fyrir* göfugligt, *o. s. frv.*

Þá er það enn um *k*, að standi það á undan *t*, en samhljóðandi fari á undan *k*, þá verður það að minnsta kosti mjög óljóst í framburðinum eða óheyrilegt með öllu; en þó skal það rita, ef það er í meginhluta orðsins; á það sjer einkum stað:

1) í gjör. og þol. í hvorugkyni einkunna, er meginhluti þeirra endar á *k*; þannig t. a. m.: *sterkt,* af *sterk-ur, myrkt,* af *myrkur,* o. s. frv.;

2) í þál. tíð framsöguháttar og samtengingarháttar, sagnarbót áhrifsmyndar og hlutteknigaror ðum liðins tíma þeirra sagna, er *k* verður heyranlegt í nafnhætti, t. a. m.: *styrkti, styrkt, styrktur,* af *styrkja, breyskti, breyskt, breysktur,* af *breyskja, merkti, merkt, merktur,* af *merkja,* o. s. frv.;

3) í skipunarhætti, þegar fornafnið *þú* er skeytt aptan við, og það þá breytist í *tu,* t. a. m.: *styrktu, merktu,* o. s. frv.;

4) í ýmsum nöfnum, sem leidd eru af öðrum orðum með afleiðslu-endingunni *t,* t. a. m.: *styrkt, virkt, vandvirkt* (af *verk*). o. s. frv.

Í þeim sögnum, er *k* verður óheyrilegt í, ef *t* fer á eptir (sjá 1), verður það og mjög óljóst á undan *z* í sagnarbót þolbreytingar, en þó skal það þar rita, t. a. m.: *styrkzt, merkzt,* o. s. frv.

Hvar *j* skuli rita eptir *k*, sjá *j*.

## 20. grein.

## Um g.

*g* hefur skýrt atkvæði í upphafi orðs, hvort sem hljóðstafur fer á eptir eða samhljóðandi, t. a. m.: *galli, görn, get, gær, gutu, gúli, gjá, gler, gróa, gnauð,* og skal þar því rita *g* í byrjun orðs, sem hljóðið segir til. Þó ber þess að geta, að á stundum er *g* haft framan við sum þau orð, er annars byrja á *l* eða *n*, helzt í fornum bókum, og eru þessi hin helztu:

*glíking* = *líking;* *glíkur* = *líkur;*

| | |
|---|---|
| *glíklegur = líklegur;* | að *gnaga = naga;* |
| að *gnötra = nötra;* | *gnegg = negg;* |
| að *gnæða = næða;* | *gnæfur = næfur;* |
| að *gnísta = nísta;* | *gnógur = nógur;* |
| *gnóglega = nóglega;* | *gnóglegt = nóglegt;* |
| *gnægja = nægja;* | *gnægt = nægt;* |
| *gnudd = nudd;* | að *gnudda = nudda;* |
| að *gnúa = núa;* | *gnúpur = núpur;* |
| *gnípa = nípa?* | að *gnauða = nauða;* |
| að *gneista = neista;* | *gneisti = neisti;* |

*gneip = neip.*

En rjettara mun nú vera, að hafa eigi *g* í upphafi þessara orða, enda þótt fornmenn þráfaldlega riti svo, með því að vjer nú aldrei kveðum svo að í daglegu tali; þó er eigi svo að skilja, að alls eigi megi hafa *g* í byrjun þessara orða, þegar svo fer betur, t. a. m. í skáldskap. Aptur segjum vjer jafnaðarlegast *gnógt* eða *gnótt,* og *gnægð* í eintölu, enda skal og svo rita; en í fleirtölunni höfum vjer ýmist *gnægtir* eða *nægtir,* og ritum því og svo jöfnum höndum; þó er vanalegra *nægtir* í *allsnægtir,* enda er *allsgnægtir* miklu stirðara.

Athugasemd. *Þetta* g, *sem skeytt er framan við orð, svarar til* ga *á gauzku,* ge *og* g *á þýzku, og* ge *á engilsaxnesku, og eru í öllum þessum tungum þessar samstöfur þráfaldlega skeyttar framan við orð, t. a. m. á gauzku* ga-nohs *(= nógur), á þýzku* genug, *á engilsaxnesku* genog, *o. s. frv.*

Í miðju atkvæði hefur *g* eigi ávallt skýrt atkvæði, með því samhljóðandinn, sem á eptir fer, stundum breytir hljóðinu að nokkru, svo að á stundum heyrist varla, hvort *k* er eða *g.* En í miðju atkvæði getur *g* staðið á undan *j, t, ð, s, z, l, r, n,* og *v,* en ef einhver þessara stafa fer á eptir *g,* getur og *l, r,* eða *n,* farið á undan.

Við ber það í samskeytingum, að þegar fyrri hluti samskeytingsins endar á *g,* en hinn síðari byrjar á *k,* að *g* verður hart í framburðinum, eða það er borið fram, því nær sem *k* væri, og því verður að gæta þar upprunans; þannig skal t. a. m. rita

*lagklauf* og *legkaup*, enda þótt þessi orð sjeu borin fram líkt, og rita ætti *lakklauf* og *lekkaup*.

Með því að *g* fær sama hljóð á undan *j*, eins og síðast í atkvæði, er *i* fer á eptir, þá verður um það talað síðar í þessari grein hvorttveggja í einu lagi.

Á undan *t* verður eigi af framburðinum einum ráðið, hvort rita skuli *g* eða *k*, enda rita fornmenn þar opt *k*, er *g* skyldi rita eptir uppruna. En enn skal þá reglu hafa, að rita *g* á undan *t*, þar sem *g* kemur fram í þeim myndum orðsins, er eigi fer *t* á eptir, og því skal *g* rita:

1) í gjör. og þol. eint. einkunna þeirra, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *g*; t. a. m.: *þægt*, af *þægur, seigt*, af *seigur, lágt*, af *lágur, veglegt*, af *veglegur, máttugt*, af *máttugur*, o. s. frv.;

2) í sagnarbót áhrifsmyndar þeirra sagna, er *g* hafa í meginhlutanum, eins og sjá má af þál. tíð framsöguháttar; t. a. m.: *sagt*, af *segja; fægt*, af *fægja*.

3) Þá er það og leitt í venju, að rita *nægt* (nafn), af *nægur*, enda þótt að *g* annars breytist vanalega í *k*, ef báðir stafir heyra meginhlutanum til; eins mun og eiga að rita *bögt* og *að bögta, skjögt* og *að skjögta*, og enn fremur *vigt* og *að vigta*, ef þessi tvö orð annars verða álitin íslenzk að eðli og uppruna, sem þó naumast mun verða.

Sömu reglu skal og fylgja með *gg*, að rita *gg* í gjör. og þol. í hvorugkyni einkunna, ef gjör. eint. í kvennkyni endar á *gg*, og sömuleiðis *gg* í sagnarbót gjörsagnarmyndar, er *gg* kemur fram í öðrum myndum sagnarinnar, t. a. m. í nafnhætti; þannig t. a. m.: *glöggt*, af *glöggur, söggt*, af *söggur, styggt*, af *styggja, byggt*, af *byggja*. Undantekning frá þessari reglu er *lagt*, af *leggja*.

Ef *ð* fer á eptir, þá er hljóðið skýrt, t. a. m.: *bugða, beygði, fægði, vægð*, enda er ekkert það orð í íslenzku, að nú skal rita *k* á undan *ð*, enda þótt fornmenn riti svo optlega, t. a. m.: *spekð, vekði*, o. s. frv. Á undan *ð* verður eigi, heldur en á undan öðrum samhljóðendum, af hljóðinu einu ráðið, hvort rita skuli *g* eða *gg*, og verður því að leita meginhluta orðanna, og þannig rita *gg* á undan *ð*:

1) í þál. tíð og hlutekningarorðum liðins tíma þeirra sagna, er *gg* hafa í nafnhætti og núl. tíma; þannig t. a. m.: *styggði, styggður,* af *styggja; byggði, byggður,* af *byggja.* Þó er sú undantekning frá þessari reglu, að rita skal *lagði, lagður,* af *leggja,* að dœmi fornmanna, með því eigi er nema eitt *g* að eins í stofni þessa orðs, eins og sjá má af nafninu *lag,* og hinni fornu mynd sagnarbótarinnar og hlutekningarorðs liðins tíma, *lagit, lagiðr* og *laginn,* er vjer enn höfum sem einkunn; eins *hugði,* af *hyggja;* sbr. sagnarbótina *hugað,* og hlutekningarorð lið. tíma *hugaður.*

2) *gg* skal og rita í þessum orðum:

*hryggð;*

*tryggð (ótryggð, tortryggð);*

*dyggð; dyggðugur;*

*skyggður,* fægður;

*skyggðir,* sverð;

*styggð (andstyggð);*

*byggð.*

Á undan *s* skal rita *gg:*

1) í eig. eint. karlkenndra nafna og hvorugkynsnafna, ef *gg* verður heyranlegt í þol. eða gjör. eint.; því skal rita: *veggs,* af *veggur, seggs,* af *seggur, höggs,* af *högg,* o. s. frv. (en *vegs* af *vegur);*

2) í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þeirra einkunna, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *gg;* t. a. m.: *glöggs,* af *glöggur, snöggs,* af *snöggur,* o. s. frv.;

3) Þá skal og rita *gg* í sagnarbót þolbreytingar sagna, þótt *z* fari þar á eptir, ef *gg* er í meginhluta þeirra, og má sjá, hvort svo er, í nafnhætti áhrifsmyndar; þannig t. a. m. *styggzt,* af *styggja, byggzt,* af *byggja,* o. s. frv. Hin eina undantekning frá þessu er *liggja,* er sagnarbót þolbreytingar er *lagzt=lagizt,* enda hefur meginhluti þess orðs eigi nema *g* í stofni sínum, eins og áður er sagt.

Enn er það, að framburður vor eigi greinir *g* og *k* á undan *sl,* og verður þar uppruni að segja til; en *g* skal rita í:

*drægsli;*

*bægsli;*

*vígsla,*

og svo öðrum orðum, er leidd eru af þeim orðum, er *g* hafa í meginhluta sínum, en annars skal rita *k*, t. a. m.: *loks, rekstur, mokstur,* o. s. frv., nema því að eins að *x* skuli rita fyrir *ks* eða *gs*, og verður um þau orð talað síðar; sjá 31. gr.

Enginn vafi virðist geta á verið, hvar *g* skuli rita á undan *l, r, n,* heldur sýnir framburðurinn það sjálfur; t. a. m. *ögra, tagl, vagn.* Hitt kynni heldur að þurfa aðgæzlu við, hvort rita skuli *g* eða *gg*.

Fyrir framan *l* á *gg* sjer stað í fáeinum nöfnum, í þeim myndum þeirra, er endingin hefst á hljóðstaf, enda verður *gg* skýrt í þeim orðum í gjör. eint., t. a. m.: *böggli, bögglar, bögglum,* af *böggull.* Þá skal og rita *gg* í þessum orðum:

*hryggla?*

*töggl,* það að þrástagast á;

að *töggla;*

*skeggla (rauðskeggla);*

*böggl;*

að *böggla;*

*bögglingur;*

*myggla;*

að *myggla;*

*mygglingur.*

Fyrir framan *n* á *gg* sjer stað í ýmsum orðum, t. a. m. karlkenndum nöfnum, er greinirinn er skeyttur aptan við, t. a. m. *hryggnum,* af *hryggur, veggnum,* af *veggur,* o. s. frv., og í þeim föllum einkunna upp á *inn,* þar sem endingin byrjar á hljóðstaf, t. a. m. *hyggnum, hyggna, hyggnir,* af *hygginn,* o. s. frv., og er það auðfynt, hvort rita skuli *g* eða *gg,* í nöfnum, með því að taka greininn aptan af, og í einkunnum, með því að gæta að gjör. eint.

Enn fremur skal rita *gg* í orðum þeim, er nú skulu greind:

að *guggna;*

*guggnun;*

*hyggni (grunnhyggni);*

*auðtryggni;*
*tortryggni;*
*skyggn;*
að *skyggna;* | og þá líka í öllum samskeytingum þeirra, t. a. m. *glámskyggn, fjeskyggna,* o. s. frv.;
*skyggna;*
*skyggni;*
*skyggnleikur;*
*skyggnir* (viðurnefni; Fms. IX, 372).

Þá er enn um *g,* að það hverfur á stundum, eða að minnsta kosti verður mjög óljóst í framburði vorum, á millum tveggja samhljóðanda, og verður þá að gá að öðrum myndum þeirra orða, og rita *g,* þótt það sje óljóst eða óheyrilegt, ef það annars heyrir meginhlutanum til; en *g* getur staðið á millum *l* og *t, l* og *d, l* og *s, l* og *z, l* og *n, r* og *t, r* og *ð, r* og *z, n* og *t, n* og *d, n* og *z, n* og *r.*

Af þessum samstöfunum eiga sjer stað:

1) *lgt, lgd, rgt, rgð, ngt, ngd* ýmist í þál. tíð, og karlkyni og kvennkyni hluttekningarorða liðins tíma, og ýmist í sagnarbót og hvorugkyni hluttekningarorða liðins tíma, og má þá finna á nafnhætti þess konar sagna, hvort *g* skuli rita, eða eigi; þannig skal því rita t. a. m.: *telgdi, telgt, telgdur,* af *telgja; fylgdi, fylgt,* af *fylgja* (en *fyllti, fyllt, fylltur,* af *fylla;* og *fylkti, fylkt, fylktur,* af *fylkja*); *byrgði, byrgt, byrgður,* af *byrgja; fergði, fergt, fergður,* af *fergja* (en *ferja, farði,* að flytja yfir vatn); *bergði, bergt, bergður,* af *bergja* (en *berði,* af *berja*); *syrgði, syrgt, syrgður,* af *syrgja; engdi, engt, engdur,* af *engja; hengdi, hengt, hengdur,* af *hengja; tengdi, tengt, tengdur,* af *tengja.*

Til hins sama má og finna dœmi í einkunnunum; þannig t. a. m.: *fjeskjálgt,* af *fjeskjálgur, margt,* af *margur.* Fornmenn rituðu opt *mart* eptir framburði, en nú þykir það eigi hafandi. Eins skal og rita *að morgna* (af *morgunn*), þótt í daglegum framburði að eins sje sagt *morna,* og sömuleiðis *morgni,* þiggj. eint. af *morgunn,* og fleirt. *morgnar, morgna, morgnum.*

2) *lgd, rgð, ngd* eiga sjer einnig stað í fáeinum nöfnum, og heyra þar allir þrír stafirnir meginhlutanum til, og er *g* óheyrilegt í sumum þeirra, t. a. m.:

*fylgd;*
*byrgð (byrgðir; ábyrgð; örbyrgð);*
*mergð;*

en *g* í *ngd* mun ávallt heyrast, t. a. m. *svengd, lengd,* o. s. frv.

3) *lgs, rgs, ngs* eiga sjer stað í eig. eint. nokkurra karlkenndra nafna og hvorugkynsnafna, og í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna; má það sjá í nöfnunum þegar á gjör. eint., hvort *g* skuli rita, og í einkunnunum á gjör. eint. í kvennkyni; því að þar sem *g* kemur fram í gjör., þar skal það og ritið í eig., en annars eigi, enda mun *g* og að nokkru heyrast í eig., þar sem það annars á að vera, einkum milli *n* og *s;* þannig t. a. m.: *belgs,* af *belg-ur, volgs,* af *volgur,* o. s. frv. (en *svells,* af *svell, fulls,* af *fullur), bjargs,* af *bjarg, svangs,* af *svangur,* o. s. frv. Eins er *að bólgna, volgna* (af *bólga, volgur),* þótt að sje kveðið, eins og rita ætti *bólna, volna.* Auk þessa kemur *lgs* og *ngs* fram í meginhluta nokkurra nafna, t. a. m.: *fylgsni, tengsli, þrengsli.* Eins skal og rita *hangsa,* af að *hanga.*

4) *lgz, rgz, ngz* á sjer að eins stað í sagnarbót þolbreytingar þeirra sagna, er *lg, rg,* eða *ng* kemur fram í nafnhætti áhrifsmyndar, og því skal rita t. a. m.: *fylgzt,* af *fylgja, fergzt,* af *fergja, tengzt,* af *tengja,* o. s. frv.

Þá skal og rita *hógt, lágt* og *bágt,* gjör. og þol. eint. í hvorugkyni af einkunnunum *hógur, lágur, bágur,* enda þótt það eptir framburðinum sje *hótt, látt, bátt.*

Þá er það enn aðgæzluvert, að *glt* hefur í framburði vorum optast sama hljóð og *lgt, gnt* sama hljóð og *ngt, gld* sama hljóð og *lgd, gnd* sama hljóð og *ngd,* og geta því hæglega tvö orð blandazt saman, sem sitt þýðir hvað, og af því risið illur misskilningur, svo sem t. a. m. ef ritað væri *hengdi* (sem er þál. tíð framsöguháttar af *hengja)* í staðinn fyrir *hegndi* (þál. tíð framsöguháttar af *hegna;* á þetta sjer stað í þál. tíð, sagnarbót og hluttekningarorðum liðins tíma nokkurra sagna, en nafnhátturinn sýnir, hvort rita skuli *g* fyrir eða eptir *l* eða *n,* með því þar er hljóðið skýrt; þannig skal því rita t. a. m.:

ygla, ygldi, yglt, ygldur;
hegla, hegldi, heglt, hegldur, þekja hagli;
tegla, tegldi, teglt, tegldur;
sigla, sigldi, siglt, sigldur (hásigldur; lítilsigldur);
stegla, stegldi, steglt, stegldur;
negla, negldi, neglt, negldur;
fygla, fygldi, fyglt (af fugl; sbr. fyglingur);
egna, egndi, egnt, egndur;
gegna, gegndi, gegnt;
hegna, hegndi, hegnt, hegndur (óhegndur);
signa, signdi, signt, signdur;
skyggna, skyggndi, skyggnt, skyggndur;
lygna, lygndi, lygnt;
rigna, rigndi, rignt;

en ylgja, ylgdi, ylgt, ylgdur;
telgja, telgdi, telgt, telgdur (sem í raun rjettri er sama orðið og tegla);
svelgja, svegldi, svelgt, svelgdur;
belgja, belgdi, belgt, belgdur;
fylgja, fylgdi, fylgt;
velgja, velgdi, velgt, velgdur (líka: mig velgir við);
engja, engdi, engt, engdur;
yngja, yngdi, yngt, yngdur;
kyngja, kyngdi, kyngt, kyngdur;
hengja, hengdi, hengt, hengdur;
hringja, hringdi, hringt;
tengja, tengdi, tengt, tengdur;
tyngdur, í illtyngdur, tvítyngdur, af tunga;
dyngja, dyngdi, dyngt;
þyngja, þyngdi, þyngt, þyngdur;
þrengja, þrengdi, þrengt, þrengdur;
strengja, strengdi, strengt, strengdur (heitstrengja);
slengja, slengdi, slengt (fornt slyngja og slöngva);
sprengja, sprengdi, sprengt, sprengdur;
svengja, svengdi, svengt;
lengja, lengdi, lengt, lengdur;
rengja, rengdi, regnt, regndur.

Eptir nöfnum, þar sem *g* sje á undan *ld* eða *nd*, man jeg eigi öðrum en *högld*, og *gegnd* (= hóf), af *gegna;* en aptur á móti *gengd*, af *ganga*, t. a. m. *fiskigengd;* í öðrum nöfnum, þar sem þessir þrír stafir standa saman, mun *g* standa á eptir *l* og *n*, t. a. m. *fylgd, svengd, lengd*, o. s. frv.

Ekkert er það orð í íslenzku, að *v* fari á eptir einu *g*, ef hljóðstafur fer á undan því, heldur að eins á eptir *gg*, eða *g*, ef samhljóðandi fer næst á undan, og er þá hljóðið ávallt skýrt, t. a. m.: *höggva, snöggvast*, o. s. frv.

Í enda orðs eða atkvæðis hefur *g* því nær ávallt skýrt hljóð á eptir samhljóðanda, t. a. m. *kólga, fylgi, hang, töng*, nema í orðinu *dorgdingull*, er sagt er *dordingull;* en ef hljóðstafur fer á undan *g*, en *j* eða *i* á eptir, þá verður hljóð þess óskýrt, eða hverfur með öllu í framburðinum, og má því alls eigi hlíta framburðinum, þegar svo á stendur; því að *g* skal rita, þótt eigi heyrist á undan *j* eða *i*, ef það annars er í stofni orðsins, og verður að gæta að þeim myndum þess konar orða, þar sem annaðhvort annar stafur kemur í staðinn fyrir *j* eða *i*, eða þessir stafir falla burt, og *g* því stendur síðast í orðinu, og rita *g*, ef það kemur fram í þeim myndum þessara orða. En *g* verður óskýrt, og skal þó rita það:

1) í gjör. eint. þeirra karlkyns-nafna, er *g* kemur fram í þeim föllum, er *a* eða *u* fer á eptir; þannig t. a. m.: *hagi, haga; bagi, baga; bogi, boga;*

2) í þiggj. eint. karlkynsnafna, þar sem *g* heyrist í hinum föllunum; þannig t. a. m. *degi*, af *dagur, tugi*, af *tugur, vegi*, af *vegur;*

3) í þiggj. eint. ýmissa hvorugkynsnafna, ef gjör. eint. endar á *g;* þannig t. a. m.: *lagi*, af *lag, togi*, af *tog;*

4) í gjör., þol. og þiggj. eint. af *lygi*, og sjest það af *lygar*, gjör. fleirtölunnar;

5) í öllum einkunnum og hluttekningarorðum liðins tíma upp á *inn*, þar sem *g* verður heyranlegt í hinum samandregnu myndum, og eins í öllum einkunnum, þegar greinirinn er með, hvort heldur hann er settur fyrir framan einkunnina, eða skeyttur aptan við nafnið, sem einkunninni fylgir, ef *g* kemur fram, þegar *a* eða *u* fer á eptir, eða þá í hinum óákveðnu myndum þeirra; þannig

t. a. m.: *loginn, login, logið;* sbr. *logna; boginn, bogin, bogið;* sbr. *bognum,* o. s. frv.; *hinn hagi maður,* af *hagur; hinn seigi,* af *seigur; ragi maðurinn,* af *ragur.*

6) Alstaðar skal og rita *g* í þeim sögnum, þar sem *g* er heyranlegt í þeim myndum þeirra, þegar annaðhvort samhljóðandi fer á eptir, eða ekki neitt, og má þá víða leita þál. tíðar eða sagnarbótar, og stundum nafnháttar; þannig skal því rita: *eygja, eygi; þegja, þegi; segja, segi; bægja, bægi; smjúga; fljúga;* því að þál. tíðin: *eygði, þagði, sagði, bægði, smaug, flaug,* sýnir, að *g* heyrir meginhlutanum til; eins skal og rita: *lægi, lægjum; þægi, þægjum; drægi, drægjum,* o. s. frv., þál. tíð samtengingarháttar, sem mynduð er af *lágum, þágum, drógum;* en enda þótt *g* sje einnig í þeim myndum lítt heyranlegt, eða óheyrilegt, þá sýnir þó *liggja, þiggja, draga,* að *g* heyrir meginhlutanum til.

7) Enn fremur skal *g* rita í hluttekningarorðum lið. tíma og sagnarbót þeirra sagna, er *g* skal í rita í fleirt. þál. tíðar framsöguháttar; þannig t. a. m. *hleginn, hlegið; dreginn, dregið; fregið* (fornt, af *fregna),* o. s. frv.; sjá þau orð síðar í þessari grein.

8) Í þeim orðum, er nú skulu greind, skal ávallt *g* rita í öllum myndum þeirrra, enda þótt *g* heyrist eigi í þeim, eða að minnsta kosti verði óskýrt eptir framburði vorum; og enda þótt í sumum myndum nokkurra þeirra verði *g* heyrilegt, þykir þó betra að telja þau hjer:

*eigi;*<br>
að *óga, ógar* (= óa, óir)*;*<br>
*ógi* (Fms. VIII, 106);<br>
*ógurlegur;*<br>
að *kúga;*<br>
*kúgun;*<br>
*klígja;*<br>
að *klígja;*<br>
*gægjur;*<br>
*gnógur = nógur (nógsamlegur, nógleikur);*<br>
*Háleygir,* íbúar Hálogalands í Noregi;<br>
*hógur (hógvær, hógværð);*

*hrúga;*
að *hrúga;*
*hrúgald;*
*hneiging;*
*hneigjanlegur;*
*heilagfiski;*
*tág* á viði; en *tá* á fœti;
*deig;*
*deigja;*
*degi* í *hádegi, miðdegi, árdegis;*
*dregill,* fleirt. *dreglar;*
*dróg,* 1) hryssa; 2) byrði (*draupnis dróg*); 3) belti, Rímb. 478:
*zodiacus heitir dróg á himni.*
*drjúgur;*
*þága;*
*þegi* í *farþegi;*
að *þrúga;*
*þrúgun;*
*þvegill;*
*seigildi;*
*seigja* (af *seigur*);
*segjanlegur;*
*sóleyg;*
*súgur;*
*skógur, skóg;* en *skó* af *skór;*
*streigingur;*
að *streigja;*
*strjúgur,* eða *strúgur;*
*slóg* í fiski; en *sló* í horni;
*snága,* snaghyrnd öxi:
*spegill,* fleirt. *speglar;*
*sveigja* (af *svig*); en *sveia* (af *svei*);
*sveigjanlegur;*
*smjúgur,* gangur;
*laginn;*

*lág*, 1) dæld; 2) trje; en *lá*, sjór;
*lágur;*
*lægja; álægja, staflægjur;*
*lægi* í *aflægi;*
*læging;*
að *lóga*, farga; en *lóa*, skola;
*lóg*, förgun; en *ló* er á fati, og *lóa* er fugl;
*lógun;*
*regi*, hræðsla;
*regin*, goð; *reginhaf, regindjúp;*
*róg* og *rógur;*
*rúg* og *rúgur;*
*reiginn;*
*reigingur;*
*plága;*
að *plága;*
*plógur;*
*bágur* (eink.)
*bágur*[1] (í *brjóta bág* við einhvern; *ríða í bága);*
*bágindi;*
*bjúga;*
*bjúgur; íbjúgur;*
*bógur;*
*bljúgur;*
*fága;*
að *fága;*
*fágulegur* í *ófágulegur;*
*vegi* í *öndvegi, hálfvegis, smávegis;*

---

[1]) *Í orðabók B. Halldórssonar stendur* bági; *en jeg ímynda mjer, að sú mynd sje eigi rjett, með því jeg eigi man eptir neinni þeirri mynd, sem sýnir, að gjör. sje* bági, *en allar þær myndir í eint. af þessu orði, sem finnast í fornum bókum, eru af gjör.* bágur, *t. a. m.* brauztu bág, *Fms. V. 84;* Knútr rèð bág at brjóta, *Fms. IX, 391;* fór í bág með þeim, *B. Hít. 28. og verður þá* bága (*í* ríða í bága) *þol. fleirt.*

*vægi* í *ljettvægi*;

*vægilega*;

*væging*;

*vígi*;

*megin* [= *megn*]; *báðu megin*;

*meginn*, megnugur, í *vanmeginn* (Fms. I, 305);

Auk þessara orða eru ýms með *æ*, *y*, *ý*, *ey*, er *g* skal rita í, þótt það eigi heyrist, og má þau finna hjer að framan, þar sem talað er um þessa stafi (10., 12., 14., 16. gr.).

Eptir rithætti fornmanna virðist ein undantekning eiga sjer stað frá hinni almennu reglu, þeirri, að halda þar *g*, þótt hljóðlaust sje, þar sem það er í stofni orðsins, og er hún í eint. þál. tíðar sagna, ef *g* ætti að vera síðasti stafurinn, en verður óheyrilegt; t. a m. *hló*, *dró*, *þá*, *þó*, *sló*, *lá*, *vó*, enda hefur sú regla ávallt haldizt í voru máli, enda þótt hún kunni að virðast ósamkvæm öðrum reglum um hljóðlausa stafi.

Enn fremur hverfur *g* líka stundum með öllu í framburðinum í enda atkvæðis, þótt *a* eða *u* fari næst á eptir, ef breiður hljóðstafur fer á undan, og er því varhugavert, að sleppa eigi *g* úr í þess konar orðum, heldur skal rita *g*:

1) alstaðar í sögnum þeim, er hafa *jú* í meginhluta nafnháttar, ef *g* heyrist í núl. og þál. tíð framsöguháttar; þannig t. a. m.: *sjúga*, *sýg*, fleirt. *sjúgum*, *saug*, *sogið*; *fljúga*, *flýg*, fleirt. *fljúgum*, *flaug*, *flogið*;

2) í fleirt. þál. tíð. af *hlæja*, *draga*, *þiggja*, *þvo*, *slá*, *liggja*, *flá*, *fregna*, *vega* (*hlógum*, *drógum*, *þágum*, *þógum*, *slógum*, *lágum*, *flógum*, *frágum* (fornt), *ógum* eða *vógum*, og ef til vill fleirum orðum.

Þá ber þess enn að geta, að *g* skal rita, þótt eigi heyrist í framburðinum, í ýmsum hlutteknigarorðum, og eru það hluttekningarorð þeirra sagna, er þegar voru taldar að *g* skuli í rita í fleirt. þál. tíðar; þannig t. a. m.: *hleginn*, *dreginn*, *þeginn*, *þveginn*, *leginn*, *veginn*, o. s. frv.

Öldungis þessu gagnstætt, er nú hefur verið talið um hríð, bæta menn ranglega inn *g*, er eigi skyldi, í afleiddum orðum, og

skal því að eins *g* rita, að frumorðið hafi *g* í stofni sínum; þannig skal því rita: *iðulegur, kostulegur, gjörvulegur, gjörvuleikur, höndulegur, hörmulegur, háðulegur, tigulegur, skörulegur, sköruleikur, ríkulegur, reiðulegur, reisulegur, björgulegur, virðulegur, innvirðulegur, virðuleikur, heimulegur, heimuleiki,* eða fremur *heimullegur, heimulleiki.*

Nú hefur verið talað um stund um, hvar rita skuli *g;* en þó er enn eitt atriði, sem eigi hefur verið um hirt til þessa, þótt þess sje full nauðsyn og auðsætt hverjum einum, og það er, að eins og *d* er tvenns konar, hart og lint (*d* og *ð*), eins er *g* tvenns konar, hart og lint, og eins og hið harða dje (*d*) er táknað öðruvísi en hið lina (*ð*), eins er full ástæða til, að tákna hið harða *g* öðruvísi en hið lina. Þetta er í sannleika eigi neinn hugarburður úr mjer; því að auk þess, að mönnum hefur verið sýnt fram á þetta í Fjölni, 2. ári, bls. 15.—16., og 19.—20., þá hafa og fornmenn sjálfir þráfaldlega að greint hart og lint *g,* og ritað *gh,* þar sem *g* hefur verið lint í framburði þeirra, og eigi að eins, þar sem það nú er lint, á sama hátt og þeir rituðu *ð,* þar sem vjer nú bæði nefnum og ritum *d,* eða jafnvel *t* (sbr. Frump. 88—89), og skal hjer geta að eins fárra dæma, auk þeirra, sem í Frumpörtunum er um getið, upp á lint *g* í fornritum:

*dagh,* Fms. I, 67;
*landvegh,* sama bók, 133;
*vígh,* sama bók, 156;
*nálægh,* sama bók, 159;
*lögh,* sama bók, 175;
*vágh,* sama bók, 183;
*lygilegh,* Frump. XXIV;
*þeghar,* Frump. XXIV;
*seghir,* Frump. XXVI;
*seghja,* Fms. I, 177;
*víght,* Fms. I, 175;
*ábyrghð,* Frump. XXII;
*drottningh,* Fms. I, 99, og víðar;
*penningha,* Fms. I, 256, o. s. frv.,

og mætti þá til enn frekari skýringar geta þess, að eins og þeir tákna hið lina *g* með *gh,* eins tákna þeir og opt *ð* og *t* með *th,* t. a. m. *hèruth,* Fms. I, 99; *husith, mikith,* G. Súrs. 22; *vorith,* í sömu bók, 54, o. s. frv. Enginn getur þá móti því borið, að *g* er á sumum stöðum linara en á sumum, og að fornmenn einatt hafa táknað þetta lina *g* öðruvísi en hið harða, og því er vonandi, að menn eigi lengur loki augunum fyrir svo auðsæju atriði rjettritunarinnar í íslenzku; en hvernig skal þá tákna hið lina *g*? og hvar skal það hafa?

Það stendur reyndar á litlu, hvernig hið lina *g* er táknað, ef það að eins er greint með einhverju móti frá hinu harða, og sje jeg eigi aðra hœgari aðferð, eða sem minna vandhœfi sje á, en þá, sem höfð er í Fjölni, 2. ári, bls. 15, rita það *ġ*.

Lint *g* skal rita:

1) í enda atkvæðis, ef hljóðstafur, hver helzt sem er, fer næst á undan því, t. a. m. í *lag, leg, lög, lág, lig, log, lóg, lug, ljúg, lyg, lýg, laug, leyg, leig, leiga, leigi, leigum,* o. s. frv.;

2) þegar *j* fer næst á eptir í sama atkvæði, en hljóðstafur undan, t. a. m. *segja, leigja, smeygja,* o. s. frv.;

3) ef *r* fer á eptir, en hljóðstafur á undan, t. a. m. *ögra, fagra,* o. s. frv.

Þótt hljóðið virðist nokkuð ólíkt í hinu lina *g,* eptir því hvaða hljóðstafur á eptir fer, virðist þó eigi vert, að breyta til á fleiri vegu, en þessa tvo, er þegar var um getið, úr því eigi er ritað með öllu eptir framburði; enda eigi heldur þá; því að þar sem *i* eða *j* fer næst á eptir *g,* en hljóðstafur á undan, eða *g* er síðast í atkvæði, og breiður hljóðstafur fer á undan, þá verður *g* óheyrilegt, og því ætti heldur eigi þá að rita það.

Eigi getur mjer virzt, að rita eigi lint *g* annarstaðar, en þegar var getið, nema það skyldi vera á millum *n* og *l,* og *n* og *n,* t. a. m. *engli, hangnir,* o. s. frv., og þykir mjer þó eigi til þess ráðandi.

## 21. grein.

## Um j.

Þar er sá stafur, er eigi hefur átt upp á háborðið hjá Ís-

lendingum, einkum á hinum síðari tímum, með því menn hafa sleppt honum víða, þar sem þó framburðurinn er skýr, og enginn vafi getur á verið, að *j* skuli rita, eins og talað er. Og er það hin almenna reglan, er í þessu efni skal hafa, að rita þar ávallt *j*, er það er heyranlegt í tali manna, nema að eins á eptir *k* og *g*, er hinir linu hljóðstafirnir fara á eptir, eins og síðar skal grein fyrir gjörð. Nú verður því, ef til vill, svarað, að fornmenn eigi hafi ritað *j* á undan *e* og *i*; en þar er allt öðru máli um að gegna; því að þeir litu svo á, sem *j* væri hljóðstafur, eins og það í rauninni upphaflega er, enda höfðu þeir sömu mynd á báðum stöfunum, og rituðu *ı*, og opt *e*; má því til sönnunar telja, að fornmenn hafi talið *j* (sem nú er) hljóðstaf, fyrst það, að einsatkvæðisorð, sem nú eru með *j* og hljóðstafur fer á eptir, eru í skáldskap höfð tveggjaatkvæðaorð[1]; annað það, að *j* er þrásinnis í fornum skáldskap haft sem stuðull eða höfuðstafur við hljóðstafi[2]. Þá er það í þriðja lagi, að *j*, þar sem það er nú haft, veldur opt sama hljóðvarpinu og *i*, t. a. m. *hylja* af *hul*, *telja* af *tal*, *dylja* af *dul*, *velja* af *val*, o. s. frv. En með því fornmenn töldu *j* hljóðstaf, og fóru með það eins og hljóðstaf, þá leiddi af því, að þeir slepptu því á undan *i* og *e*, á sama hátt og þeir slepptu úr öðrum hljóðstöfum, einkum fyrir aptan breiða hljóðstafi, og sem vjer gjörum enn, t. a. m. *ám* f. *áum*, *knjám* f. *knjáum*, o. s. frv., og það því heldur, sem *i* (nú *j*) varð að hafa mjög óskýrt hljóð á undan öðrum hljóðstaf, og það með líku hljóði og af líkum uppruna (*e* og *i*). Síðan hefur *j* orðið skýrra í framburðinum, enda segir í staffræði þeirri, sem eignuð er Ólafi hvítaskáld, er dó 1259 (sjá Sn.-Ed. II, 72): *i ok u hafa því fleiri greinir, að þeir eru stundum samhljóðendur, sem í þessum nöfnum, i a r l, u i t r*", og finnast þess

[1]) *Sbr. Sn.-Ed. II, 26; Nj. 133:* minnigr Niál inni: *Nj. 146 og 156:* rennendr Niáls brennu.

[2]) *Þannig er t. a. m. í Háttatali Snorra* j *átta sinnum (í 39., 51., 54., 55., 65., 91., 93., 97. er.) höfuðstafur, þar sem hljóðstafir eru stuðlarnir, og átta sinnum stuðull (í 25., 27., 31., 55., 58., 78., 82., 99. er.), þar sem hinn stuðullinn og höfuðstafurinn eru hljóðstafir, og sömuleiðis má þess finna mýmörg dæmi í öðrum kvæðum.*

mýmörg dœmi, að fornmenn síðar hafa borið fram *j* á undan *e* og *i* eins og á undan öðrum hljóðstöfum, þó að líkindum óskýrra en nú, og tákna það þá helzt á undan *e*, stundum með broddi yfir *e* (t a m. *fé*), stundum með *e*, og það ýmist með broddi yfir ( t. a. m. *fée*,) eða broddlaust (t. a. m. *fee*), og stundum með *ı*; sjá Frump. 38—40; en á undan öðrum hljóðstöfum tákna þeir *j* optast með *ı*, og stundum með *e*; sbr. sömu bók, bls. 56—60. Og hver getur munurinn verið á *e* (=*j*) á undan *e*, og undan *a*? Verður *e* eigi að tákna sama hljóð, það er *j*? Á síðari öldum varð það miklu almennast, að rita *i*, þar sem *j* skyldi vera eptir framburðinum, á unðan *e* eða *i*, þangað til Rask heitinn leiddi það í venju, að rita ávallt *è* fyrir *je*; vildi hann með því sameina rithátt fornmanna og framburð vorn nú á dögum, og hafa margir fylgt þessari reglu hans; en þetta tel jeg fullan misskilning; því að *je* í meginhluta orða er annaðhvort fram komið af *i*, eða með öðrum orðum er klofningur úr *i*, öldungis eins og *ja* er klofningur úr *i*; þannig t. a. m. *mjer*, á gauzku *mis*, á þýzku *mir*; *sjer*, á gauzku *sis*, á þýzku *sich*; *fjekk*, á þýzku *fing*; *hjet*, á þýzku *hiesz*, öldungis eins og *skjöldur* (meginhlut. *skjald*), á gauzku *skildus*, á þýzku *Schild*; *fjöl* (í *fjöldi*), á gauzku *filu*, á þýzku *viel*; eða *je* er fram komið við víxlun á stöfum, t. a. m. *fje*, á gauzku *faihu*, á þýzku *Vieh*; *jörð* á gauzku *airþa*, á þýzku *Erde*; *hjekk*, á gauzku *haiha*, á þýzku *hing*; *stjarna*, á gauzku *stairno*, á þýzku *Stern*, o. s. frv. Og víða er það, að eigi þarf að fara út fyrir íslenzkuna sjálfa, til að finna uppruna joðs, t. a. m. *steig* verður að *stje*, *hneig* verður að *hnje*, *veik* verður að *vjek*, sem eigi er annað en stafavíxlun; en úr því að eins stendur á *j* á undan *e*, eins og á undan *a*, og úr því vjer berum það eins fram á báðum stöðunum, þá liggur það í augum uppi, að þá er engin orsök fremur til að rita *j* í klofningnum *ja*, heldur en í klofningnum *je*. Eða er það eigi auðsætt, að *j* eigi að rita eins á undan *e*, eins og á undan *a* eða *ö*, hvort sem heldur er litið á upprunann, iðulegan rithátt fornmanna, eða framburð vorn? Af þessu leiðir aptur, að aldrei verður öðruvísi á *è* litið, en að það sje band eða

skammstöfun, en nú tíðka menn eigi þess konar skammstafanir, að minnsta kosti eigi í bókum, og hví skyldi þá heldur skammstafa *je*, og rita *è*, heldur en *ja*, og rita þá *à*, *jö*, og rita *ȫ*, o. s. frv.?

Það er einkenni *joðs*, að hljóðstafur fer ávallt á eptir því, þó eigi ávallt í sömu samstöfu, og stendur því aldrei síðast í orði.

Í upphafi orðs getur það staðið á undan öllum hljóðstöfum; t. a. m. *jata*, *jötur*, *jeg*, *játa*, *jæja*, *jól*, *jú*, o. s. frv. En af rithætti fornmanna hefur sú venja risið, að sleppa, að minnsta kosti optar, *j* í upphafi orðs, og rita t. a. m. *eg*, *el*, *eta*, og þykir það eitthvað fallegra, en til þess er alls engin orsök, úr því menn segja: *jeg*, *jel*, *jeta*; því ef það er hafandi í tali, þá er það eins hafandi í riti. Þó má hafa: *eg*, *el*, *eta*, o. s. frv., ef svo stendur á í skáldskap, að rímið heimti þá mynd, en annars eigi, nema það þætti eitthvað hátignarlegra, t. a. m. í guðsorðabókum, við stöku orð. Eins skal og rita *j* á undan *y* í *jykum*, með því það er komið af *jukum*, og öðrum þeim orðum, er eins stendur á, að frummyndin hafi *j* í sjer. Að öðru leyti hefur *j* svo skýrt hljóð í upphafi orðs eða atkvæðis, að hver maður finnur það, hvar það skuli rita, er hann nefnir orðið.

Í miðju atkvæði skal og ávallt rita *j*, er það heyrist í framburðinum, enda hefur það og ávallt skýrt hljóð, er það stendur í miðju atkvæði, og samhljóðandi eða samhljóðendur fara á undan; þannig t. a. m.: *sjá*, *skjár*, *sljór*, og er þar auðheyrður mismunurinn og t. a. m. á *sá*, *skár*, *slór*, o. s. frv.

*j* stendur og opt í enda samstöfu, þótt eigi í enda orðs; hefur það þá enn skýrt atkvæði, ef samhljóðandi fer á undan, t. a. m. *víkja*, *vitja*, *vekja*, og er auðheyrður munurinn á þessum orðum og t. a. m. *vika*, *vita*, *vekurð*, enda skal og rita það, þar sem það er heyranlegt, þótt það eigi virðist heyra meginhlutanum til, en því sje skotið inn til hljóðfegurðar; þannig t. a. m.: *iljar*, af *il*, *netjum*, af *net*, *nesjum*, af *nes*, *merkjum*, af *merki* (en *mörkum*, af *mörk*), og verður að varast að rita t. a. m. *foringa* fyrir *foringja*, *höfðinga* fyrir *höfðingja*, *seta* og *sita* fyrir *setja* og *sitja*; verður það mörgum á, enda mun það mállýzka sumstaðar, að segja og rita *seta* og *sita*, en það er bögumæli. Sömuleiðis

skal og ávallt rita *j* á undan *i*, hver helzt samhljóðandi sem á undan fer, annar en *g* eða *k*, ef *j* annars er heyranlegt; t. a. m. *vilji, vitji*, o. s. frv. (en *víli* af *víl, viti* af *vit;* því að þar er ekkert *j* heyranlegt í framburði vorum). Ef *j* stendur á eptir *g*, en hljóðstafur á undan *g*, breytist hljóðið í *g* eða hverfur með öllu, en eigi má sleppa því *g*, þar sem það er í stofninum, og hefur um það talað verið við *g* (20. gr.); en eigi heldur skal sleppa *j;* því skal rita t. a. m.: *segja, þegja, vígja*, o. s. frv.

*k* og *g* hefur í sjer tvö hljóð, hart og lint; hið harða hljóð hafa þessir stafir, ef á eptir þeim fer *a, á, o, ó, u, ú*, eða *au*, og því er það, að sumir hafa nefnt þessa stafi *harða* hljóðstafi; en hið lina hljóðið hafa þeir, ef á eptir fer í sama atkvæði: *e, æ, œ, i, í, y, ý, ei*, eða *ey*, og hafa því þessir stafir verið nefndir hinir *linu* hljóðstafirnir. En með þessari aðgreiningu er það, að dœmi fornmanna, leitt í venju, að þegar hinir linu hljóðstafirnir fara á eptir *k* eða *g* í sama atkvæði, þá hafa þessir stafir í sjer fólgið *j*, eða eru bornir fram, eins og stæði *kj* eða *gj*, og því skal eigi rita *j* á eptir *k* eða *g*, ef einhver hinna linu hljóðstafanna fer á eptir í sama atkvæði, heldur skal rita t. a. m.: *gel, gær, girða, gín, gýs, gein, geyma*, o. s. frv., en eigi: *gjel, gjær, gjirða, gjín, gjýs, gjein, gjeyma*. Ef aptur á móti *k* eða *g* skal hafa lint hljóð á undan hinum hörðu hljóðstöfunum, verður *j* að rita, enda verður það þá og heyranlegt, eins og áður er sagt.

Athugasemd 1. *Þess skal þó getið, að* j *skal rita eptir* k *og* g, *þótt* e *fari á eptir, í gjör., þol. og þiggj. fleirtölunnar ýmissa karlkenndra nafna, er í gjör. eint. endast á* andi; *því að í sumum þeirra orða hafa* k *og* g *hið harða hljóð, en í sumum hið lina, og er því* j *nauðsynlegt sem hjálparstafur, ef* k *og* g *skulu hafa hið lina hljóðið, enda heyrir* j *þar meginhluta orðsins til; skal því* j *rita í þess konar orðum, er þau eru leidd af sögnum, er* j *verður heyranlegt í á undan* a *eða* u, *t. a. m. í nafnhætti, og því skal rita t. a. m.:* rekjendur, *af* rekjandi, hyggjendur, *af* hyggjandi, syngjendur, *af* syngjandi (*af* rekja, hyggja, syngja); *en aptur á móti:* rekendur, huggendur, gangendur, eigendur (*af* rekandi, huggandi, gangandi, eigandi, *af* reka, hugga, ganga, eiga). *Þessi orð eru reyndar eigi algeng í hinni núverandi tungu vorri, þótt þau vel gætu átt sjer stað, með því*

*mynda má nafn af hverri sögn, með því að bæta við* andi *við stofninn, enda hafa fornmenn þau allopt.*

Athugasemd 2. *Fornmenn ljetu* k *og* g *þar opt hafa lint hljóð, er vjer höfum hart, á undan hinum hörðu hljóðstöfunum, og rituðu því* j *á milli; t. a. m.:* sekjan *fyrir* sekan, ljarrlægju *f.* fjarrlægu, hægja *f.* hæga, *o. s. frv., og enda höfðu þeir* j *á eptir öðrum stöfum en* k *eða* g, *þar sem vjer nú eigi höfum það, t. a. m.:* brytja, *fyrir* bryta, *þol. eint. af* bryti, skytja, *af* skyti[1] (*= skotmaðr*), *en nú þykir eigi vert að hafa það fremur, er vjer eigi kveðum svo að.*

Þá skal og rita *j* ávallt í miðju orðs, hvert helzt sem er, þar sem á undan fer *æ, œ, ý, ey,* ef á eptir fer harður hljóðstafur (*a, u*), hvort sem þessi hinn eptirfarandi hljóðstafur heyrir beygingarendingu eða meginhluta orðsins; en með því hljóð þessa joðs er eigi með öllu ljóst, vilja sumir sleppa því með öllu, og segja, að þar ekkert *j* heyrist; en sje betur að gætt, þá verður *j* heyranlegt, enda er það samkvæmt rithætti fornmanna og eðli íslenzkunnar; því að það er aðal og einkenni tungu vorrar, að forðast, að tveir hljóðstafir standi saman, og því er hljóðstaf hleypt úr svo víða, og þó miklu optar til forna, en nú, eða *v* eða *j* skotið inn, enda kemur það að eins fyrir í þeim orðum, er hafa einhvern hljóðvarpsstaf (*æ, ý, œ, ey*) í meginhlutanum, og heyrir því *j* að nokkru leyti orðinu til, með því það er *j*, sem hljóðvarpinu veldur. Sem dœmi þessa skal hjer setja nokkur orð: (*hræ*) *hræja, hræjum; æja, æjum; blæja, blæju, blæjur;* (*bœr*) *bœjar, bœjum; dæjum* (þál. tíð samtengingarháttar af *deyja*)*; spýja, spýju;* (*nýr*) *nýjan, nýjar, nýjum; flýja, flýjum;* (*hey*) *heyja, heyjum; treyja, treyju;* (*mær*) *meyjar, meyjum,* o. s. frv. Ef orð, er meginhluti þess endar á *æ, œ, ý, ey,* er skeytt framan við annað orð, er hefst á hljóðstaf, þá skal þar eigi *j* á milli; þannig t. a. m.: *heyannir, heyönnum; nýár,* o. s. frv.

Athugas. *Í sumum þeim hvorugkynsnöfnum, er meginhlutinn endar á* æ, œ, ey, *höfðu fornmenn opt* v *á millum megin-*

[1]) j *mun í raun rjettri heyra meginhlutanum til í þessum orðum, og það valda hljóðvarpinu* (*af* brutum, skutum). *Sbr.:* Eigi veit hvar óskytja ör geigar, *Fms. VII, 262.*

*hlutans og endingarinnar, þar sem vjer nú höfum* j, *t. a. m.* hræva, *Eb. 19; sbr.* hrævadaun, hrævaeldur, hrævaljós; hrævakuldi, *Grág. 12.*

Í engum þeim myndum, er endingin byrjar á *i*, skal *j* rita; því að þá felst það í *i*, og er það enn samkvæmt rithætti fornmanna og upphaflegu eðli joðs, þar eð það er komið fram af *i*, og skal því rita t. a. m.: *bæi, skýi, fleyi, heyi, flýi,* o. s. frv.

Ýms eru þau orð, þar sem *j* upprunalega hefur heyrt meginhlutanum til; t. a. m.: *emj, grenj,* o. s. frv., enda skal það og rita, ef það heyrist, en þau orð eru orðin mjög fá, með því menn hafa sleppt þessu *j* aptan af, eða hafa önnur orð í þeim föllum, er enda skyldu á *j*.

## 22. grein.

## Um h.

Þessi stafur er eigi hafður nema í upphafi orðs, eða þá byrjun atkvæðis í samsettum orðum, þeim er síðari hlutinn byrjar á *h*, enda verður hann eigi heldur hafður annarstaðar eptir hljóði sínu og öllu eðli. Atkvæði þessa stafs er því ávallt skýrt og ljóst, nema ef *v* fer á eptir því, þá getur hljóð þess virzt vera sama og *k*, nema vel sje eptir tekið, enda gjöra sumir Íslendingar engan mun á *h* og *k* í framburði sínum, ef *v* fer á eptir; getur því auðveldlega svo farið, að *kv* sje ritað, þar sem *hv* á að rita, og *hv*, þar sem *kv* skyldi rita. Sökum þessa ber nauðsyn til, að gjöra glöggva grein fyrir, hvar *hv* skuli rita, en það er í þeim orðum, er nú skulu greind, og er þá sjálfsagt, að *hv* skal og rita í öllum þeim orðum, sem af þeim eru leidd, eða ef þau eru sett saman við önnur.

að *hvata;*

*hvati* (fornt), sá sem hraðar;

*hvatuður* (fornt), sá sem hraðar;

*hvatur;*

*hvatleikur;*

*hvatlegur;*

*hvatning,* upphvatning;

*hvað*, til forna *hvat;*
*hvaða;*
*hvaðan;*
*hvass;*
*hvasslegur;*
*hvalur;*
*hvar;*
*hvargi* (fornt), í hverjum stað;
*hvarf*, leiti;
að *hvarfa* (fornt), líkt og *hvarfla;*
að *hvarfla;*
að *hvarma* augum;
*hvarmur;*
*hvapp*, dæld? sbr *hvipp;*
að *hvappast* upp á einhvern; það *hvappaðist fram úr* honum;
*hvapplingur*[1];
*hvammur;*
*hvöt;* en *kvöð*, menn sem eru kvaddir til einhvers; þar liggur
sú *kvöð* á, o. s. frv.;
*hvötuður* (fornt) = *hvatuður;*
*hvörmóttur*, eyglóttur;
*hvönn;*
*hve*, hversu;
*hvekkur;*
að *hvekkja;*
*hvekkjóttur;*
að *hvetja;*
*hveður* (fornt), hrútur;
*hveðra* (fornt), tröllkonuheiti;
*hveðrungur* (fornt), tröll;
*Hveðn*, ey í Eyrarsundi; á dönsku *Hveen;*

---

[1]) *Björn Halldórsson segir, að þetta orð sje* = *drengur, sem nýfarinn sje að ganga, og leiðir það af sögninni* vappa; *en mundi það eigi vera sama orðið og* hvæplingur, *án hljóðvarps, og eiga að ritast* hváplingur?

*hveðna* (fornt), tröllkonuheiti;

*hveðnir* (fornt), óvíst fiskheiti; Sn. Ed. I, 578, II, 480, 564, 623;

að *hvessa;*

*hvessir,* sá sem gjörir biturt;

*hvel,* hjól, kúla;

*hvelja* á fiski; en *kvelja, kvaldi;*

*hveldur* (af hvel);

að *hvella,* hljóma;

*hvellur,* hljómmikill;

*hvellur,* hljómur;

*hvelpur* (= hvolpur);

að *hvelfa* (= hvolfa);

*hvelfing;*

*hver, hver, hvert;*

*hver,* heit uppspretta; en *kver* = lítil bók;

*hvergi;*

*hvert,* til hvers staðar;

*hversu;*

*hverna* (fornt), ker; en *kvern, kvörn,* sem korn er malað í;

*hvernig;*

að *hverfa, hvarf, horfið;*

að *hverfa, hverfði, hverft;*

*hverfa* í *rjetthverfa,* o. s. frv.;

*hverfi;*

*hverfilegur;*

*hverfingur* (optar *hvirfingur);*

*hverfull;*

*hverfur,* eink., t. a. m. skipið er *hverft;* honum varð *hverft* við;

*hvervetna;*

*hveptlingur,* orðhákur;

að *hveppsa*[1] (*að hveppsast upp* á einhvern);

*hveppsinn*[1];

*heppsni*[1];

að *hvá*;

að *hvása*, mása;

að *hvæsa*, blása af mœði; líka um höggorma, = *hvisle* á dönsku;

*hvæsing*;

að *hvæla*[2];

*hvælóttur*[2];

*hvæll*[2];

*hvæplingur* (fyrir *hvælpingur*, af *hválpur* = *hvelpur*);

*hvik* í *hviksögur* = lygasögur; en *kvik*, hreifing;

að *hvika*[3], hopa, hika; en *kvika*, hreifast;

*hvikan*, hik, hræðsla;

*hvikull*; en *kvikur*, lifandi;

*hviða*; *vindhviða*, *veikindahviða*; en *kviða*, drápa, af *kveða*;

*hviðuður* (fornt), hviða;

*hviðra* (= fiðra);

að *hviðra*, hreifast snöggt;

*hviðringur* (= fiðringur);

---

[1]) *Í orðabók Bjarnar Halldórssonar eru þessi orð rituð:* hveptsa, hveptsinn, hveptsni, *eins og þau væru leidd af* hvoptur; *en jeg held þau sjeu leidd af að* hvappast *upp á einhvern, og rita þau því þannig.*

[2]) *Þessi orð standa í orðabók Bjarnar Halldórssonar, og eru svo þýdd, að* hvæll *sje* = *hola, að* hvæla = *að hola, og* hvælóttur = *holóttur; en þó lítur svo út, sem þessi orð sjeu leidd af* hváll = hvoll = hóll, *og ættu þá að þýða:* hvæll = *hóll, að* hvæla = *gjöra hólóttan, og* hvælóttur = *hólóttur.*

[3]) *Fms. X, 383:* þa oþ cappinn at fram, . . . . oc hio til konungs, en konungrinn hvac undan litt þat, oc misti cappinn hans.

*Nj. 50:* Hvikit þer allir nema Skammkell.

*Nj. 93:* Þat varð Skarpheðni, . . . at stokk í sundr skoþvengr hans, ok dvaldiz hann eptir. Hví hvikar þer sva, Skarpheðinn? qvað Grímr.

*hviss;*
að *hvissa;*
*hvilft;*
*hvirfill;*
*hvirfingur,* hringur;
að *hvirfla;*
*Hvin,* ey í Noregi;
*hvinur;*
*hvinn,* þjófur; en *kvinna,* kona;
*hvinnir* (fornt), úlfur;
*hvinnska;*
*hvinverskur,* sem er frá eyjunni Hvin;
*hvipp,* hopp; *hann er hvipp um hvapp;*
*hvippa* (fornt), lauslát kona;
*hvim,* snögg hreifing; *hvimeygur, hvimstyggur, hvimleiður;*
að *hvima,* bæra snöggt; *hvima augum;*
*hví,* hvers vegna;
*hvíta;*
*hvíti;*
*hvítingur;*
*hvítur;*
að *hvítna;*
*hvísl;*
að *hvísla;*
*hvíla;*
að *hvíla;*
*hvílíkur;*
*hvíld;*
að *hvína;* en *kveina;*
*hvívetna;*
*hvoll,* hóll (til forna *hváll);*
*hvolf* (að fornu *hválf);*
að *hvolfa* (að fornu fari *hválfa);*
*hvolpur* (til forna *hválpur);*
*hvor, hvor, hvort* (að fornu *hvárr, hvár, hvárt);*

*hvorki;*

*hvorugur* (að fornu fari *hvárrgi* og *hvárigr);*

*hvort* (spurningarorð, forðum *hvárt);*

*hvortveggja* (forðum *hvárrtveggi);*

*hvoptur* (að fornu fari *hváptur);*

*hvoma,* vjelindi;

að *hvoma;*

*hvomur;*

*hvums,* undrun;

*hvumsa, hvymsa;*

að *hvumsa,* gjöra undrunarfullan;

*hvymsa,* einhverjum verður *hvymsa* við;

*hveiti.*

Í nokkrum orðum er nú haft *h,* þar sem upphaflega hefur verið *k,* og á það sjer einkum stað fyrir framan *n;* þannig t. a. m. *hnappur* = *knappur, hnefi* = *knefi, hneppa* = *kneppa, hnöttur* = *knöttur, hnippi* = *knippi, hnífur* = *knífur, hnútur* = *knútur, hnýta* = *knýta, hnýti* = *knýti, hnúi* = *knúi, hnje* = *knje,* og eru þó stundum borin fram og rituð með *k;* sýnist bezt, að láta framburðinn ráða, enda rita *h,* en þó *k,* ef svo stendur á, að það þyki betur fara. Ávallt mun nú sagt *hneif* (= öngull) fyrir *kneif,* og virðist engin ástæða, eptir því sem málinu nú er komið, að rita það orð öðruvísi, en fram er borið. Enn segja menn og *hnár* fyrir *knár,* en þar virðist *k* enn fastara fyrir, og sjest það á orðum þeim, er af því eru leidd; því að miklu almennast mun sagt *knáleikur,* en eigi *hnáleikur, knálegur,* en eigi *hnálegur,* og sökum þess skal og rita *knár,* en eigi *hnár.*

Þá er enn, að sagt mun *hnjóskur* fyrir *fnjóskur,* og skal hver sjálfráður, að rita hvort sem hann vill; þó mun *Fnjóskadalur* almennara en *Hnjóskadalur.* Eins mun *fnykur* eldra og rjettara en *hnykur,* þótt þessi hin síðari myndin sje nú af mörgum við höfð í tali.

Sumir eru þeir, er sleppa *h* í upphafi greinisins og rita: *inn, in, ið,* o. s. frv., eða þó öllu heldur: *enn, en, eð,* o. s. frv., að dœmi formanna. Satt er það, að hin upphaflega mynd þessa orðs

í íslenzku mun að öllum líkindum vera *inn, in, ið,* og svo hefur hún síðar orðið *enn, en, eð,* með því fornmenn opt rita *e* í staðinn fyrir *i,* þó helzt í endingum orða, en *hinn, hin, hið* er þó svo gömul mynd, að eigi er vert, að breyta henni, og það því síður, sem nú er ávallt sagt *hinn,* o. s. frv., ef greinirinn annars er við hafður, sem reyndar hvergi nærri er almennt meðal Íslendinga, og skal því rita: *hinn, hin, hið; hinn, hina, hið;* o. s. frv.

Þá er og *h* sleppt framan af í mannsnafninu *Rafn,* en eigi í fuglsheitinu, enda mundi það þykja undarlegt nú á dögum, að kalla menn *Hrafn;* en þá virðist og að rita eigi *Rafnseyri, Rafnsfjörður,* o. s. frv., með því hvor þessara staða mun vera kenndur við mann, er Rafn hefur heitið, en eigi við krumma. Enn fremur segjum vjer nú ávallt *álfa (heimsálfa),* og er þar eigi vert að taka upp aptur hina upphaflegu mynd *hálfa* ( af *hálfur).*

Aptur á hinn bóginn má eigi sleppa *h* í upphafi atkvæðis í miðju samsettra orða, þar sem síðari hlutinn byrjar á *h,* enda þótt það heyrist eigi glöggt í daglegu tali í samsetta orðinu; þannig skal rita t. a. m.: *varðhald,* þótt í framburðinum heyrist að eins *varðald,* með því það er sett saman af *vörður* (stofninn *varð)* og *halda;* eins skal og rita *agnhald, handarhald, agnhnúi elskhugi, gaflhlað, bráðhendis, skapshöfn, skipshöfn, munnshöfn,* en nú er *munnsöfnuður* almennt haft, og mun sú mynd svo tilkomin, að menn hafa eigi skilið orðið *höfn* ( = það, sem haft er), og það því síður, sem *h* eigi hefur heyrzt í framburðinum. En rita skal *kafald, kerald, hafald, rekald, folald;* því að í raun rjettri mun *ald* vera hjer afleiðsluending, eða að minnsta kosti orðið það í myndun þessara orða, enda þótt fleirtölumyndin *(öld)* virðist benda til þess, að þau sjeu samskeytingar. Sömuleiðis er og *líkamur,* eða *líkami,* eins rjettilega ritað og *líkhamur,* eða *líkhami,* bæði að dœmi fornmanna, og eptir framburði vorum. Eins er *uppeldi* (af *ala upp)* að öllu eins rjett, eða öllu rjettara, en *uppheldi,* þótt sú mynd finnist og í fornum bókum.

Athugasemd. *Fornmenn rituðu þar opt* h *í byrjun orðs, sem vjer nú eigi höfum það, og ekkert í stað þess, t. a. m.:*

höfugur = öfugur, hjafn = jafn. *Aptur á hinn bóginn sleppa þeir og opt* h, *þar sem vjer höfum það nú, einkum fyrir framan* l, r, n, *í upphafi greinisins, og jafnvel í öðrum orðum; þannig t. a. m.:* lífð = hlífð, rafn = hrafn, ræddur = hræddur, noðsaum = hnoðsaum, inn = hinn, varðald = varðhald, varygð = varhygð. *Sjá Frump. 66—68.*

## 23. grein.
## Um t.

Sá stafur hefur víðast skýrt atkvæði, svo að víðast má um hann fara eptir framburðinum; þó eru það nokkur atriði, er nefna verður, og er þá fyrst aðgæzluvert um *t*, og sem framburðurinn einn er eigi einhlítur til leiðbeiningar, hvort rita skuli *tt*, eða að eins *t*, ef samhljóðandi fer á eptir, er heyrir sömu samstöfu til, og skal þá leita meginhlutans, og rita þar *tt*, þótt samhljóðandi fari á eptir, þar sem *tt* er í meginhlutanum, og á það sjer helzt stað:

1. á undan *k*, eptir því sem jeg man frekast, að eins í þeim föllunum af *máttugur*, er endingin byrjar á hljóðstaf, ef orðið annars er dregið saman, t. a. m. *máttkan, máttkir, máttkum,* o. s. frv., og í *vættki;*

2. á undan *s* í eig. eint. í karlkenndum nöfnum, er meginhluti þeirra hefur *tt*, og má það finna í hverju sem helzt hinna fallanna, ef svo er; t. a. m. *votts*, af *vottur* (en *vots*, af *votur*, eink.);

3. á undan *l* og *n* í nokkrum karlkenndum nöfnum, í þeim föllunum, er endingin byrjar á hljóðstaf, og orðin því dragast saman; þannig t. a. m. *möttli, möttla, möttlar, möttlum,* af *möttull; drottni, drottna, drottnar, drottnum,* af *drottinn;*

4. á undan *l* og *n* í hinum samandregnu myndum, eða í þeim föllum, er endingin hefst á hljóðstaf, ýmissa einkunna, er enda á *inn* í gjör eint. í karlkyni, enda verður *tt* þar heyranlegt, t. a. m.: *glettnum,* af *glettinn;*

5. í nokkrum einstökum orðum, er allir þrír samhljóðendurnir ávallt fara saman, en greinast aldrei að, og eru þau leidd af öðrum orðum, er *tt* hafa í meginhluta sínum. Þannig skal rita:

*kettlingur;*

*kvittni (í illkvitini);*

*glettni;*
að *drottna;*
*drottning;*
*drottnun;*
*styttni;*
*pyttla;*
*pyttlingur.*

Þá er það enn, að sagnarbót þolbreytingar sagna skal enda á *tzt,* ef að eins *st* er heyranlegt í framburðinum, en sagnarbót áhrifsmyndar endar á *tt,* því að *z* táknar að eins *ts,* en eigi *tts;* þannig skal því rita: *prætzt,* af *præta, prætti, prætt; setzt,* af *setja, setti, sett; breytzt,* af *breyta, breytti, breytt,* o. s. frv.

Athugasemd 1. *Í þeim sagnarbótum, þar sem* ðst *er heyranlegt, skal rita* ðzt, *ef sagnarbót áhrifsmyndar endar á* tt (*fyrir* ðt), *og er það í þeim sögnum, er* ð *hafa í meginhluta nafnháttar, t. a. m.:* hræðzt, *af* hræða, hræddi, hrætt; reiðzt, *af* reiðast; bræðzt, *af* bræða, bræddi, brætt.

Athugasemd 2. *Aldrei skulu þrjú* t *standa saman í sömu samstöfu, enda þótt svo þyki eiga að vera eptir uppruna, t. a. m. ef stofn orðsins endar á* tt, *en endingin ætti að vera annaðhvort* t *að eins, eða* t *og hljóðstafur á eptir, samkvæmt beygingu annara orða, t. a. m. í hvorugkyni einkunna, er* tt *hafa í stofni sínum, en þá skal ávallt sleppt endingar-tjeinu, og því rita:* ljettur, ljett, ljett; þjettur, þjett, þjett, *o. s. frv. Hið sama verður og ofan á í þál. tíð og gjörsagnarbót allra þeirra sagna, þar sem* tt *er í stofni þeirra, og þál. tíð og gjörsagnarbót myndast með* ti *og* t; *þannig t. a. m.:* hitta, hitti, hitt; rjetta rjetti, rjett, *o. s. frv.*

Ef *s* fer bæði á undan *t* og eptir því, heyrist *t* eigi í hversdaglegum framburði; á það sjer einkum stað í eig. eint. þeirra nafna, er meginhluti þeirra endar á *t,* og má þá sjá það á gjör. og þol., hvort *t* skuli í vera; þannig skal því rita: *Krists, prests, frests,* af *Kristur, prestur, frestur* (en *fress* = köttur).

*t* er opt óheyranlegt í framburði vorum, ef s fer á undan, en *n* á eptir, og verður því að hafa gætur á, að fella eigi *t* úr í þess konar orðum, er þau eru leidd af öðrum, er *t* hafa í meginhluta sínum, og eigi heldur bæta þar inn *t,* er eigi skyldi eptir

uppruna; en mörgum er gjarnt á hvorttveggja; þess vegna skal rita, t. a. m.:

| | |
|---|---|
| *kostnaður;* | en *risna (gestrisni);* |
| að *kristna;* | að *gisna* (af *gisinn*), o. s. frv.; |
| *kristni;* | |
| að *fastna;* | |
| *freistni,* o. s. frv. | |

Á undan *l* aptur á móti og eptir *s* mun rjettast að rita hvergi *t*, enda þótt sumir kunni að rita svo, t. a. m.: *basl, basla; busl, busla.*

Verið getur að *t* stundum verði óheyranlegt í framburðinum á undan *s*, ef einn eða fleiri samhljóðendur fara á undan, en þá verður að gæta að, hvort *t* eigi kemur fram í neinni mynd þeirra, og verði það heyranlegt í öðrum myndum orðsins, þá skal og rita það í öllum myndum, þótt eigi heyrist; þannig skal t. a. m. rita: *felmts,* af *felmt* (= felmtur), *felmtsfullur.* Eins skal og rita: *játsa* (af *játa*), enda þótt í framburðinum heyrist *jássa.*

Þá hefur í framburðinum *t* breytzt í *f* á undan *f* í fyrirsetningunni *at* (= *að*, eptir núverandi atkvæði orðsins), þar sem nú er sagt *affangadagur,* og, að minnsta kosti stundum, *affaradagur,* í staðinn fyrir *aðfangadagur, aðfaradagur* (áður *atfangadagr,* og *atfaradagr*); og ber nauðsyn til, að gæta þess; því að *affaradagur* er líka til, en það þýðir síðasta dag t. a. m. jóla, en *aðfaradagur* táknar daginn fyrir jól.

Að öðru leyti hefur hin forna mynd fyrirsetningarinnar *at* breytzt í *að* á síðari tímum, og svo skal og rita. Eins skal því og rita *að* í öllum samskeytingum, nema því að eins, að hljóðfegurð heimti að *at* sje; þannig t. a. m.: *aðfarir, aðgjörðir,* o. s. frv., en *athöfn, athugi, atrenna,* o. s. frv., enda er *at* þar orðið fast og framburðurinn skýr.

Um *ettir* = eptir, og *attur* = aptur sjá 32. gr.

Sumir rita *atkeri,* en það er eigi rjett, heldur skal ritað *akkeri;* því að orðið er eigi samsett með *at* (= að), heldur er fyrra *k* orðið úr *n* fyrir tillíkingu (sbr. á dönsku og þýzku *Anker;*

á ensku *anchor:* á engilsaxnesku *ancer, ancr, ancra;* á latínu *ancora).*

## 24. grein.

## Um d og ð.

Fornmenn gjörðu skýran mun á *d* og *ð* í ritḥætti sínum, eins og þeir og hafa gjört í framburði sínum, hvort kveðið var að *d* lint eða hart; lint *d* nefndu þeir *eð,* og rituðu *ð,* en hið harða nefndu þeir *dje,* og rituðu *ð* eða *d.* Síðar gjörðu Íslendingar engan mun á *ð* og *d* í rithætti sínum, þangað til Rask heitinn tók það upp aptur, og stuðlaði til, að það var tekið upp í bókum; og er nú svo komið, að *ð* er haft í öllum þeim bókum, sem prentaðar eru með latínuletri, en í þeim, sem prentaðar eru með gotnesku letri, sem svo er kallað, er þeirra enginn munur gjörður, heldur ávallt haft að eins ð, eins og optast nær eigi heldur í skript, eins og þar beri minni nauðsyn til að rita rjett. En enda þótt að gjörður sje munur á *d* og *ð* í framburðinum, ber þó nauðsyn til, að hafa fastar reglur, til að fara eptir í riti, og allra helzt enn þá, meðan börnum er eigi almennt kennt að gjöra mun á *d* og *ð,* en þau eru látin nefna báða stafina *dje.*

1. *d* skal rita í upphafi orða, en aldrei *ð;* þannig t. a. m.: *dalur, dómur, dyr.* Í miðju orði skal og rita *d,* enda þótt hljóðstafur fari á undan, ef það er í upphafi atkvæðis, en það á sjer að eins stað í samskeytingum eða samsettum orðum, t. a. m.: *hádegi, harð-drægur, vor-dagur,* o. s. frv.

2. *d* skal og rita eptir öllum öðrum samhljóðendum, en *g, r* og *f,* það er: á eptir *l, n, m,* og *b,* en *b* getur því að eins átt sjer stað á undan *d,* að *m* fari á undan, og er þó óheyranlegt; þannig t. a. m.: *vald, vandi, skemmdir, kembdi, kembdur,* og eins skal og rita *d* á eptir *l, n* og *m,* enda þótt *g, r,* eða *f* fari á undan, t. a. m.: *sigldi, hegndi, hyrndur.*

3. *d* skal og rita á eptir *g, r,* og *f,* ef einhver annar samhljóðandi fer þar á undan, þ. e. *l* eða *n,* eins og síðar mun sagt; þannig t. a. m.: *telgdi, hengdi,* o. s. frv.

4. Þá skal og rita *dd,* en aldrei *ðd,* og því síður *ðð,* ef

tákna skal tvöfalt djehljóð í enda á samstöfu, en það á sjer að eins stað á eptir hljóðstaf; þannig skal því ávallt rita: *hræddur, saddur, mæddur,* enda þótt þessi orð sjeu leidd af *hræða, seðja, mæða,* o. s. frv.

Á hinn bóginn skal rita:

1. *ð* ávallt í miðju og enda samstöfu á eptir öllum hljóðstöfum, hver helzt sem er, t. a. m.: *faðir, gleður, föður, liður, smíð, móðir, fæða, syðri, auður,* o. s. frv. Þess ber vel að gæta, að rita *d,* en aldrei *ð,* í byrjun samstöfu, þótt í miðju orði sje, og þótt hljóðstafur fari á undan, eins og áður er sagt.

2. Ávallt skal rita *ð* á eptir eintómt *g, r,* og *f,* og eins þótt einir tveir þessara stafa fari á undan, þ. e. *gg, rr, rg, rf;* þannig t. a. m.: *mægðir, hörð, hefð, byggð, kyrrð, bergði, mergð, hverfði,* en *ff* á sjer alls engan stað í íslenzku á undan *ð.* En fari aptur á móti *l* eða *n* á undan *g, r,* eða *f,* skal ávallt rita *d,* en eigi *ð,* og á það sjer stað í þál. tíð og hlutekningarorðum liðins tíma ýmissa sagna, og í ýmsum nöfnum; þannig t. a. m.: *hvelfdi, hvelfdur; fylgdi; telgdi, telgdur; hengdi; hengdur; fylgd; tengdir,* o. s. frv., og því heldur skal rita *d,* ef linstafurinn *(l, n)* stendur síðar, t. a. m. *tefldi, hegndi,* o. s. frv. Orsökin til þess, að rita skal *d* í þessum orðum, er sú, að *l* og *n* ber *g* ofurliða, svo að miklu minna ber á *g* en ella, og við það kemur fram hart dje á eptir í framburðinum.

Athugasemd. *Svo virðist að minnsta kosti, sem fornmenn hafi ætlazt til, að rita skyldi ávallt* ð *á eptir* g, r, *eða* f, *hver helzt stafur sem á undan færi, og rita því* fylgði, hengði, *o. s. frv., enda rita þeir og opt* ð, *og jafnvel* þ, *á eptir öðrum samhljóðendum, þar sem hljóðið nú að minnsta kosti er* d, *t. a. m. á eptir* l, n, *og* m, *t. a. m.* vilð, vonð, vansemð, *hvort sem það heldur kemur af því, að ritháttur inn hefur eigi verið búinn að ná neinni festu í þessu efni, eða þá að hljóðið hefur í eyrum þeirra verið linara, en það er nú; en nú er alls engin orsök til, að rita svo, með því nú er hljóðið fullskýrt. Opt rita þeir og* D *og* ð *í byrjun orða fyrir* Þ *og* þ, *þó helzt í fornöfnum og í byrjun setningar, og mun sá ritháttur þó hafa verið enn tamari Norðmönnum en Íslendingum; þannig t. a. m.:* Ðessi *fyrir* Þessi, ðína *fyrir* þína, *o. s. frv. Sbr. Frump. 97—98.*

Þá ber hjer þess enn að geta um *ð*, að fari *t* næst á eptir, svo að báðir stafirnir heyri sömu samstöfu til, en hljóðstafur á undan, tillíkist það (ð) *t*, eða *ð* breytist í *t*, og má því aldrei rita *ðt*, heldur *tt*; er það bæði samkvæmt rithætti fornmanna og eðli málsins; því að aldrei heyrist *ðt* í framburði, enda ljeti það miklu ver í eyrum, og væri því eigi allskostar rjett, að rita þá samstöfun, sem aldrei heyrist, og það því síður sem *ð* og *t* eru skyldir stafir, með því þeir eru báðir dumbir tannstafir, og hljóðið að nokkru líkt. Þessi tillíking á *ð* við *t* á sjer stað:

1. í hvorugkyni allra þeirra einkunna, er meginhluti þeirra endar á *ð*; þannig t. a. m.: *bráður, bráð, brátt; staður, stöð, statt; fróður, fróð, frótt*;

2. í sagnarbót ýmissa þeirra sagna, er *ð* er í meginhluta þeirra (t. a. m. í nafnhætti); þannig t. a. m.: *hrætt,* af *hræða, grætt,* af *græða,* o. s. frv.

Athugasemd. *Hlutteknningarorð liðins tíma fylgja eigi að öllu leyti þessari reglu, þar sem í hvorugkyni þeirra eigi er bætt* t *við meginhluta hlutteknningarorðsins, heldur myndast hvorugkynið af meginhluta sagnarinnar með afleiðsluendingunni* að, ð *eða* t, *eins og karlkynið með* aður, ður *(og* iður), dur, tur, *og kvennkynið með* uð, ð, d *eða* t; *þannig t. a. m.:* vaknaður, vöknuð, vaknað; ljeður, ljeð, ljeð; sagður, sögð, sagt; kenndur, kennd, kennt; mæltur, mælt, mælt.

Á sömu leið fer um *dd* í hvorugkyni einkunna, að það tillíkist eptirfarandi *t*, eða breytist í *t*, svo að hvorugkynið hefur *tt* að niðurlagi, en aldrei *ddt*, eða *dt*, og virðist sá ritháttur með öllu rangur, enda þótt Rask heitinn kenni þá reglu, og ýmsir hafi tekið hana upp eptir honum; því að það er ekki einungis, að það hljóð heyrist eigi í framburði Íslendinga, heldur verður með engu móti látið heyrast. Og hví skyldi rita þá samstöfun, er eigi verður gjörð heyranleg? Enda er hið sama að segja um *dd* fyrir framan *t* í sömu samstöfu, eins og sagt var um *ðt*, að bæði er í beztu fornritum vorum ávallt ritað *tt* fyrir *ddt*, eða *dt*, og stafirnir náskyldir, og því mjög eiginlegt, þótt *d* tillíkist eptirfarandi *t*. Þannig skal því ávallt rita *statt,* af *staddur, satt,* af *saddur, ytt,* af *yddur, hrætt,* af *hræddur,* o. s. frv.

Þá er enn um *d* og *ð*, að þessir stafir falla ávallt í burtu á undan *t*, ef samhljóðandi fer á undan þeim. Er það enn samkvæmt rithætti fornmanna, og önnur ástæðan er sú, og sú er einhlít, að vjer Íslendingar alls eigi getum látið *d* eða *ð* heyrast fyrir aptan annan samhljóðanda, en undan *t;* t. a. m. í hvorugkyninu af *vondur* eða *harður* verður hljóðið aldrei annað en *nt* og *rt*, eða vjer segjum aldrei annað en *vont* og *hart*, en aldrei *vondt* eða *harðt*, og hjálpar eigi, að bera fyrir sig uppruna í því; því það getur alls eigi verið rjett, að hafa þær samstafanir, í hverri helzt tungu sem er, sem alls eigi verða gjörðar heyranlegar, þótt menn vildu, enda skýra ekkert upprunann, ef vel er að gætt. Á þetta sjer stað í hvorugkyni einkunna þeirra, er meginhluti þeirra endar á *rð, gð, fð, ld, nd, md,* hvaða hljóðstafur sem á undan fer, og þá enn heldur í hlutekningarorðum liðins tíma, samkvæmt því, sem þegar hefur verið um þau sagt; þannig t. a. m.: *hart*, af *harð-ur*, *sagt*, af *sagður*, *haft*, af *hafður*, *skelft*, af *skelfdur*, *vont*, af *vondur*, *flæmt*, af *flæmdur*, o. s. frv.

Samkvæmt þessum reglum, sem nú hafa verið greindar um stund, breytist *þ* í fornafninu *þú*, er það er skeytt aptan við sagnir. Sbr. *þ*.

Athugasemd. *Fornmenn höfðu* t *í endingum orða á eptir* a, i *og* u, *þar sem vjer nú höfum* ð *í framburði vorum, það er í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni greinisins og einkunna, 2. pers. fleirt. af sögnum, sagnarbótinni, gjör. og þol. eint. í hvorugkyni hlutekningarorða liðins tíma, og svo í fornöfnunum* vit, þit, hvat, þat, annat, nakkvat *(= nokkuð), og smáorðinu* at, *og stundum víðar, t. a. m.* met, vit *(fyrirsetningar), og enda höfðu þeir það stundum víðast í meginhluta orðs (sjá Frump. 90—92). En nú höfum vjer breytt þessu* t *í framburðinum í* ð, *og verður og svo að rita, með því líka að það er samkvæmt öðrum breytingum, þeim sem á málinu eru orðnar, að breyta hörðum dumba í linan* (t *er orðið að* ð, *eins og* k *er orðið að* g), *enda öllu fegra.*

Beygingarending 2. og 3. pers. í eint. núl. tíma í framsöguhætti sagna er í fornri íslenzku *r*, sem nú er víðast orðið að *ur*, nema því að eins, að stofninn annaðhvort endi á *r*, eða hljóðstafur fari á undan. Ef stofninn endar á *r*, ætti engri endingu

við að bæta, í líkingu við önnur orð, er meginhluti þeirra endar á *r;* því að þá er endingunni sleppt nú, ef hún var *r* að eins í eldri tungunni; en í þeim sögnum, er 1. pers. eint. endar á *r*, bætum vjer nú við í 2. persónu eint. núl. tíma *ð* í daglegu tali, og segjum nú t. a. m. *berð, ferð,* fyrir *ber, fer,* og virðist það reyndar í fljótu bragði í líkingu við nokkrar sagnir, er fornmenn ljetu optast enda á *t* í 2. pers. eint., og sem hafa haldið þeirri mynd, og eru þau t. a. m.: *jeg er, þú ert; jeg vil, þú vilt; jeg skal, þú skalt; jeg mun, þú munt; jeg kann, þú kannt; jeg á, þú átt* (*t* tvöfaldað); *jeg má, þú mátt* (*t* tvöfaldað). Í þessum orðum hefur *t* náð festu og helgi í tungunni, enda er beyging þeirra í núl. tíð allt önnur, en í *bera, berja, merja, spyrja,* o. s. frv., og væri því alls eigi rjett, að reyna til, að rýma þessu endingar-*t* burtu, enda þótt aðrar myndir upphaflegri, eða nær hinum upphaflegri, einnig finnist hjá fornmönnum, t. a. m. *vill* fyrir *vilr,* enda á þetta *t* í sumum þeirra sjer nokkra rót í upprunanum; þannig t. a. m. *mátt,* á gauzku *m a g t.* En sú regla er eigi hafandi, að bæta við *ð* í 2. persónu eint. núl. tíðar þeirra sagna, er meginhluti þeirra endar á *r;* því að hvorki finnst sú mynd í fornu tungunni, enda er eigi við tekið af neinum, að rita svo, og líka er það, að í líkingu við önnur orð í íslenzku skal engri endingu bæta við í 2. pers. eint. núl. tíma framsöguháttar, þegar meginhlutinn endar á *r*, og því skal rita: *þú ber, þú mer, þú spyr,* o. s. frv. Í þeim sögnum, er meginhlutinn endar á breiðan hljóðstaf í 1. pers. núl. tíma framsöguháttar, bætum vjer í 2. pers. eins *ð* við í framburði vorum, auk hinnar reglulegu endingar, svo að vjer segjum t. a. m.: *þú færð, þú flýrð, þú rærð,* o. s. frv.; en í þeim sögnum er því síður rjett að rita *ð*, sem *r*, sem á undan því fer, er hin rjetta ending, og *ð* ofaukið, eða endingin tvöföld, og því skal *ð* aldrei ritað í þessum sögnum, heldur skal ávallt rita ***þú fær, þú nær, þú flýr, þú rær,*** o. s. frv.

Opt er það, að *d* og *ð* eigi heyrist í framburðinum milli tveggja samhljóðanda, bæði í samsettum orðum og afleiddum, þótt það bæði geti heyrzt og það skuli rita, og verða menn þá vel að gæta upprunans, og rita þar *ð*, er uppruni er til, nema ef *t* fer

á eptir í sama atkvæði, eins og áður er sagt; þannig skal t. a. m. rita:

| | |
|---|---|
| *orðlof;* | *apaldgrár;* |
| *harðna;* | að *úldna;* |
| *stirðna;* | *handsal;* |
| *sporðdreki;* | að *handsama;* |
| *Norðlendingar;* | *holdgan;* |
| *Norðmenn.* | *holdtekja;* |
| | *hótfindni;* |
| | *sundl;* |
| | að *sundla;* |
| | að *bendla.* |

Eins er *hanki* fyrir *handki,* nema hvað *hanki* hefur náð fullri festu í tungunni, og þeirri myndinni mun því varla rýmandi burtu.

Aptur er það í öðrum orðum, að *d* hefur í framburðinum tillíkzt undanfarandi *n,* ef samhljóðandi fer á eptir, og þó helzt í samskeyttum orðum, þegar *d* er síðasti stafur fyrri hlutans, og í nokkrum afleiddum orðum. Reyndar er það satt, að *n* og *d* skiptast opt á í íslenzku á eptir *n,* t. a. m. í *jeg fann, vjer fundum,* og fornmenn hafa opt þá reglu, að tillíkja *d* við undanfarandi *n,* og svo sýnist, sem sú tillíking hafi náð töluverðri festu í tungunni; en allt fyrir það verður þó eigi öðruvísi á litið, en rjettast sje, að hafa eigi við þessa tillíkingu, þegar uppruninn er ljós, enda væri það eigi rjett, að rita eptir framburðinum í sumum orðum, en eigi sumum, er að öllu stendur eins á, enda þótt sumir gjöri svo. En úr því allir rita: *landnorður, landnyrðingur,* þá skal eins rita *mundlaug* (af *mund), handyrðir* (af *hönd), sundmagi* (af *sund);* því að *nd* hefur sama hljóð í öllum þessum orðum.

Hið eina orð, er gæti verið undantekning frá þessari reglu, er smáorðið *and* í sumum orðum; með því það hefur náð þar fullri festu, og þó skyldi gjalda varhuga við, að rita eigi *nn* fyrir *nd* yfir skör fram, eða þar, sem *d* á stundum heyrist, og því rita

*andorða;*
*andgeysla;*
*anddyri;*

*andþóf* (framb. *andóf*);
*andþveiti*;
*andsælis*;
*andskara*;
*andskoti*;
*andstyggilegur*;
*andstyggð*;
*andstreymi*;
*andspænis*;
*andsvar, andsvara*;
*andlit*;
*andróður*;
*andboð* (= mótboð);
*andfætis*;
*andfætingur*;
*andviðri*;
*andvígur*;
*andmál*;

og hin einu orð, er virðist mega rita *ann* (fyrir *and*), eru þá:
*annkanni*;
*annnes*;
*annmarki*;

ef þá eigi er eins rjett að sleppa *d* með öllu, og rita *anmarki, ankanni, annes.*

Nú eru aptur mörg orð sett saman með *and,* stofninum í *andi, að anda,* og er í þeim samskeytingum alls eigi leyfilegt að breyta eða sleppa *d,* þótt svo kunni að heyrast í sumra framburði, sem *d* sje úr fellt, og því skal rita t. a. m. *andlát, andvana, andrammur,* o. s. frv.

Aptur á hinn bóginn er sjálfsagt, að rita *ann* í þeim orðum, sem saman eru sett með *ann* (= *önn, annir*), og því rita: *annvirki, annboð* (vanalega nefnt *amboð*), *annfriður, annríki, annsemi,* o. s. frv.

Þá hefur *ð* tillíkzt eptirfarandi *l* í orðinu *frilla* = *friðla,* og eptirfarandi *k* í *fríkka* = *fríðka,* og sýnist sem *frilla* og *fríkka*

geti átt sjer stað, ef þessar myndir eru bornar saman við myndun annara orða í íslenzku, enda er þetta nú orðið almenn mállýzka. Þá segjum vjer enn í daglegu tali opt *brullaup* fyrir *brúðhlaup,* en fornmenn sögðu bæði *brúðhlaup* og *brúðkaup,* og er *brúðkaup* langtum viðkunnanlegra.

## 25. grein.

## Um Þ.

Eðli þessa stafs og hljóð lýsir því greinilegast sjálft, hvar hann skuli rita, það er, að hann getur eigi staðið nema í upphafi orða, eða þá í miðju orða í byrjun samstöfu, og þó að eins samsettra orða, þar sem síðari hluti samsetta orðsins er dreginn af því orði, er hefst á *þ,* t. a. m. *þyrnir, þorn, því, það, óþveginn, samþykki,* o. s. frv.

Í orðunum *Halldór* og *Steindór* hefur *þ* breytzt í *d,* og þykir rjettast að rita svo, þótt orðin sjeu mynduð, hið fyrra af *hallur* og *Þór,* og hið síðara af *steinn* og *Þór,* þótt fornmenn hafi ritað og sagt *Hallþór* og *Steinþór.* Það á sjer og víðar stað í málinu, að *þ* hefur breytzt í *t, d,* eða *ð,* t. a. m. í *þú,* er það er límt aptan við skipunarhátt sagna; því að bæði er sagt og ritað t. a. m. *mæltu, mældu, segðu, gefðu, farðu,* nema því að eins að menn herði á fornafninu *þú,* enda skal þá og rita það frálaust sögninni. En þar sem *þú* er límt saman við skipunarhátt sagna, breytist *þ* ávallt í *ð* á eptir öllum hljóðstöfum, og svo *g, r,* og *f* (sjá 24. gr.), eða þar sem meginhluti sagnarinnar endar á þessum stöfum. En hvar *þ* breytist í *d,* og hvar það breytist í *t,* verða engar reglur gefnar um, og verður því hljóðið að segja til í því efni, með því það yrði oflangt og óþarfi einn, að telja upp öll þess konar orð.

Að sumir rita *Th* fyrir *Þ* í upphafi mannanafna, er svo hlægileg fordild, að hún er óskiljanleg, nema að hún sýni eitthvert barnalegt skeytingarleysi um tunguna.

Í orðunum *andóf* og *andæfa* er *þ* horfið, og mun þó rjettast að halda *þ,* og rita *andþóf* og *andþæfa,* því að þessi orð eru að líkindum sett saman af *and* og *þóf, þæfa.*

Athugasemd. *Fornmenn rituðu opt* þ *í miðju orðs og enda samstöfu, eigi að eins fyrir* ð, *heldur og einnig fyrir* t *og* d; *t. a. m.:* glíkþi, *fyrir* glíkti = líkti; *en þess konar ritháttur þykir nú á dögum óhafandi; enda mun hann hafa risið af því, að framburðurinn hefur, ef til vill, verið nokkru öðruvísi hjá þeim, en hjá oss, í þess konar orðum.*

## 26. grein.

## Um s.

Um þennan staf þarf eigi mörgum orðum að eyða, með því atkvæði hans er ávallt skýrt, hvort hann heldur er í byrjun, miðju, eða enda atkvæðis, og hvaða stafir sem hjá honum standa, og framburðurinn sjálfur ber það með sjer, ef s skal rita. Eigi minnist jeg heldur þess, að *s* verði nokkurn tíma óheyranlegt, eða verði ofurliði borið af öðrum stöfum; þannig t. a. m. *sami, skal, sjálfur, stór, snúa, slá; möskvi, fólska, mennskur; salts, sals,* o. s. frv. Á hinn bóginn, heyrist þar sumstaðar *s,* er annan staf skal rita, einkum *r,* er *s* fer næst á eptir; sjá 29. gr. Hinn eini vafi, er á getur verið um *s,* er sá, hvort rita skuli *s* eða *z,* eða hvort heldur *s* að eins, eða *ss,* á undan *t.* Um *z* verður síðar talað, en *ss* undan *t* skal þá rita, er *ss* er í meginhluta orðsins: en það er:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni þeirra einkunna, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *ss;* þannig t. a. m.: *hvasst,* af *hvass,* ***hresst,*** af ***hress, klesst,*** af ***klesstur,*** o. s. frv.;

2. í þál. tíð, sagnarbót og hlutteknigarorðum lið. tíma þeirra sagna, er *ss* er heyranlegt í nafnhætti; þannig t. a. m.: *missti, misst, misstur,* af *missa; hressti, hresst, hresstur,* af *hressa,* o. s. frv.;

3. í orðinu *pysslingur,* sem myndað mun vera af *púss* = poki, pungur.

Nú mætti svo í fljótu bragði virðast, að í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna þeirra, er stofn þeirra endar á *ss,* skyldi rita þrjú ess *(sss):* en það skal eigi; því að aldrei skal þrefalda neinn samhljóðanda í íslenzkri tungu, eða sami samhljóðandinn standa þrisvar saman í sömu samstöfu. Annað mál er það, ef það er samsett orð, og síðari hluti samskeytingsins byrjar á sama staf, og tvöfaldur samhljóðandi stendur í enda fyrra hlutans, en þá standa þeir eigi heldur í sömu samstöfu.

Það er sjálfsagt, að rita skal *ss* í eig. eint. karlkyns og hvorugkyns nafna, er gjör. endar á *s;* þannig t. a. m.: *þyss,* af *þys, húss,* af *hús.*

Nú segja Íslendingar *dupt* eða *duft* (= *ryk),* og er það eigi rjett; heldur *dust* og *dustugur,* og má sjá það á sögninni *dusta* (= berja rykið úr). Og enda þótt *duft* finnist í Skuggsjá, *Christiania* 1848, bls. 137: *lèttu jarðardufti,* og á fáeinum öðrum stöðum, virðist eigi eptir því farandi.

Athugasemd. *Fornmenn höfðu víða* ss, *er vjer nú ritum* s *að eins, t. a. m.:* íss = ís *(gjör. eint.),* þyss = þys, *enda er hið síðara* s *fyrir gjöranda-endinguna* r, *eða* ur, *eptir því sem hún nú er orðin; en nú fellur sú ending burtu, ef meginhlutinn endar á* s, *og gildir hin sama regla um gjöranda-endinguna í þeim orðum, þar sem meginhlutinn endar á* s, *eins og í þeim orðum, er enda á* r. *Eins rituðu þeir* ss *(fyrir* sr) *í 2. og 3. pers. eint. þeirra sagna, er 1. pers. endar á* s, *þannig t. a. m.:* kýss *(fyrir* kýsr = kýs), *en eigi skal nú heldur* ss *rita í endingum þessara sagna, heldur en í gjör. nafna þeirra, er nú þegar voru greind. Fornmenn tvöfölduðu enda víðar* ss, *en ástæða var til, t. a. m. er þeir rituðu* búss *fyrir* bús, *því að stofninn er að eins* bú.

## 27. grein.

## Um z.

**z er borin fram eins og *s,* en er að eðli sínu og uppruna** samsettur stafur, og táknar *ts, ds,* eða *ðs.* Í þeim orðum, þar sem þessir stafir ættu að standa saman í sömu samstöfu, en kveðið er að, **eins og *s* stæði, skal því *z* rita. Það á sjer stað:**

**1. í 2. pers. fleirt. þolbreytingar sagna, í öllum tíðum;** t. a. m.: *þjer elskizt, þjer kennduzt, þjer látizt, þjer gæfuzt,* o. s. frv.;

2. í sagnarbót þolbreytingar sagna; þannig t. a. m.: *þjer hafið elskazt, þeir hafa kennzt, þær hafa fylgzt, þjer höfðuð látizt gjöra það,* o. s. frv.

Á báðum þessum stöðum endar áhrifsmyndin á *ð eða t (t í* hinni fornu tungunni), og við hana er bætt þolsagnarendingunni *st.* Eigi mega menn heldur láta það villa sig, þótt áhrifsmyndin sje eigi til; því að þolmyndin myndast og verður að myndast allt að einu á sama hátt, eins og hún væri til; sökum þess skal eigi

rita: *jeg hef öðlast, þeir hafa ferðast,* heldur: *jeg hef öðlazt, þeir hafa ferðazt,* enda þótt áhrifsmyndin sje eigi til af þessum sögnum.

Ef sagnarbót áhrifssagnar endar á *tt,* skal rita sagnarbót þolmyndar með *tzt,* eða *ðzt,* ef meginhluti sagnarinnar endar á *ð,* af því *z* táknar að eins *ts,* eða *ðs,* en eigi *tts,* og því skal rita t. a. m.: *setzt, rjetzt, greiðzt, beiðzt,* af *setja, sett; rjetta, rjett; greiða, greitt; beiða, beitt,* o. s. frv.

3. í þolmyndum sagna, er tilsvarandi myndir áhrifssagnar enda á *t,* eða *ur* (sem fellur burt í þolmyndum öllum), en meginhlutinn endar á *t*: þannig t. a. m.: *jeg læzt, ljezt, sezt, hjezt;* en *batzt,* af því 1. pers. þál. tíðar í áhrifsmynd er *batt,* t. a. m.: *hann batzt í því;*

4. í 2. pers. eint. þál. tíma þeirra sagna, er 1. pers. er eitt atkvæði og endar á *t;* þannig t. a. m.: *þú grjezt, þú hjezt, þú ljezt,* o. s. frv.; en endi 1. pers. á *tt,* þá verður að rita 2. pers. með *tzt;* þannig t. a. m.: *þú batzt, vatzt,* o. s. frv., af því 1. pers. er *batt, vatt.*

Þá skal og rita *veizt,* 2. pers. núl. tíðar af *vita,* með því 1. pers. er *jeg veit.*

Þar sem *ðs* verður heyranlegt, hvort heldur er í sagnarbót, eða öðrum myndum þolsagnar, eða 2. pers. þál. tíðar áhrifsmyndar, skal eigi rita *z,* heldur *ðs,* eins og atkvæði liggur að, ef sagnarbót áhrifsmyndar endar á *ð,* eða meginhlutinn á hljóðstaf, og þannig skal t. a. m. rita: *hann hefur náðst, hver getur dáðst að því,* o. s. frv.

Athugasemd. *2. pers. eint. þál. tíðar framsöguháttar í þeim orðum, er 1. pers. er eitt atkvæði endaði í hinni fornu íslenzku á* t, *t. a. m.* fórt, *og kynni því í fljótu bragði svo að virðast, sem hún ætti, nú að enda á* zt, *með því nú sje bætt við* st. *En þetta er eigi svo að skilja, að* st *sje bætt við fornu myndina, heldur mun* st *vera komið í staðinn fyrir hið forna* t, *eða því bætt við 1. persónu, og því skal eigi* z *rituð í þessari persónu, nema því að eins, að 1. persónan endi á* t, *heldur skal rita t. a. m.* þú fórst, þú gekkst, þú stóðst, *o. s. frv.*

5. *z* skal og rita í efsta stigi einkunna, er stofn þeirra, eða gjör. eint. í kvennkyni frumstigs, endar á *t,* ef ending efsta stigs er að eins

*stur* (í staðinn fyrir *astur*), en þess konar orð munu nú vera fá, er efsta stigið myndist þannig af, en sú myndun var alltíð í fornmáli, t. a. m. *ágæztr* (= ágætastur). Ef stofninn endar á *tt*, skal, eins og áður er sagt, efsta stig ritast með *tzt;* þannig t. a. m.: *stytztur* (af *stuttur*), *hætztur* (fornt, = hættastur). Sömuleiðis skal og rita *elztur, ëlzt; yztur, yzt; helztur, helzt; beztur, bezt,* með því þessi orð eru mynduð af miðstigsmyndunum: *eldri, ytri, heldri, betri;*

Athugasemd. *Fornmenn rituðu opt:* ellstur, ellst, *af miðstiginu* ellri.

6. Þá skal rita *z* í ýmsum afleiddum orðum, þegar meginhluti stofnorðsins endar á *t, d,* eða *ð,* en afleiðsluendingin byrjar á *s,* og *s* að eins heyrist í framburðinum. Þessi orð eru:

(*z* = *ts*)

*æzli* (af *æti*);

*ólizkra;*

*gæzla;*

*gizka* (= *getska*);

*gauzkur,* sem er frá Gautlandi;

*helvízkur;*

*hörzkur,* sem er frá Hörðalandi í Noregi;

*józkur,* sem er frá Jótlandi;

*þrjózka;*

að *þrjózkast;*

*þrjózkur;*

*skozkur;*

*spotzkur;*

að *narzla;*

*neyzla;*

*panzari;*

að *beizla;*

*beizli;*

*brezkur,* sem er frá Bretlandi;

að *flazka* (af *flatur*);

*veizla* (*varðveizla*);

*vizka;*

*vizkur* (Frump. 2).

(*z* = *ds*)

að *anza*;

*halzi*, sem heldur, Fms. X. 396);

*hanzki*;

*prœnzkur*, sem er frá Þrándheimi;

*venzl*;

*venzlaður*;

að *vinza*;

*vonzka*;

og svo í einkunnum þeim, sem leiddar eru af landi, t. a. m.:

*íslenzkur*;

*útlenzkur*;

*hollenzkur*;

*parlenzkur*, o. s. frv.;

Athugasemd. *Orðið* anza *er myndað af* and, *með afleiðslu-endingunni* sa, *og er því rjettast ritað svona, en ef menn fylgja því heldur, að* d *hafi tillíkzt* n (*sbr.* d), *þá skyldi rita* annsa, *sem þó er eigi eins rjett, og engu nær framburðinum.*

(*z* = *ðs*)

*girzka*[1], (fornt), = gríska (Sn.-Ed., II, 12);

*gerzkur* og *girzkur* (af *Garðar*; sem er frá Garðaríki; 2) grískur) t. a. m. Sn.-Ed. II, 12);

*gœzka*;

*græzka*;

*herzla* (*áherzla*);

*hirzla*;

*tízka*;

*þýzka*;

*Þýzkaland*;

*þýzkur*;

*lýzka* (*mállýzka*);

*lýzkaður*, svo eða svo að háttsemi;

---

[1]) *Sbr.* Girkir *og* Girkland, *Sn.-Ed. II, 409, fyrir* Grikkir *og* Grikkland. *Rjettara er* gríska, grískur.

*nízka;*

*nízkur;*

að *brigzla;*

*brigzli;*

*firzkur* (af *fjörður*), t. a. m. *skagfirzkur, breiðfirzkur,* o. s. frv.

*varzla (vörzlur);*

að *verzla;*

*verzlun.*

Athugasemd. *Að sumir rita orðin* brigzli *og* að brigzla *með* í *(sökum framburðarins), og enn aðrir með* x *(fyrir* gz), *er eigi rjett; því að þessi orð eru mynduð af sögninni* að bregða; *sbr.* að bregða e-m um e-ð.

En ef *ðs* heyrist í þess kyns orðum (*ts* og *ds* heyrist eigi), þá skal og rita *ðs,* en eigi *z;* þannig t. a. m. *græðsla, hleðsla, leiðsla,* o. s. frv., af því menn segja ekki *græsla, hlesla, leisla.*

Ef *s* er síðasti stafur orðsins, er það tekið sem regla, að draga það eigi saman við undanfarandi *t, d* eða *ð,* og á það sjer einkum stað í eig. eint. af karlkenndum nöfnum og hvorugkynsnöfnum, og sömuleiðis í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna, heldur rita *ts, ds, ðs,* enda þótt *s* að eins sje fram borið; þannig t. a. m.: *svarts, brands, lands, harðs.* Þau orð munu engin í íslenzku, að meginhluti þeirra endi á *ts, ds,* eða *ðs,* nema orðið *góss,* og mun það eigi finnast fyr en í síðari lögum Noregskonunga, og get jeg eigi sjeð neitt rangt í því að rita *góss* (*ð* tillíkt *s*). Sumir rita og *unz,* en það er víst eigi vert, heldur skal rita *uns;* því að uppruni þess er mjök óvís; reyndar rita fornmenn opt *unz, unds* (Fms. IV, 185), *unst* (Fms. V, 158).

Athugasemd. *Fornmenn höfðu miklu víðar* z, *en nú þykir rjett að hafa, og þar sem nú er skýrt kveðið að* ðs; *eins höfðu þeir og* z *í eig. eint. nafna og einkunna, og jafnvel ljetu þeir þolmyndir sagna enda á* z *fyrir* st (*upphaflega* sk). *Einnig rituðu þeir* z *fyrir* ss, *og jafnvel* s; *þannig rituðu þeir t. a. m.* kvezt(= *kveðst),* lanzins (= *landsins), að* eldaz (= *eldast),* bleza (= *blessa),* fullz (= *fulls),* sterkaztr (= *sterkastr). Sjá Frump. 69 - 70.*

## 28. grein.

## Um l.

Hljóð þessa stafs er ávallt skýrt, hvar sem hann stendur í atkvæði, hvort heldur í upphafi þess, miðju eða síðast, nema hvað *ll* síðast í atkvæði, ef hljóðstafur fer á undan, er borið fram eins og *dl,* eða fremur eins og *ddl,* en það hljóð skal ávallt rita *ll;* þannig t. a. m.: *kalla, hóll, fall, fell, fella,* o. s. frv.

Hið eina, er virðist aðgæzluvert um þennan staf, er það, hvort rita skuli *l* eða *ll* á undan samhljóðanda í sömu samstöfu, *d, t,* eða *s,* og skal enn hafa sömu reglu, að rita *ll* á undan þessum stöfum, ef meginhlutinn hefur *ll* í sjer, eða *ll* kemur fram í þeim myndum orðanna, er *d, t,* eða *s* eigi fer á eptir, og eins í þeim orðum, sem leidd eru af öðrum þeim orðum, er *ll* hafa í sjer. Því skal rita *ll* á undan *d:*

1. í þál. tíma og hluttekningarorðum lið. tíma þeirra sagna, er *ll* hafa í nafnhætti; þannig t. a. m.: *fella, felldi, felldur, felld; skella, skelldi, skelldur, skelld,* o. s. frv.;

2. í þeim orðum, sem leidd eru af öðrum þeim orðum, sem *ll* hafa í stofni sínum, og eru þessi hin helztu:

*snilld (málsnilld, orðsnilld);*
*fylldingur;*
að *fylldast;*
*balldinn;*
*felldur* (og öllum samskeytingum þess: *nærfelldur, samfelldur, skapfelldur, torfelldur, voðfelldur, sífelldur, geðfelldur, hagfelldur, kláðfelldur,* o. s. frv.);
*felldinn (smáfelldinn, stórfelldinn, viðfelldinn,* o. s. frv.).

Fyrir framan *t* á *ll* sjer stað:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, er í gjör. eint. í kvennk. enda á *ll;* þannig t. a. m.: *fullt,* af *full-ur, hollt,* af *holl-ur,* o. s. frv.; en *holt,* af *holur;*

2. í þál. tíma, gjörsagnarbót og hluttekningarorðum liðins tíma sagna þeirra, er *ll* hafa í nafnhætti, og mynda þessar tíðir með *ti, t, tur;* þannig t. a. m.: *fylla, fyllti, fyllt, fylltur; stilla, stillti, stillt, stillt-ur.* Og enn fremur í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni hluttekningar-

orða þeirra, þar sem karlkynið og kvennkynið hefur *d;* þannig t. a. m.: *skellt, fellt,* af *skelldur, felldur.* Sömuleiðis þá og af einkunnum, sem myndaðar eru af þess konar hluttekningarorðum, eins og t. a. m. *ráðvilltur, ráðstilltur, óspilltur,* o. s. frv.;

3. í þessum einstöku orðum:

*ávallt (of* og *allt);*

*böllti;*

*bölltungur;*

*bölltur.*

Athugasemd. *Fornmenn tvöfölduðu opt* l, *eða rituðu* ll, *þar sem þó eigi skyldi rita nema* l *að eins eptir uppruna.*

Á undan *s* skal *ll* rita:

1. í eig. eint. karlkynsorða, er meginhlutinn, eða þol. eint., endar á *ll,* enda verður *ll* heyranlegt í þeim orðum þegar í gjör. eint.; þannig t. a. m.: *dalls,* af *dallur, tolls,* af *tollur,* o. s. frv.;

2. í eig. eint. hvorugkynsorða, er gjör. eint. endar á *ll,* eins og t. a. m.: *fjalls,* af *fjall, kalls,* af *kall;*

3. í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna þeirra, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *ll;* þannig t. a. m.: *fulls,* af *fullur, holls,* af *holl-ur* (en *hols,* af *hol-ur*);

4. í þessum afleiðingum:

*illska;*

að *illskast;*

*tryllska;*

*kalls;*

að *kallsa.*

*ll* skal einnig rita á undan *z* í sagnarbót þolmyndar sagna þeirra, er *ll* hafa í nafnhætti áhrifsmyndar; þannig t. a. m.: *hellzt,* af *hella, fyllzt,* af *fylla, hrellzt,* af *hrella,* o. s. frv.

Nú bera menn opt *rl* fram eins og *ll,* en rjettast þykir þó að rita þar *rl,* er uppruni er til; en hvar *rl* skuli rita, sjá 29. gr.

Þá er sagt, *að fjatla um,* en það á að vera *að fjalla um;* sbr. *gullfjallaður*[1], *bláfjallaður*[2].

---

[1]) *Nj. 31:* Konungr gaf honum ... glófa gullfjallaða.

[2]) *Ísl. s. I, 161:* Úti heyri ek svan sveita .... bláfjallaðan gjalla.

## 29. grein.

### Um r.

Þessi stafur getur því að eins staðið fyrstur í orði eða atkvæði í íslenzku, að hljóðstafur eða *j* fari á eptir, enda er það þá ávallt skýrt; þannig t. a. m.: *raða, rög, reið, rauð, rjóða,* o. s. frv.

Skýrt atkvæði hefur *r* og í miðju atkvæði, ef hljóðstafur eða *j* fer á eptir, enda þótt samhljóðandi eða samhljóðendur fari á undan, t. a. m. *kró, grár, prjónn, frá, skrá, strákur.* Eins er og skýrt atkvæði þess á undan *k, g, t, ð, p, f, m,* og skal því ávallt rita, sem framburður kveður á, þegar svo stendur á, að *r* og einhver þessara stafa standi saman; þannig t. a. m.: *mark, mergur, herja, fært, færði, harpa, hverfa, karmur,* o. s. frv. Aptur á hinn bóginn verður það opt óskýrt í tali eða hverfur með öllu, ef hljóðstafur fer á undan, en *s (sk, st, zt), l* eða *n* á eptir, og ber því nauðsyn til, að gæta sín vel, að sleppa eigi *r* á undan einhverjum þessara stafa, nje heldur breyta, ef *r* skyldi vera eptir uppruna, og eigi bæta inn *r*, þar sem eigi er uppruni til, og skal því nokkur grein fyrir gjörð, hvar *r* skuli rita á undan hverjum þessara stafa.

*rs* skal rita:

1. í eig. eint. allra karlkenndra nafna, er meginhlutinn, eða þol. eint., endar á *r*, eins og t. a. m.: *hamars,* af *hamar, akurs,* af *akur, Þórs,* af *Þór,* o. s. frv.

Athugasemd. *Í þeim karlkenndum nöfnum, er enda á* ir *í gjör. eint., skal eig. enda á* is, *en eigi* irs, *eins og mjög er títt nú á dögum; því að meginhluti þeirra orða endar á* i, *en það* r, *sem kemur fram í gjörandanum, er ending, og fellur því burt í öllum hinum föllunum, t. a. m. orðið* hellir *beygist svona:*

| | | | |
|---|---|---|---|
| *Eint., gjör.* | hellir, | *Fleirt., gjör.* | hellar, |
| *þol.* | helli, | *þol.* | hella, |
| *þiggj.* | helli, | *þiggj.* | hellum, |
| *eig.* | hellis, | *eig.* | hella, |

*Og svona beygjast öll karlkennd nöfn upp á* ir, *t. a. m.:* flýtir, kæsir, Þórir, *o. s. frv. Eigi skal heldur rita* r, *nema að eins í*

*gjör. eint.* í kljár[1] (*meginhluti* kljá), jór (*meginhluti* jó). Týr (*meginhluti* Tý), skór (*meginhluti* skó), ljár (*meginhluti* ljá), már (*fuglsheiti, meginhluti* má), *o. s. frv.*;

2. *rs* skal og rita í eig. eint. hvorugkynsnafna þeirra, er gjör. eint. endar á *r*, eins og t. a. m. *vors,* af *vor, dýrs,* af *dýr, sumars,* af *sumar,* o. s. frv.;

3. í gjör. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna þeirra og einkunnarfornafna, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *r;* þannig t. a. m.: *stórs,* af *stór, dýrs,* af *dýr, magurs,* af *magur* (*mögur*), *vors,* af *vor, einhvers,* af *einhver, annars,* af *annar* (*önnur*), o. s. frv. Aptur á hinn bóginn verður að gæta þess, að hafa eigi *r* í eig., ef meginhlutinn eða gjör. eint. í kvennkyni eigi endar á *r*, og því skal t. a. m. rita *hás,* af *há-r, mjós,* af *mjó-r, grás,* af *grá-r,* o. s. frv., enda er eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þeirra einkunna eigi alltíðhafður í íslenzku nú á dögum;

4. í þessum einstöku orðum:

*hersir;*

*hersing;*

*hjarsi,* 1, hjörtur; 2, þunglamalegur maður;

*hjarsi*[2], hvirfill, fyrir *hjarnsi* (af *hjarni,* heili);

*þurs;*

*þvers;*

*súrs;*

að *súrsa;*

að *skersast* (sbr. *skæra,* orusta);

*bersi,* bjarndýr;

*fors* í á eða læk;

*fors,* æði, ákafi;

að *fyrsa (hvítfyrsa);*

*vers;*

að *versa.*

---

[1]) *Frumrót orðanna* kljár *og* ljár *mun vera* klc *og* le; lèinn = *ljárinn, Fms. VII, 264.*

[2]) *Þetta orð er* hjassi *í G. Súrs. 67, svo að kveðandi haldist:* oss gein hjörr um hjassa.

Sum af þessum orðum eru opt rituð með *ss* fyrir *rs*, eins og t. a. m. *bessi*, einkum í mannsnafninu *Bessi* (*Bessastaðir*), og verður það eigi talið með öllu rangt, að tillíkja *r* við *s*, en virðist óþarft.

*rsk* á sjer að eins stað í meginhluta orða, og verður *r* þar víða óheyrilegt í framburði vorum, er vjer segjum t. a. m. *fjaski* fyrir *fjarski;* en *r* skal þó rita í þeim orðum, sem leidd eru af öðrum orðum, er hafa *r* í stofni sínum, og eru hin helztu, þau sem nú skulu talin:

*karskur (karskleikur);*
*kerski (kerskilátur);*
*kerskinn;*
*kerskur,* karskur, í *fullkerskur,* Fms. VI, 38;
*horskur (horskleikur);*
*hæverska;*
*hæverskur;*
*þorskur;*
*þyrsklingur;*
*norskur;*
*fjarski (fjarskalegur; fjarskalega);*
*mærskur,* sem er frá Mœri í Noregi;

enn fremur í öllum þeim einkunnum, sem leiddar eru af þjóðanöfnum þeim, er endast á *verjar,* eins og t. a. m. *þjóðverskur* og *þýðverskur,* af *Þjóðverjar* og *Þýðverjar.*

*rst* á sjer stað:

1. í efsta stigi einkunna þeirra, er gjör. eint. í kvennkyni frumstigs endar á *r,* og efsta stigið er dregið saman, eða *a* sleppt úr á undan *st,* og skal því rita *stærstur, stærst,* af *stór; dýrstur, dýrst,* af *dýr,* o. s. frv.; en aptur á móti *hæstur, mjóstur, næstur,* o. s. frv., af því stofn þessara orða er að eins *há, mjó, ná,* en efsta stig myndast af stofninum, með því að við er bætt *astur* eða *stur, ust* eða *st, ast* eða *st;*

2. í 2. pers. eint. þál. tíðar áhrifsmyndar sagna, er fyrsta pers. þeirrar tíðar endar á *r;* eins og t. a. m. *varst, barst, fórst,* af *var, bar, fór;*

3. í eint. núl. og þál. tíðar þolmyndar sagna, er 1. pers. núl. og þál. tíðar áhrifsmyndar endar á *r;* þannig t. a. m. *berst, barst,* af *ber, bar; ferst, fórst,* af *fer, fór.*

4. Þá skal og *rst* rita í þeim orðum, er nú skulu greind:

*þorsti;*

að *þyrsta;*

*þyrstur;*

*burst;*

að *bursta;*

*bursti;*

að *byrsta* sig, ygla sig;

*byrstur,* sem er með *burst* (*gulli byrstr,* Sn.-Ed. I, 264; *blóði byrstr,* sama bók, 670);

*fyrstur, fyrst;*

*firrstur,* fjarlægastur.

*verstur?*

*rzt* á sjer að eins stað í sagnarbót þolmyndar sagna þeirra, er *r* hafa í meginhlutanum, og sjest það þegar á nafnhætti og öðrum myndum þeirra sagna, enda munu Íslendingar víðast kveða skýrt að *r* í sagnarbótinni sjálfri; þannig skal t. a. m. rita *hirzt* af *hirða, firrzt,* af *firrta, virzt,* af *virða,* o. s. frv.

*rsl* og *rzl* er í hversdaglegum framburði stundum borið fram eins og *sl,* og verður því í þess kyns orðum að gæta upprunans, og rita t. a. m.:

*ærsl, ærsli;*

að *ærslast;*

*herzla* (*áherzla*);

*hirzla;*

*smyrsli;*

að *narzla;*

*færsla;*

*varzla,* optar haft í fleirt. *vörzlur;*

að *verzla;*

*verzlun.*

Að *rl* kveðum vjer að öllu eins og *ll,* ef grannur hljóðstafur

fer á undan, kveðum að báðum samstöfununum eins og *dl* eða *ddl* stæði, og getur því framburðurinn eigi leiðbeint, hvar *rl* skuli rita, og hvar *ll;* en *rl* skal rita:

1. í þiggj. eint. og öllum föllum fleirt. karlkenndra tveggjaatkvæða-nafna, ef *r* verður heyranlegt í hinum ósamandregnu föllunum; þannig t. a. m.: *erli*, af *erill*, o. s. frv., *ferli ferlar*, o. s. frv., af *ferill;*

2. í þessum einstöku orðum:

*árla;*
*erla* (fuglsheiti);
að *erla*, vinna;
*ofarla* [= ofarlega];
*karl, karlmaður;* eins *hákarl;* en *kall*, af að *kalla;*
*kerla;*
*kerling;*
*kurl;*
að *kurla;*
*gjörla;*
*jarl;*
*sörli;*
*síðarla;*
*skarlat* (í fornmáli opt *skallat*);
*sturl;*
*Sturla;*
að *sturla;*
*sturlun;*
*snarl;*
að *snarla;*
*snarla* [= snarlega];
*snörl;*
að *snörla;* stundum ritað *snörgla;* sbr. á ensku *snore;* á dönsku *snorke;*
að *snerla* [*sneril-l*];
*neðarla* [= neðarlega];
að *nurla;*

*perla*;
að *förla* og *förlast*;
*förlun*;
að *ferla* í *bakferla*;
*ferli* [*feril-l*] í *atferli, undirferli, skapferli, búferli, víðferli, vígaferli, málaferli, misferli*; en ef orðið er myndað af *falla*, þá skal rita *ll*, t. a. m.: *úrfelli*;
*ferlegur*, og atv. *ferlega*[1];
*ferlíki*;
*framarla* [= framarlega];
*varla*.

Jafnvel í sumum þeim orðum, þar sem *r* og *l* heyrir sitt hvoru atkvæðinu til, berum vjer *rl* fram eins og *ll*, en þó skal rita *rl*, eins og t. a. m. í *Þorleifur, Þorlákur*.

Í orðinu *harðla* tillíkist *rð* í framburðinum eptirfarandi *l*, en eigi skal þó svo rita, af því að það er leitt af *harður*.

Ef til vill eru ýms önnur orð, er *rl* skal í rita, en enga brýna nauðsyn þykir til bera, að greina þau, með því afleiðslan segir til, ef hennar er gætt; þannig má mynda mörg atviksorð upp á *-la* (samandregið fyrir *-lega*), og skal þá ávallt rita *r* á undan *l*, ef meginhluti frumorðsins endar á *r*.

*rn* hefur opt sama hljóð í framburði vorum og *nn*; það er kveðið að því eins og *dn*, eða *ddn*. Ef grannur hljóðstafur fer á undan þessu hljóði, skal ávallt rita *rn*; því að *nn* hefur þá sitt eiginlega hljóð; því skal rita t. a. m.: *barn*, en *bann*, *börn*, en *bönn*, *horn*, *forn*, *fyrna*, *hestarnir*, *farirnar*, o. s. frv. Ef aptur á móti breiður hljóðstafur fer á undan, er vafinn meiri, með því að í sumum orðum skal rita *rn*, en sumum *nn*, og verður þó *r* víða heyranlegt, þar sem það skal rita; *rn* skal rita:

1. í eig. fleirt. kvennkynsnafna og hvorugkynsnafna, þeirra er enda á *a* í gjör. eint., eins og t. a. m.: *súrna*, af *súra*, *nýrna*, af *nýra*, o. s. frv.;

2. í gjör. og þol. fleirt. kvennkynsnafna þeirra, er gjör. eint. endar á breiðan hljóðstaf, þegar þau eru skeytt saman við grein-

---

[1]) *Í Háttat. Snorra, 60. er., er það ritað* fella.

inn, og því skal rita t. a. m.: *tærnar*, af *tá*, *rærnar*, af *ró*, *brýrnar*, af *brú*; eins *ærnar*, af *ær* (stofninn *á*), *kýrnar*, af *kýr* (stofninn *kú*), *sýrnar*, af *sýr* (stofninn *sú*, svín). Fleirtalan af *brún* er eiginlega *brýnn*[1] (fyrir *brýnr*), og með greininum ætti því að rita þetta orð *brýnnar*, en nú segjum vjer *brýr* (t. a. m. *augabrýr*), og verður því og að rita *brýrnar*, er það er skeytt saman við greininn, nema fleirtalan sje höfð *brýnn*;

3. í hinum samandregnu myndum einkunna þeirra upp á *inn*, er *r* gengur á undan afleiðsluendingu þessari í gjör. eint.; þannig t. a. m.: *ærnum*, *ærnir*, *ærnar*, o. s. frv., af *ærinn*;

4. í þessum einstöku orðum:

að *árna*;
*árnaður*;
*árnun*;
*Árni*;
að *kárna*;
*járn*;
að *járna*;
*heyrn*;
að *súrna* (af *súr*);
að *rýrna*;
*rýrnun*;
*fórn*;
að *fórna*;
að *mærna*;
*mærningur*;
að *meyrna*;

Ef samhljóðandi fer á eptir *rn*, verður *r* hljóðlaust, eða að minnsta kosti mjög óljóst í framburðinum, og skal því þess gæta, hvort þess konar orð eru eigi leidd af þeim orðum, er *rn* skal í rita, eptir þeim reglum, sem greindar hafa verið um stund, og ef svo reynist, þá skal og *r* rita í hinum afleiddu orðum; þannig skal

[1]) *Sú mynd er og höfð í fornri íslenzku, t. a. m. Sn.-Ed. I, 142:* Þórr lèt síga brýnnar; *Sn.-Ed. II, 514:* Augu mannz ma . . . kenna við brynn êða brár.

því rita: *hyrndur, stirndur, bernska, bernskulegur* og *bernsklegur, bernskur, fyrnd, fyrnska.*

Þá er það enn athugavert, hvar rita skuli *rr* á undan samhljóðanda, og á það sjer stað:

1. í þál. tíð, sagnarbót og hluttekningarorðum lið. t. þeirra sagna, er stofn þeirra endar á *rr*, og ending þessara tíða er *ti, t, tur* eða *ður;* þannig t. a. m.: *firrði, firrt, firrtur,* af *firra; skirrðist, skirrzt,* af *skirrast* við; en þær sagnir munu eigi vera margar;

2. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni af *kyrr, þurr* og *skjarr: kyrrt, þurrt, skjarrt;* og eins þá í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þessara orða *(kyrrs, þurrs, skjarrs);*

Enn fremur í eig. eint. nafna þeirra, er *rr* hafa að niðurlagi meginhlutans, og nefnd eru hjer á eptir, t. a. m. *urrs,* af *urr,* o. s. frv.;

3. í orðum þeim, sem nú skulu greind:

| | |
|---|---|
| *kyrrð;* | að *firrta;* |
| að *þurrka;* | *firrtinn;* |
| *þurrkur;* | *firrtur* (af *fjarri);* |
| *þurrður?* (af *þverra);* | *firrn;* |
| *hnakkakerrtur;* | *firrnindi,* |
| *svarrkur* (af *svarri);* | |

með því *rr* er í stofni frumorðanna.

Fornmenn rituðu og *orrusta,* eins og það væri leitt af *orri* (fugl), en nú segjum vjer *orusta*[1], og mun rjettast að rita svo.

Í öðrum orðum eða myndum skal eigi rita *rr* á undan samhljóðanda, hvort sem samhljóðandinn, sem á eptir fer, heyrir meginhlutanum til eða endingunni; því skal rita: *fjörður, virða, varði, marði* (af *verja, merja),*

*rr* í enda orðs skal að eins rita í þessum orðum:

| | |
|---|---|
| *urr;* | *þurr;* |
| *kurr* (sbr. að *kurra);* | *þvarr* (forn mynd, = *þverraði);* |
| *kyrr;* | *skjarr,* styggur; |
| *kjarr,* hrísrunnur; | *barr,* eins konar lauf; |

---

[1]) *Sú mynd finnst og í fornum ritum, t. a. m. Fms. I, 8, Sn.-Ed. I, 124.*

*marr* (sbr. að *marra*);
*murr* (sbr. að *murra*);
*fírr*, fjær;

því að bæði errin heyra þar meginhlutanum til, enda heyrast þau bæði í sumum þessara orða *(kurr, marr, murr)* þegar í gjör. eint.; en í flestum koma þau fram, er ending sú bætist við, er hefst á hljóðstaf. Rjettast mundi og vera, að rita *knörr, knarrar, knerri*, o. s. frv., eins og fornmenn gjörðu, þótt vjer nú segjum *knör, knarar, kneri*, með því svo virðist af hinni eldri beygingu þessa orðs, að í stofninum sje *rr*. En ef eigi heyrir nema eitt *r* meginhlutanum til, en endingin skyldi vera *r*, skal þeirri endingu sleppa, og er það samkvæmt framburði vorum og eðli málsins, og því skal rita ávallt: *jöfur, vitur, ber, mer* (af *merja*). Aptur á mót í miðju orði, enda þótt það sje í enda atkvæðis, skal *rr* rita, þegar meginhlutinn endar á *r*, og endingin byrjar að rjettu lagi á *r*, og því skal rita *rr* í þiggj. og eig. eint., og eig. fleirt. einkunna eða einkunnarfornafna, er meginhluti þeirra (gjör. eint. í kvennkyni) endar á *r*, og sömuleiðis í miðstigi þeirra; þannig t. a. m.: *dýrri, dýrrar, dýrra, dýrri* (= *dýrari*), af *dýr; stórri, stórrar, stórra, stærri*, af *stór; vorri, vorrar, vorra*, af *vor; nokkurri, nokkurrar, nokkurra*, af *nokkur*, o. s. frv. Sömu reglu fylgja og einkunnir þær, er gjör. eint. í kvennkyni endar á breiðan hljóðstaf, að *rr* skal þar rita í þeim þremur föllum, er endingin byrjar á *r*, og sömuleiðis í miðstiginu, eins og t. a. m.: *hárri, hárrar, hárra, hærri*, af *hár; mjórri, mjórrar, mjórra, mjórri*, af *mjór*, o. s. frv., enda ávallt á millum tveggja hljóðstafa, ef svo er fram borið.

Athugasemd. *Fornmenn rituðu að öllum jafnaði* rr *í enda orðs, þar sem svo skyldi rita eptir rjettum beygingarreglum, eða þar sem endingin var* r, *t. a. m. í gjör. eint. karlkenndra nafna, kvennkenndra nafna (sem nú endast á* i) *og einkunna, og 2. og 3. pers. eint. nút. tíma sagna; þannig t. a. m.:* hamarr, jöfurr, stórr, varr, mýrr [=mýri], berr, *af* bera, ferr, *af* fara. *Þó átti sú undantekning sjer stað hjá þeim, að þeir slepptu því í gjör. eint. karlkenndra nafna og einkunna, ef meginhluti þeirra endaði á linstaf* (l, n, r), *og annar samhljóðandi fór þar á undan, eins og vjer*

*gjörum enn; t. a. m.:* karl, skall, hrafn, vagn, akr, jafn, vitr, *o. s. frv. Þeir tillíktu og opt* r *undanfarandi* n *eða* l, *þótt grannur hljóðstafur færi á undan, t. a. m.* kjöll *fyrir* kjölr, kell *fyrir* kelr, stell *fyrir* stelr, *og leifar þess eru t. a. m.* vill, *í staðinn fyrir* vilr; *stundum slepptu fornmenn endingar*-r, *ef* ll *eða* nn *fór á undan, og rituðu t. a. m.* renn *fyrir* rennr, brenn *fyrir* brennr.

Mörgum hættir við, er eigi kunna íslenzka málfræði, að rita *r* á eptir *n*, og einkum *l*, í þiggjanda og eig. eint. í kvennkyni, og eig. fleirt. einkunna, þegar meginhluti þeirra endar á *l* eða *n*, og rita þó *ll* eða *nn* á undan. En það er eitt af einkennum íslenzkunnar, að *r* tillíkist undanfarandi *l* eða *n* (en eigi *ll* eða *nn*) í öllum tveggja-atkvæða-orðum, og sömuleiðis í öllum eins-atkvæðisorðum, ef breiður hljóðstafur fer á undan, og því skal aldrei ending þeirra þriggja falla, er þegar voru nefnd, hefjast á *r* í þess konar orðum, þótt svo sje í öðrum orðum, enda er *r* þar ofaukið, ef *nn* eða *ll* er haft; því að hið síðara *n* eða *l* er komið í staðinn fyrir *r*. Hið sama má og segja um miðstig þess konar einkunna, er meginhluti þeirra endar á *n* eða *l*, þegar miðstigsendingin er *ri* (eigi *ari*), að *r* tillíkist undanfarandi *l* eða *n*. Þannig skal því rita t. a. m. þiggj. eint. *heilli, vænni, mikilli* (fyrir *væn-ri, heil-ri, mikil-ri*); eig. eint. *heillar, lítillar, vænnar* (fyrir *heil-rar, lítil-rar, vænrar*); eig. fleirt. *gamalla, vænna* (fyrir *gamal-ra, væn-ra*), og miðstig *stopulli* (fyrir *stopul-ri*), *vænni* (fyrir *væn-ri*), o. s. frv.

Í fyrirsetningunni *fyrir* er *r* í endanum opt óheyranlegt, einkum ef hún er skeytt framan við önnur orð, enda rita margir svo, bæði að fornu og nýju, en eigi verður þó sjeð, að neina nauðsyn beri til slíks ritháttar, og því skal ávallt rita þetta orð óskert, hvort heldur það stendur einstakt, eða er skeytt saman við önnur orð.

## 30. grein.

## Um n.

Þessi stafur getur í íslenzku því að eins staðið í byrjun orðs eða atkvæðis, að hljóðstafur eða *j* fari á eptir, en ýmsir samhljóðendur geta þó staðið fyrir, en hvort sem er, er hljóð þess þó ávallt ljóst,

og má framburðinum einum hlíta í því efni; þannig t. a. m.: *ná, núa, knúa, hnýðingur, snúa, fnykur, fnæsa, nje,* o. s. frv.

Eins er það í miðju orðs eða atkvæðis, að *n* hverfur mjög sjaldan í framburðinum, þar sem það annars á að vera, en hitt er eigi eins ljóst, hvort rita skuli *n* eða *nn,* ef samhljóðandi, eða samhljóðendur fara á eptir í sömu samstöfu: *k, g, t, d, s, z, r,* og þarf þar aðgæzlu á að hafa, að rita, sem uppruni er til.

Á undan *k* á *nn* sjer stað í: *þynnka,* (af *þunnur),* að *minnka* og *minnkun*[1] (af *minni),* og samskeytingum og afleiðingum þeirra, og ef til vill í öðrum orðum afleiddum, er frumorðið hefur *nn* í stofni sínum.

*nn* á undan *g* skal rita í *kynngi* (*fjölkynngi),* og svo í *kunngur,* samandregið fyrir *kunnugur.* Að *nn* eigi sjer stað í öðrum orðum á undan *g,* þar sem *nng* heyra sömu samstöfu til, man jeg reyndar eigi eptir, nema í samsetningum, enda heyrir *g* þá síðari samstöfunni til, og er svo sem sjálfsagt, að halda stofni fyrri hluta samsetningsins óskertum, eða rita *nn,* þar sem uppruni er til, t. a. m.: *manngi* (= *eigi maður* = *enginn maður), finngálkn.*

Á undan *t* á *nn* sjer stað:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, er hafa *nn* í stofninum, eða gjör. eint. í kvennkyni, enda verður *nn* þar fullskýrt fram borið; þannig skal rita t. a. m. *grannt,* af *grönn* (stofninn *grann), stinnt,* af *stinn, þunnt,* af *þunn.* En endi aptur á móti gjör. eint. í kvennkyni á *n,* skal eigi heldur nema eitt *n* í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni, t. a. m. *vant,* af *vanur* (meginhlutinn *van), vænt,* af *væn, brúnt,* af *brún,* o. s. frv.

2. Þá skal og rita *nn* á undan *t* og *d* í þál. t., sagnarbót og hluttekningarorðum lið. tíma allra þeirra sagna, er *nn* verður heyranlegt í meginhluta nafnháttar, og mynda 1. pers. þál. t. með *ti* eða *di;* þannig t. a. m.: *ginna, ginnti, ginnt, ginntur; kynna*

---

[1]) *Þessi orð eru nú almennt rituð* mínka *og* mínkun, *og þykjast menn þá bæta upp* n, *sem úr er fallið, með því að setja* í *fyrir* i; *en sá ritháttur virðist ástæðulítill; en að rita* mínnka, *er með öllu rangt.*

*kynnti, kynnt, kynntur*; *senna, sennti, sennt; renna, renndi, rennt, renndur; kenna, kenndi, kennt, kenndur,* o. s. frv. Sömuleiðis í sagnarbótinni af *unna, ann, unni, unnt;*.

3. í öllum þeim orðum, hvort heldur eru nöfn, einkunnir eða sagnir, sem leidd eru af þess kyns sögnum, sem nú þegar voru nefndar, eða þá öðrum orðum, er *nn* hafa í stofni sínum, og eru þessi hin helztu:

*a)* á undan *t:*

*annt (mjer er annt um,* af *anna)*;

*ávinnt* (t. a. m. *ávinnt um söxin,* sem leitt er af *vinna á)*;

*hlynntur,* velviljaður;

*tenntur* (af *tönn)*;

*mennt* / *mennta* / *menntur* (af *mann)*;

*mynntur, flámynntur,* o. s. frv. (af *munnur)*;

*b)* á undan *d:*

*grennd* (af *granni),*

og svo öllum einkunnum, sem myndaðar eru af hluttekningarorðum lið. tíma þeirra sagna, er *nn* hafa í meginhluta sínum; þannig t. a. m.: *auðkenndur, ókenndur, nafnkenndur, mórenndur.*

Athugasemd. *Enda þótt reglan um, hvar rita skuli* nn *á undan* t, *eða* d, *eigi virðist villugjörn, skal þess þó getið, að eigi má rita* nn *á undan* t *eða* d *í öllum þeim sögnum, er* nn *hafa í meginhluta nafnháttar; því til eru þær sagnir, er breyta öðru* n *í* d *í fleirt. þál. tíma framsöguháttar, og því líka afleiðingarháttar, sagnarbót og hluttekningarorðum lið. tíma, eins og t. a. m.:* finna, fann, fundum (= funnum[1]), fundið (= funnið[2]), fundinn, *og því skal eigi heldur rita* nn *á undan* d *eða* t *í öðrum orðum, sem leidd kunna að vera af þess konar sögnum, enda eru þær sagnir auðþekktar og óvillugjarnar, með því þær eigi bæta neinu* di *við í 1. pers. eint. þál. tíð., eins og sjá má af þeirri sögninni, er til var greind.*

---

[1]) *Fms. I, 122:* sunnr Danmarkar funnu.

[2]) *Sn.-Ed. I, 594:* hversu margir hættir hafa funnizt í kveðskap höfutskálda; *Sn.-Ed. II, 372:* fvnniz; *Sn.-Ed. II, 299:* fvnnit.

Þá er það athugavert, hvort rita skal *nn* eða að eins *n*, ef *s* fer á eptir, með því framburðurinn eigi leiðbeinir mönnum í því efni, og skal þá enn stofninn ráða, og skal rita þar *nn*, er svo er í stofninum, og eins þá í öðrum orðum, sem af þeim eru leidd; þannig skal því rita *nn* á undan *s*:

1. í eig. eint. eins-atkvæðis-nafna þeirra karlkenndra, er þol. eint. endar á *nn*, t. a. m.: *grunns*, af *grunn-ur*, *brunns*, af *brunn-ur*, *manns*, af *mað-ur* (= *mann-ur*), o. s. frv.;

2. í eig. eins-atkvæðis hvorugkynsnafna, er hafa í stofni sínum, eða gjör. eint., heyranlegt *nn*, eins og t. a. m.: *skinns*, af *skinn* (en *skins*, af *skin* = *sólarskin*, *mans*, af *man* = *præll*, og líka, = *kona*);

3. í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þeirra einkunna, er stofninn, eða gjör. eint. í kvennkyni, er eitt atkvæði og endar á *nn*; þannig t. a. m.: *þunns*, af *þunn*, *sanns*, af (*sann* =) *sönn* (*sannur*), o. s. frv.

Athugasemd. *Þess verður vel að gæta, að rita eigi* nns, *heldur að eins* ns, *í eig. karlkenndra nafna, er hafa afleiðsluendingarnar* an, in, un, *þótt gjör. endist á* ann, inn, unn, *og í eig. þeirra einkunna, sem hafa afleiðsluendinguna* inn, *með því gjör. eint. í kvennkyni endar á* in, *þótt í framburðinum heyrast kunni* inn; *sbr.* nn *í enda orðs hjer á eptir. Sömuleiðis skal rita* hans, *eig. af* hann, *því að* n *að eins er í stofninum, eins og sjá má af þiggj.* honum.

4. Þá skal enn rita *nn* í efsta stigi einkunna þeirra, er meginhlutinn endar á *nn* (sjá 1), er það myndast með því mótinu, að einungis sje við bætt *stur*, *st*; þannig t. a. m.: *þynnstur*, *grynnstur*, o. s. frv. Sömuleiðis *minnstur*, er myndað er af *minn* (í *minni*, miðstig);

5. í 2. pers. eint. þál. tíðar í framsöguhætti þeirra sagna, er 1. pers. þeirrar tíðar endar á *nn*; þannig t. a. m.: *þú fannst*, *þú brannst*;

6. þegar samhljóðandi, eða samhljóðendur fara á eptir *s*, í öllum þeim myndum þolbreytingar sagna, er sama mynd í áhrifssögninni endar á *nn*; þannig t. a. m.: *jeg finnst*, *jeg fannst*, o. s. frv.;

7. í þessum afleiddum orðum, sem nú skulu greind, og fer ávallt einhver samhljóðandi á eptir s í þeim orðum:

*kennsla;*
*kennsli;*
*kvennska;*
*kvennskur;*
að *grennslast;*
*grennslun (eptirgrennslun);*
*hvinnska;*
að *hvinnska;*
*synnstur* (fornt, = syðstur, Fms. XI, 229);
*spennsli;*
*rennsli (framrennsli);*
að *rennsla;*
*brennsla;*
*finnska*
*finnskur* } (af *Finnar);*
*mennska* í samskeytingum: *ármennska, ómennska, karlmennska, stórmennska,* o. s. frv.;
*mennskur (mennskir menn).*

Á undan *z* á *nn* sjer stað að eins í sagnarbót þolsagnar þeirra sagna, er *nn* hafa í meginhluta nafnháttar, og mynda þál. tíma framsöguháttar með *ti* eða *di;* þannig t. a. m.: *kennzt,* af *kenna, grynnzt,* af *grynna,* o. s. frv.

*anza* er samkvæmar upprunanum en *annsa* (af *and* = á móti), eins og áður er sagt.

Á undan *r* skal *nn* rita í einkunnum þeim, er meginhlutinn, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *nn,* og sem fyrir skömmu var um getið að rita skyldi *nn* á undan *s,* og er það í þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, og eig. fleirt. í öllum kynjum; þannig t. a. m.: *grunnri, grunnrar, grunnra,* af *grunnur; sannri, sannrar, sannra,* af *sannur,* o. s. frv.

Athugasemd. *Í hinni fornu tungunni var ending sú, er vjer nú ritum* ur, *víðast að eins* r, *og því átti* nn *þar sjer víðar stað á undan* r, *en nú.*

Þá er það enn athugavert, að láta eigi *n* falla burtu á millum *g* og *s*, *t* og *s*, *f* og *s*, þótt eigi heyrist, eða þótt það að minnsta kosti verði mjög óskýrt í fljótum framburði, en það vill að eins til í eig. eint. nafna og einkunna, enda verður *n* heyranlegt þegar í gjör. eint., og því skal rita: *gagns*, af *gagn*, *botns*, af *botn*, *vatns*, af *vatn*, *jafns*, af *jafn*, *hrafns*, af *hrafn* (framborið líkt og *gaggs*, *boss*, *vass*, *jafs*, *hrafs*). Líkt stendur og á, er vjer segjum í daglegu tali *hrokkelsi*, en rita skal *hrognkelsi*, það er, að *n* hverfur í framburðinum, og *g* tillíkist *k*. Enn fremur segja menn *spánýr*, en það er *spán-nýr*. Eins hverfur *n* með öllu í framburðinum í orðinu *daunsna*; því að jafnaðarlegast er sagt *dausna*, en það er eigi rjett; því að orðið er leitt af *daun*. Eins virðist *písl* vera fyrir *pínsl* (af *pína*); á engilsaxnesku *p i n*, *p i n e*; á þýzku *P e i n*; *á grísku* (ποινή, πόνος), og því ætti að rita *pínsl*, en eigi *písl*; en þó er *písl* forn mynd, og hefur því meira við að styðjast.

Síðast í atkvæði millum tveggja hljóðstafa er ávallt skýr framburður, hvort heldur sje *n* eða *nn*, og virðist því enga nauðsyn til bera, að eyða orðum að því, heldur mun óhætt, að láta framburðinn ráða. Eins er það í enda eins-atkvæðis-orða; allir heyra t. a. m. skýran mun á *skin* (sólarskin) og *skinn* (húð), *skini* og *skinni*, *hinn* og *hin*, *flan* og *bann*, *flani* og *banni*, *grun* og *grunn*, o. s. frv. Nú er orðið almennt, að segja og rita *þjón* og *daun*, fyrir *þjónn* og *daunn*, en engin nýtileg ástæða virðist vera fyrir þeim myndum, og þær ekkert hljómfegri. Í afleiddum orðum, sem eru tvö atkvæði eða fleiri, verður víða eigi heyranlegur munur á *n* og *nn*, hvort sem er í miðju orðs (en þó síðast í atkvæði) eða enda, og því skal nokkrar reglur um það rita.

1. *nn* skal rita í gjör. eint. karlkenndra nafna með afleiðsluendingunum *ann*, *inn*, *unn*, með því hið síðara *n* er gjörandaendingin *r*, er tillíkzt hefur *n* á undan, og alls engin ástæða til, að sleppa öðru enninu í þessum orðum, fremur en t. a. m. í einkunnum upp á *inn* (*loðinn*), og því skal rita: *arinn*, *aptann*,

*Óðinn, Auðunn, jötunn, himinn, drottinn, morgunn*[1], o. s. frv. Aptur á móti skal þol. eint. þessara nafna enda á *an, in, un;* því að það fall er endingarlaust í öllum þeim orðum karlkenndum, sem í gjöranda eintölunnar enda eigi á *i;* t. a. m. *hestur,* þol. *hest; dalur,* þol. *dal; vinur,* þol. *vin,* o. s. frv.

2. *nn* skal og rita að niðurlagi í gjör. eint. kvennmannanafnanna: *Þórunn, Jórunn, Ingunn,* og eins *Iðunn,* enda verður það ljóst af hinum föllunum; því að þá heyrist *nn* skýrt, t. a. m. *Þórunni, Þórunnar,* o. s. frv. Á sama hátt skal og rita *Dýflinn,* bæjarnafn á Írlandi *(Dublin).* Enn fremur skal og rita *einkunn,* enda segjum vjer og *einkunnar;* en eins á að rjettu lagi og að rita *vorkunn* og *miskunn,* enda þótt vjer nú segjum og almennt ritum *vorkun* og *miskun;* því að síðari hluti þessara þriggja nafna er stofninn *kunn,* sem kemur fram í sögninni *kunna* og *kenna,* eins og sjá má, er vjer ávallt segjum *vorkenna,* og heyrir því *nn* stofninum til. En eins skal þá og rita *nn* í öðrum þeim orðum, sem leidd eru af *vorkunn* og *miskunn,* t. a. m. *vorkunnlátur, vorkunnsemi; miskunnsamur, miskunnsemi,* o. s. frv. Raunar segjum vjer nú ávallt *miskuna* fyrir *miskunna,* og hefur sú mynd sagnarinnar náð fullri festu í tungunni, enda sögnin fengið þá beygingu, að óviðfelldið verður, að fara að breyta henni; en þótt ósamkvæmni verði nokkur í því, að rita *miskunn,* en þó *miskuna,* virðist samt sem áður rjettast, að rita eptir upprunanum, þar sem framburðurinn og hljóðfegurðin eigi eru til beinnar fyrirstöðu, og rita því *miskunn.*

3. Gjör. og þol. eint. í karlkyni greinisins er *hinn;* því verður og að rita *nn* að niðurlagi þessara falla, þegar greinirinn er

---

[1]) *Af því sumir hafa efazt um, að dæmi þessa ritháttar finnist í fornritum, þá vil jeg þó sýna þess fáein dæmi:* aptann, *Sn.-Ed. I, 341, II, 603;* Óðinn, *Sn.-Ed. I, 24, 192, 214, 354, II, 252;* jötunn, *Sn.-Ed. I, 408, II, 258, 278, 286, 434, 583;* jötunninn, *Sn.-Ed. II, 278, 279;* himinn, *Sn.-Ed. I, 40, 52, 280, 470, II, 225, 265, 300, 429, 499;* himiN, *Ísl. s. II, 487, 489;* himin̄, *Ísl. s. II, 493;* drottinn, *Sn.-Ed. I. 252, 308, II, 538;* ðᵒttiN, *Ísl. s. II, 490;* morginn, *Sn.-Ed. II, 308, 444.*

skeyttur aptan við karlkennd nöfn. Á hinn bóginn er gjör. eint. í kvennkyni greinisins og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni *hin*, og því skal að eins rita *n* að niðurlagi þessara falla, er greinirinn er skeyttur við; þannig skal því rita t. a. m. *tanginn, smiðurinn, vinurinn; tangann, smiðinn, vininn,* o. s. frv.; en *konan, hæðin, mýrin, höndin; augun, klæðin, löndin, höfuðin,* o. s. frv.

4. *nn* skal og rita í gjör. og þol. eintölu í karlkyni einkunna þeirra, er hafa afleiðsluendinguna *in;* því að gjöranda-endingin *r* hefur þar tillíkzt undanfarandi *n,* og í þol. er *inn* fyrir *inan;* því að fallending einkunna í þol. er *an,* eins og sjá má af *líkan, vitran;* þannig t. a. m. gjör. *loðinn* fyrir *loðinr, flókinn* fyrir *flókinr,* og þol. *loðinn* fyrir *loðinan, flókinn* fyrir *flókinan,* o. s. frv. Á hinn bóginn verður að eins *n* að niðurlagi þessara einkunna í gjör. eint. í kvennkyni, og gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni; því að þessi föll eru endingarlaus, eins og sjá má af *rík kona, greind börn;* því verður og að rita t. a. m. *loðin ær, flókin net,* o. s. frv. Eptir sömu reglum, og nú hafa verið greindar, skal og rita hluttekningarorð liðins tíma, er enda á *inn,* rita *nn* að niðurlagi í gjör. og þol. eint. í karlkyni, en *n* að eins í gjör. eint. í kvennkyni, gjör. og þol. fleirt. í hvorugkyni; t. a. m. ***alinn hestur, alinn hest; vel alin ær; vel alin lömb.***

5. Með því sjálf afleiðsluending einkunna þeirra, sem um var getið hjer næst á undan, er að eins *in,* en eigi *inn*, því að hið síðara *n* í gjör. og þol. eint. í karlkyni er fallending, þá skal og rita *n* að eins í þeim orðum, sem af þess konar einkunnum eru leidd, eða skeytt saman, t. a. m. *feginsamlega, borginmannlegur,* o. s. frv.

6. Þol. eint. í karlkyni af einkunnunum *mikill* og *lítill* skal rita *mikinn, lítinn;* því að það eru samandregnar myndir fyrir *mikilan* og *lítilan,* þannig að *a* er fallið burtu úr fallendingunni, en *l,* síðasti stafur meginhlutans, hefur tillíkzt eptirfarandi *n.*

7. Þá skal rita *enn,* þegar það þýðir sama sem *enn þá;* t. a. m.: *Hann er ekki kominn enn; enn fremur.* Aptur skal rita *en,* samtengingarorðið, = á dönsku *men,* og *en* = *heldur en,*

á latínu *quam;* þannig t. a. m.: *Pjetur er eldri en Jón; en þó er Jón stærri.*

Nú er gjörð grein fyrir, hvar *nn* skuli rita í niðurlagi orða, og skal alstaðar rita *n* að eins, annarstaðar en þegar hefur verið sagt að *nn* skuli rita; hefur þegar að nokkru verið greint, hvar *n* að eins skuli rita að niðurlagi; en enn fremur skal og einungis *n* rita, en eigi *nn:*

1\. í gjör., þol. og þiggj. eint. allra kvennkenndra nafna, sem leidd eru af sögnum og hafa afleiðsluendinguna *un* eða *an,* upprunalega ávallt *an;* t. a. m. *huggun, svölun, miðlun, velfarnan;*

2\. í hvorugkynsnöfnum, sem enda á *an,* t. a. m. *gaman, mannlíkan;*

4\. í enda atviksorða þeirra, er hafa afleiðslu-endinguna *an,* enda þótt í framburðinum kunni að heyrast *ann;* en hin helztu þeirra eru þau, sem nú skal greina:

*austan;*
*aptan;*
*áðan;*
*innan;*
*ofan;*
*utan;*
*undan;*
*gjarnan* (áður *gjarna);*
*jafnan;*
*handan;*
*heiman;*
*hjeðan;*
*hvaðan;*
*þaðan;*
*saman;*
*síðan;*
*sunnan;*
*neðan;*
*norðan;*
*framan;*

*vestan;*
*meðan;*

3. í þol. eint. í karlkyni allra einkunna þeirra, þar sem fallending þol. er *an*, það er allra einkunna, sem eigi hafa afleiðsluendinguna *in*; t. a. m.: *stóran, stórmannlegan, vænan, gráan, mjóan*, o. s. frv.

Með því að *nn* er borið fram sama hljoði og *rn*, fari breiður hljóðstafur á undan, því að hvorttveggja er borið fram eins og *ddn*, þá hefur mörgum orðið það á, að rita *rn*, þar sem *nn* skyldi rita, t. a. m. að rita *brúrn* fyrir *brúnn*, *seirn* fyrir *seinn*, *steirn* fyrir *steinn*, *værn* fyrir *vænn*, o. s. frv. En í því skal þeirri reglu fylgja, að ef *n* að eins kemur fram í einhverri mynd orðsins, skal ávallt rita *nn* í þeim myndunum, er *ddn* er fram borið. Sjá að öðru leyti *r*.

Þá hefur í hversdagslegum framburði vorum *n* breytzt í *l* í orðinu *mylna*[1] *(vindmylna, vatnsmylna)*, er það er borið fram *mylla*, og er eigi rjett að rita *mylla*, heldur ávallt *mylna* (en *milla* á fati).

Enn fremur hefur *n* breytzt í *m*, er vjer segjum *skurm (eggjaskurm)*, og skal þó eigi svo rita, heldur ávallt *skurn*.

## 31. grein.
## Um x.

*x* er að uppruna runnið saman ýmist úr *k* og *s*, eða *g* og *s*, en að framburði til úr linu *g* og *s*; mætti því svo virðast, sem alstaðar mætti rita *x* í íslenzku, þar sem *ks* eða *gs* er borið fram í einu atkvæði, eða þá á hinn bóginn að rita hvergi *x*, heldur *ks*, eða öllu heldur *gs* í stað þess. En fornmenn gjörðu hvorugt, enda hefur það aldrei orðið almenn regla. *x* hefur að eins þótt rjetthaft í þeim orðum, sem sjálf eru frumorð, og *x* heyrir stofninum til, og þá líka í þeim, sem leidd eru af þeim, en eigi í þeim, sem leidd eru af öðrum orðum í íslenzku, hvort heldur *s*,

---

[1]) *Þetta orð er engan veginn fornt, og hefði því vel mátt sleppa að tala um það; hið eiginlega íslenzka orð fyrir það er* kvern, *nú optast* kvörn.

með þeim stöfum, sem því kunna að fylgja, er beygingarending, eða afleiðslu-ending; þannig skal því rita: *lags, vegs,* eig. eint. af *lag, vegur; flaksa,* af *flak,* o. s. frv.

Þau orð, sem því skal með *x* rita, eru þau að eins, er nú skal greina, og svo þau, er af þeim kunna að vera leidd, eða skeytt saman við þau:

*ax* á korni;
að *axla* (af *öxl*); *baraxlaður;*
*öx, öxi;*
að *öxa,* höggva (Fms. II, 223);
*öxull;*
*öxl;*
*öxn* = *yxn;*
*ex* (nafnið á stafnum);
*oxi* (= *uxi*);
(að *æxa*), *æxti, æxtu, æxtur;* sjá 10. gr.
*æxl* og *æxli;*
að *æxla;*
*æxlingur;*
*uxi;*
*yxn;*
*yxni;*
*yxna* (um kýr);
*jaxl;*
*hixti;*
að *hixta;*
*taxti;*
*lax;*
*sax,* sverð, sveðja; 2) kinnungur á skipi;
að *saxa;*
*Saxar* (þjóðarheiti);
*Saxland;*
*saxlenzkur;*
*saxneskur;*
*söx; ljósasöx;*

*sex; sextíu; sextugur;*
*sextán; sextándi;*
*lynxdýr,* gaupi eða gaupa (á dönsku *Los*);
*buxur* (rjettara er *brækur*);
*fax* á hesti;
*faxi; Ginfaxi; Glőfaxi:*
*föxóttur; glóföxóttur;*
*fextur;*
*fox; kaupfox;*
*vax* (*cera;* á dönsku *Vox*);
að *vaxa* (*vaxinn, hávaxinn, riðvaxinn,* o. s frv.);
*vaxta* í *frumvaxta, gjafvaxta,* o. s. frv.;
*vöxtur;*
að *vexa,* draga vax á;
að *vexa*[1], auka;
*víxl;*
að *víxla* (*víxlaður*);
*víxlun.*

Margir rita og *að hneyxla, hneyxli, hneyxlun;* en þessi orð virðast leidd af *hneykja,* og því er rjettast að rita þau með *ks: hneyksla, hneyksli, hneykslun.*

Athugasemd. *Í fornum ritum Íslendinga má finna þess mörg dæmi, að önnur orð sjeu rituð með* x, *en þau, sem hjer eru talin, og er þá ritað eptir framburði, en eigi virðist svo, sem þeir hafi ætlazt til, að það væri stöðug eða almenn regla. Sjá Frump. 102—104.*

## 32. grein.

## Um p.

*p* í upphafi orðs og samstöfu hefur ávallt skýrt atkvæði, og eins í enda atkvæðis á eptir alla hljóðstafi, og samhljóðendurna *r, l,* en aptur á hinn bóginn verður eigi af framburðinum einum með vissu ráðið, hvort rita skuli *p* eða þá *f, b,* eða *v,* ef á eptir

[1]) *Sn.-Ed. I, 498:* brim vexti = *brimið óx.*

fer í sömu samstöfu *t* eða *s*, eða hvort rita skuli *p* eða *pp*, ef samhljóðandi fer næst á eptir í sömu samstöfu, og því skal hjer nokkur grein á því gjör.

I. *p* skal ávallt rita fyrir framan *t* í þeim orðum, þar sem *t* er ending, og *p* kemur í ljós í meginhlutanum, eða í þeim myndum, þar sem *t* hverfur burt. Á þetta sjer stað:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni þeirra einkunna, er meginhlutinn, eða gjör. eint. í kvennkyni endar á *p*; þannig t. a. m.: *greypt,* af *greypur, gljúpt,* af *gljúpur;*

2. í þál. tíma, sagnarbót og hluttekningarorðum lið. tíma þeirra sagna, er hafa *p* í meginhlutanum, enda má það sjá á nafnhætti og nál. tíma framsöguháttar; þannig t. a. m.:

*glepja, glapti, glapt, glaptur;*
*gleypa, gleypti, gleypt, gleyptur;*
*skapa, skapti, skapt, skaptur.*

II. Á undan *t* skal ávallt rita *p* í öllum þeim orðum, þar sem báðir stafirnir heyra meginhluta til, eða með öðrum orðum, alstaðar þar, sem *t* helzt í allri beygingu orðsins, ef hljóðstafur fer á undan, og þá eins í þeim orðum, sem eru óbeygjanleg, eða atviksorðum, samtengingarorðum og fyrirsetningum. Mega menn alls eigi láta það villa sjer sjónir, þótt þess konar orð virðist vera dregin af öðrum orðum, er *f* hafa; því að það er eðli tungunnar að öllu samkvæmt, að linur dumbur eða þjótur breytist í harðan, ef harður fer á eptir; sbr. það, sem sagt er um *k* og *g;* enda hafa fornmenn þá reglu hvað optast, að rita *pt*, en eigi *ft* í þeim orðum. Þannig skal því rita t. a. m.: *aptur, eptir*[1], *skript* (þótt það sje leitt af *skrifa*), *gipta, skapt, skepta, hepti, hepta,* o. s. frv.

Mönnum finnst það, ef til vill, undarlegt sökum vana, að rita

---

[1]) *Að þessum orðum er kveðið í daglegum framburði, eins og* tt *stæði fyrir* pt, *og sagt* attur, ettir, *og eins í samsetningum,* t. a. m.: langsettir *fyrir* langs eptir, *en eigi þykir þó svo ritandi, nema hjá skáldum, ef rím heimtar, og þó ber það að forðast, ef verður, eða þá ef stælt er eptir framburðinum; (sbr:* hrífan ljett mjer ettir. *J. Hallgrímsson).*

*ellepti, dript. svipt* (í *kreunsvipt, karlsvipt*), eða *sypt* (eins og það er stundum ritað í fornum bókum), *veptur*, með því að frumorðin hafa *f* í sjer (*ellefu, drifum, svifum, vefur*), og vilja heldur rita *ellefti, svift, veftur*, enda þótt þeir annars fylgi reglu þeirri, er þegar var greind; en það er þó reyndar eigi alls kostar rjett, hvort sem heldur er litið á framburð eða eðli málsins; enda má þess finna mörg dœmi í fornum ritum, að *p* er ritað í þessum orðum; þannig t. a. m. *ellepti*, Grímnism. 16. er.; *ellipta*, Snorra-Edda I, 612, II, 378. Aptur á hinn bóginn hefur það verið venja, að rita *f* á undan *t*, ef *t* heyrir beygingarendingu til, en orðið hefur *f*, en eigi *p*, í stofni sínum, og rita því *haft*, af *hafa*, enda þótt það í alla staði væri rjett og tungunni samkvæmt, að rita þar *p* fyrir *f*, er *t* fer næst á eptir í sömu samstöfu.

Ef samhljóðandi (*l*) fer á undan *ft* er nokkru öðru máli að gegna, sökum þess að *f* eða *p* hverfur í framburðinum, eða því nær, og ef menn tala svo skýrt, að *f* eða *p* verði heyranlegt, þá virðist svo, sem heldur heyrist *f* en *p*, og því virðist eigi rangt, þótt menn riti þess konar orð eptir uppruna, og riti *f* í þeim orðum, er *f* er í frumorðinu, og vanalegast eru ritin *f*; þannig t. a. m.:

| | |
|---|---|
| *elfting;* | *tólftungur;* |
| *helft;* | *tylft;* |
| *hvilft;* | *skjálfti*[1]. |
| *tólfti;* | |

Þó er ávallt ritað *álpt*, en rjettast væri að rita öll orðin eins.

III. Fyrir framan *s* skal rita *p:*

1. í öllum þeim orðum, sem *s* er ending, og *p* kemur fram í meginhlutanum, og má það sjá, þar sem endingin hvorki er *s* eða *t*. Á það sjer stað:

a) í eig. eint. nokkurra karlkenndra nafna, og sjest það á

---

[1]) *Fornmenn rita opt* p *fyrir* f *millum tveggja samhljóðanda, og það eins, þótt* t *sje ending; þannig t. a. m.* tólpta, *Sn.-Ed. I, 612, Fms. X, 256;* tylpt, *Fms. VIII, 322, Nj. 145;* landsciolptum, *Frump. 231;* þurptu, *Sn.-Ed. I, 354;* þurpt, *Grág. II. 151, ó s. frv.*

þol. eint. og öðrum föllum, ef *p* er í meginhlutanum; þannig t. a. m.: *glóps*, af *glóp-ur*, *kóps*, af *kóp-ur*, *svips*, af *svip-ur*, *laups*, af *laupur*;

b) í eig. eint. nokkurra hvorugkynsorða, enda kemur *p* þar ljóslega fram þegar í gjör. eint.; t. a. m.: *skips*, af *skip*, *hlaups*, af *hlaup*, *ops*, af *op*.

Sömu reglu skal og fylgja, þótt samhljóðandi fari á undan *p*; þannig t. a. m.: *hvolps*, af *hvolpur* (en *hvolfs*, af *hvolf*), *skolps* af *skolp*, og sjest það enn þegar í gjör eint., ef *p* er í meginhlutanum.

2. Þá skal og rita *ps*, en eigi *fs* í þeim orðum, er nú skal greina, þar sem báðir stafirnir heyra meginhlutanum til, og haldast í öllum myndum orðsins:

að *apsast*;
*apsalegur*;
*apsi*;
*ups*, og *Upsar* (bœjarnafn);
*upsi*;
*kraps*;
að *krapsa*;
*krapstur*;
*gleps*;
að *glepsa*;
*hveppsinn*;
*hveppsni*;
*leppsa* (af *leppur*);
*bopps*;
að *boppsa*.

Þá er það enn, að eigi er framburðurinn einhlítur, til að leiðbeina mönnum í því, hvort rita skuli *p* eða *pp*, ef samhljóðandi fer á eptir. En ef hljóðstafur fer á eptir, er hljóðið skýrt.

I. Á undan *t* skal því að eins rita *pp*, að *t* heyri beygingarendingunni til, enda komi *pp* skýrt fram í meginhlutanum, eða þar sem *t* eigi fer á eptir; og því skal rita *pp* á undan *t*:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, er meg-

inhluti þeirra, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *pp;* þannig t. a. m.: *slyppt,* af *slyppur, krappt,* af *krappur,* o. s. frv.;

2. í þál. tíma, sagnarbót og hluttekningarorðum líð. tíma þeirra sagna, er *pp* hafa í meginhluta, en það sjest á nafnhætti og ýmsum öðrum myndum þeirra; þannig t. a. m.:

*klippa, klippti, klippt, klipptur;*
*kreppa, kreppti, kreppt, kreppttur;*
*hreppa, hreppti, hreppt, hrepptur.*

II. Fyrir framan *s* er eigi gjörður skýr munur á *p* og *pp,* en enn skal fylgja þeirri reglu, að rita þar *pp,* er svo er í meginhlutanum, og á það sjer stað:

1. í eig. eint. nokkurra karlkenndra nafna, er meginhluti þeirra, eða þol. eint., endar á *pp;* þannig t. a. m.: *lepps,* af *leppur, grepps,* af *greppur,* o. s. frv.;

2. í eig. eint. hvorugkynsorða, þar sem *pp* er heyranlegt þegar í gjör. eint., og eins í öllum öðrum föllum, eins og t. a. m.: *happs,* af *happ, kapps,* af *kapp, vapps* af *vapp, slapps,* af *slapp,* o. s. frv.;

3. í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni einkunna þeirra, er meginhluti þeirra, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *pp;* þannig t. a. m.: *krapps,* af *krappur, kröpp; slypps,* af *slyppur,* o. s. frv.;

4. í þessum orðum: *hveppsinn, hveppsni*[1], *bopps*[2], að *boppsa*[2].

III. Fyrir framan *l* á *pp* sjer einungis stað í *krypplingur,* en eigi í neinu öðru orði, það jeg man (nema það væri *hvapplingur;* sjá það, sem sagt er um það orð í 21. gr.), heldur að eins *p,* enda sýna mörg þeirra það sjálf í þeim föllum sínum, er *p* og *l* greinast að; því skal rita: *epli; köplum, kapla* (af *kapall*); *deplum, depla* (af *depill*), o. s. frv.

IV. Á undan *r* á *pp* sjer einungis stað í nokkrum einkunnum í þeim föllunum, er endingin hefst á *r,* en það er í þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, og í eig. fleirt., enda er það bæði, að skýr er munur á *p* og *pp* í framburðinum, þótt *r* fari á eptir, og líka sjest það ljóst á öðrum föllum þeirra orða, ef *pp* skal rita; þann-

[1]) *Sbr. 21. gr.*

[2]) *Sbr. á dönsku* Bomp *eða* Bump, *dynkur.*

ig t. a. m.: *krappri, krapprar, krappra,* af *krappur,* en *dapra, daprar,* o. s. frv., af *dapur.*

V. *pp* skal og rita á undan *n,* þar sem uppruni bendir til. Þannig skal því *pp* rita:

1. í þiggj. eint. nokkurra karlkenndra nafna, er meginhluti þeirra, eða þolandi, endar á *pp,* ef greinirinn er skeyttur við, og þiggjanda-endingunni *i* er sleppt, eins og t. a. m.: *leppnum, greppnum, hreppnum,* af *leppur, greppur hreppur,* o. s. frv.;

2. í öllum hinum samandregnu myndum (þ. e. þol. eint. í kvennkyni, þiggj. eint. í karlkyni og hvorugkyni, gjör. og þol. í karlkyni og kvennkyni fleirt., og í þiggj. fleirt. í öllum kynjum) þeirra einkunna, er enda á *in* í gjör. eint. í kvennkyni, og *pp* er heyranlegt í því falli, og þá líka í sömu föllum hluttekningarorða lið. tíma, er þau enda á *inn, in, ið,* ef *pp* er í meginhlutanum, eða gjör. eint. í kvennkyni; þannig t. a. m.: *heppna, heppnar, heppnu, heppnum,* af *heppinn; skroppna, skroppnar, skroppnir, skroppnu, skroppnum,* af *skroppinn,* o. s. frv.

3. Þessi orð skal og rita með *pp,* með því þau eru leidd af frumorðum þeim, er *pp* hafa í sjer:

*keppni;*
að *kroppna;*
*heppni.*

Í öðrum orðum en þeim, sem þegar voru greind, skal *p* að eins rita, t. a. m.: *vopn,* að *vopna,* o. s. frv.

Þá er venjulega sagt *bringsmalir,* fyrir *bringspalir,* og hefur þar *p* breytzt í *m,* líklega vegna þess, að orðið *spölur* (= *spelur*) hefur gleymzt, og orðið því eigi skilizt, en menn hafa ímyndað sjer, að orðið mundi vera myndað af *bringa* og *malir,* sem þó eigi er.

Að *p* verði óheyranlegt í framburðinum, mun mjög sjaldan, nema millum *l* og *t;* sjá hjer á undan.

Það hefur verið, og mun vera almenn skoðun á orðinu *þröskuldur,* að það eigi að rita *þrepskjöldur;* en það er að minnsta kosti mjög óvíst; miklu líkara virðist mjer, að það sje beinlínis leitt af

engilsaxneska orðinu *prescold* eða *perso-old*[1] = *þröskuldur*, og er það í *J. Bosworths* engilsaxnesku orðabók talið samsett af *persc-an*[2] = *berja*, og *wald* = *viður*; enda virðist ritháttur fornmanna á þessu orði benda til hins sama, þar sem það er ritað *presköldr*, Sn.-Ed. I, 106; *preskolldr*, Sn.-Ed. II, 271; *preskǫlldr*, Sn.-Ed. II, 122; *præskǫlldr*, Sn.-Ed. II, 412; *preskǫlldr*, Sn.-Ed. II, 494; *preskeldr*, Fóstbr. 68; sbr. á dönsku *Tærskel*; á sænsku *tröskel*; á ensku *threshold*.

## 33. grein.

## Um b.

Þessi stafur getur staðið:

1. í byrjun orðs eða atkvæðis, en í byrjun atkvæðis í miðju orði þó því að eins, að það sje í samskeyttum orðum, og hefst þá síðari hluti samskeytingsins á *b*, enda hefur það þá ávallt skýrt hljóð; þannig t. a. m.: *barn*, *burður*, *hvolpaburður*, o. s. frv.;

2. í miðju atkvæði, en þá fer ávallt *m* á undan, en *t*, *d*, *s*, *z*, eða *l* á eptir; en þegar svo stendur á, verður *b* eigi heyranlegt í framburðinum, og verða menn því að gæta þess, að láta þá *b* eigi falla úr.

Á undan *t* eða *d* á *b* sjer einungis stað í sögnum, og má sjá það á nafnhætti, ef *b* skal í vera, enda má þá eigi sleppa því í öðrum myndum, ef það verður þar heyranlegt; þannig t. a. m.: *kembdi*, *kembt*, *kembdur*, af *kemba*.

Á undan *s* á *b* sjer stað:

*a)* í eig. eint. nokkurra karlkenndra nafna og hvorugkynsnafna, og má sjá það þegar í gjör. eint., ef *b* er, með því þar verður hljóðið ljóst, er hljóðstafur fer á eptir eða ekki neitt; og skal því rita *kambs*, *drumbs*, *lambs*, af *kambur*, *drumbur*, *lamb*.

---

[1]) *Aðrar myndir þessa orðs í engilsaxnesku eru:* þersc-wald, þerx-old, þeorsc-wold, þyrsc-wold, þresc-wald, þerx-wold, þærsc-wald.

[2]) *Á hollenzku:* dorschen *og* derschen; *á þýzku* dreschen (= *preskja*); *á dönsku* tærske; *á sænsku* tröske; *á íslenzku* þreskja.

*b)* *b* getur átt sjer stað í 2. pers. eint. skipunarháttar í þolbreytingu sagna þeirra, er *b* er í stofni þeirra; þannig t. a. m.: *kembstu,* en þær myndir munu mjög sjaldhafðar.

Á undan *z* á *b* sjer stað einungis í sagnarbót þolbreytingar þeirra sagna, er *b* verður heyranlegt í í nafnhætti áhrifssagnar; þannig t. a. m.: *kembzt,* af *kemba, lembzt,* af *lemba.*

Á undan *l* mun *b* að eins eiga sjer stað í fáum orðum, og heyra þá báðir stafirnir meginhlutanum til, og munu þessi hin helztu:

*kumbl* (*örkumbl; heykumbl; herkumbl;* á engilsaxnesku *cumbel, cumbol, cumbul, cumbl* = merki);

*sumbl* (= drykkur, og drykkja; á engilsaxnesku *symbel* = gildi, veizla).

Enn fremur skal rita *mbl* í þeim föllunum af *kimbill,* þar sem endingin hefst á hljóðstaf: *kimbli, kimblar, kimbla, kimblum, kimblabönd* (Sn.-Ed. I, 672 og 674; þó er líka ritað *kimlabönd* í sömu bók, bls. 674, og mun það eigi eins rjett).

Að rita *ambtvistast, ambstra, ambstur, ambl, ambla, amblóði,* mun með öllu óþarft, ef eigi með öllu rangt. Eins er að minnsta kosti óþarfi, að rita *ambbaga, ambbögulegur,* fyrir *ambaga, ambögulegur.*

3. Í enda orðs eða atkvæðis á *b* sjer að eins stað á eptir *m,* eða annað *b* (*bb*), og er þá hljóðið ávallt ljóst; þannig t. a. m.: *kambur, lamb, kemba, gabb, gabba, nabbi, lubbi,* o. s. frv.

Fyrir framan *b* breytist *f* í fyrirsögninni *af* í framburði opt í *b,* eins og t. a. m. þegar sagt er: *abbaka, abbötun* (fyrir *afbaka, afbötun*), en eigi skal svo rita; sjá 34. gr.

Sumir rita *bl* og *bn* í ýmsum orðum fyrir *fl* og *fn,* en um þann rithátt verður talað í næstu grein hjer á eptir.

Athugasemd. *Fornmenn rita opt* b *á eptir* r *og* l *fyrir* f, *t. a. m.:* umverbis = *umhverfis,* kólbur = *kólfur, o. s. frv. Sjá Frump. 211—212.*

## 34. grein.

### Um f.

Þessi stafur hefur eptir venjulegum rithætti ferfallt hljóð í framburði vorum, þ. e. eins og *f, v, b, p*.

Í byrjun orðs eða atkvæðis hefur það hart hljóð, enda skýrt atkvæði, eins og t. a. m. í *falla, fól, fullt, fylla*. Þó er *f* í sumum orðum orðið að *h*, t. a. m.: *hnykur, hnjóskur*, fyrir *fnykur, fnjóskur*.

Í miðju atkvæðis á undan *g* og *j* hefur *f* sama hljóð og *v*, en ávallt skal þar *f* rita, nema því að eins, að orðið sje leitt af öðru því orði, er meginhluti þess endar á hljóðstaf; þannig t. a. m. *lífga, höfgi, hefja, stefjum*; en *sljóvga* (af *sljó-r*); *f* á undan *t* hefur sama atkvæði og *p*, og því er það regla, að rita þar ávallt *p*, er báðir stafirnir heyra meginhluta orðsins til, eins og áður er sagt, en því að eins *f*, ef *t* er beygingarending, og *f* er í meginhlutanum, og því skal rita *f*:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna þeirra, er gjör. eint. í kvennkyni endar á *f*, eins og t. a. m.: *kleyft*, af *kleyfur, ríft*, af *rífur*, o. s. frv.;

2. í sagnarbót og hvorugkyni hluttekningarorða lið. tíma sagna þeirra, er *f* hafa að niðurlagi meginhluta, og má það sjá á nafnhætti; þannig t. a. m.: *haft*, af *hafa, hreift*, af *hreifa, leyft*, af *leyfa*, o. s. frv.

Á undan *ð* hefur *f* enn líkt hljóð og *v*, og er það föst regla og óhagganleg, að rita aldrei *v* á undan nokkrum samhljóðanda í miðju eða enda atkvæðis, nema í afleiddum orðum, er meginhluti frumorðsins endar á hljóðstaf, heldur skal þar ávallt *f* rita, til að tákna með það hljóð. Aptur á hinn bóginn munu sumir Vestfirðingar, og ef til vill fleiri, kveða að *f* á undan *ð* fremur hart, eins og *b* stæði; en það er heldur ekkert orð í íslenzku, að *b* eigi sjer stað í á undan samhljóðanda, nema því að eins, að *m* fari á undan því, og því er enn reglan óhögguð, ávallt að rita *f* á undan *ð*, enda þótt *b* kunni að heyrast; kemur *f* og opt í ljós í ýmsum myndum orðanna, eða öðrum skyldum orðum, með því *f* verður þar skýrt í framburðinum, og því skal rita: *leyfði*,

*hafði, hefð,* o. s. frv., af *leyfa, hafa.* Sömuleiðis skal og rita *f* á undan *d,* ef *l* fer á undan, þótt annað hljóð kunni að heyrast; sjá síðar, þegar talað verður um þá samstöfun.

Þá er það enn, ef *f* stendur á undan *l* eða *n,* svo að báðir stafirnir heyra sömu samstöfu til, að þá hefur það miklu harðara atkvæði en ella, eða sama atkvæði og *b* stæði, eða jafnvel *bb,* enda rita margir *b* á undan *l,* þegar svo heyrist, en fæstir nema í einstöku orðum; þeir rita *biblía, tabla,* o. s. frv., og bera fyrir sig upprunann. Þegar litið er á eðli hinnar íslenzku tungu, virðist í raun rjettri ekkert því til fyrirstöðu, að rita *b* á undan *l* eða *n* fyrir *f*; því að það er eðli hverrar tungu, að einn samhljóðandi breytist í annan, ef hljóðfegurð heimtar; en á hinn bóginn virðist alls engin ástæða til, að rita *b* í sumum þessara orða, en *f* í sumum, með því hljóðið er hið sama, en hjer ritum vjer íslenzku, en eigi aðrar tungur; og opt er það, að sinn er stafurinn hafður í hverri tungunni, þótt orðið sje í rauninni hið sama; þannig rita Þjóðverjar *Tafel,* þar sem Latínumenn rituðu *tabula,* og Englendingar *table,* og er þó auðsjeð, að það er sama orðið. Og hver getur sagt, að íslenzka orðið *tafla* sje fremur leitt af latínska orðinu en hinu þýzka, nema síður sje? Þess ber og að gæta, að *f* er opt komið fram af *m,* eða að vjer höfum *f* á undan *n,* þar sem *m* er í öðrum tungum, eins og t. a. m. í *nafn,* á þýzku *Namen,* á latínu *nomen,* á sænsku *namn,* og þá ætti líka að rita þess konar orð með *m,* eins og fornmenn stundum gjöra, rita *namn, jamn,* o. s. frv.; en sú regla hefur þó aldrei verið höfð, og mundi nú þykja nokkuð skrítileg. Nú er um tvennt að velja, hvort heldur rita skuli *bl* og *bn* eptir framburði, eða *fl* og *fn.* Fornmenn rituðu jafnaðarlegast *fl* og *fn,* og sá ritháttur hefur náð helgi og festu í tungunni, enda mundi það allmikinn slóða eptir sjer draga, ef farið væri að breyta þessum rithætti; því að þá ætti framburðurinn að ráða í fleirum greinum, og því skal ávallt rita *fl* og *fn,* þar sem atkvæðið eptir framburðinum virðist vera *bl* eða *bn,* og báðir stafirnir heyra meginhluta til, og rita t. a. m.: *afl, afla, tafl, tefla, efni, efna, höfn, hafna,* o. s. frv.

Sama rithætti skal og fylgja, þótt *t* eða *d* fari á eptir, rita *f*, en eigi *b*, t. a. m.: *efldi, nefndi,* o. s. frv.

Um *fl* er það þó aðgæzluvert, að í framburðinum er enginn munur á gjör, hvort það er heldur *fl* eða *lf*, er *t* eða *d* fer næst á eptir; það er skipt um stafina, og hvortveggja samstöfunin borin fram, eins og *l* stæði fyr en *f*, og kemur það fram í sögnum; en sjá má það á nafnhætti, hvor stafurinn fyr skal standa, með því þar verður hljóðið ljóst, en eins skulu stafirnir settir ávallt í hverju orði fyrir sig, þannig skal rita:

| | |
|---|---|
| *efla, efldi, eflt, efldur;* | *ylfa, ylfdi, ylft;* |
| *kefla, kefldi, keflt* (af *kefli*); | en: *kelfa, kelfdi, kelft, kelfdur* (af *kálfur*); |
| *tefla, tefldi, teflt;* | *hvolfa, hvolfdi, hvolft, hvolfdur,* eða: *hvelfa, hvelfdi, hvelft, hvelfdur;* |
| *skefla, skefldi, skeflt* (af *skafl*); | *skelfa, skelfdi, skelft, skelfdur* (*óskelfdur;* af *skalf*). |

Eins skal og rita *hvilft;* en *skýflt* í *heyskýflt, liðskýflt, búskýflt,* o. s. frv. Líkt fer og um hljóðið í *fíflska, fíflskur,* að eigi er glöggur munur á, hvort *f* eða *l* stendur fyr, en það er *f*.

Sökum atkvæðis þess, er *f* hefur á undan *l*, er það orðið, að vjer nú segjum, og jafnvel ritum: *að fipla,* fyrir hið upphaflega *að fífla,* og er rjettara að rita svo.

*fn* hefur sama atkvæði í framburði vorum og *m*, ef *t* eða *d* fer á eptir, og er því varhugavert, að láta eigi hljóðið villa sig, heldur skal þar *fn* rita, er uppruni er til, og þannig skal *fn* rita:

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni þeirra einkunna, er *fn* (*bn*) verður heyranlegt í gjör. eint. í karlkyni og kvennkyni, eins og t. a. m.: *jafnt,* af *jafn;*

2. í þál. tíð, sagnarbót og hluttekningarorðum lið. tíma þeirra sagna, er *fn* (*bn*) verður heyranlegt í framburðinum; þannig t. a. m.:

*hefna, hefndi, hefnt;*
*stefna, stefndi, stefnt, stefndur;*
*nefna, nefndi, nefnt, nefndur;*

en á hinn bóginn: *semja, samdi, semdi,* o. s. frv.;
*kemba, kembdi, kembt, kembdur,* o. s. frv.;

3. í nöfnum þeim, sem leidd eru af öðrum orðum, er *fn* hafa í sjer, t. a. m.: *efnd, hefnd, nefnd.*

Fyrir framan *s* hefur og *f* sama hljóð og *p*, og skal þar rita *f*, sem *f* kemur fram í meginhlutanum, þegar *s* hverfur burtu; er það:

1. í eig. eint. karlkenndra nafna, þar sem meginhlutinn, eða þol. eint., endar á *f*, eins og t. a. m.: *hleifs, refs, vefs,* af *hleifur, rifur, vefur;* en aptur *kóps,* af *kópur;*

2. í eig. eint. hvorugkynsnafna, er gjör. eint. endar á *f;* þannig t. a. m.: *hófs, rifs, vífs,* af *hóf, rif, víf,* o. s. frv.; en *hóps* af *hóp;*

3. í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni þeirra einkunna, er meginhluti þeirra, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *f*; þannig t. a. m.: *kleyfs,* af *kleyfur, hreifs,* af *hreifur, rífs,* af *rífur,* o. s. frv.;

4. í 2. pers. eint. þál. tíma þeirra sagna, er 1. pers. endar á *f;* þannig t. a. m.: *jeg reif, þú reifst; jeg skóf, þú skófst,* o. s. frv. (en *skópst,* af *skapa*);

5. í þeim myndum þolsagnar, er tilsvarandi mynd í áhrifssögn endar á *ur*, eða er endingarlaus, og meginhluti sagnarinnar endar á *f*, þannig t. a. m.: *jeg hrífst, þú hrífst,* o. s. frv.;

6. í þeim orðum, er nú skulu greind, þar sem báðir stafirnir heyra meginhluta orðsins til:

*ofsi;*
að *hnefsa* (= sníða, Fms. V, 27);
*hrifs;*[1]
að *hrifsa;*
*tafs;*
að *tafsa;*
að *snefsa;*
*snefsi;*
*snefsinn;*
*snefsni;*
að *refsa;*

[1]) *Í Fms. XI, 252, ritað* hrips.

*refsing;*
*vafs;*
að *vafsa.*

Fyrir framan *z* á *f* sjer að eins stað í þolsagnarbót þeirra sagna, er meginhluti þeirra endar á *f*, en það má sjá á nafnhætti, enda skal og þá *f* rita í sagnarbótinni, ef það er í nafnhætti; þannig t. a. m.: ***að hreifa, heifzt; svæfa, svæfzt.***

Þá ber þess enn að gæta, að láta ekki *f* falla úr í riti, þar sem það á að standa að rjettu lagi, með því það einatt verður óheyranlegt, eða mjög óljóst, í framburðinum millum tveggja samhljóðanda, og verður því vel að gæta að öðrum myndum orðanna, þar sem annaðhvort hljóðstafur fer á eptir eða ekki neitt; því að þá verður *f* heyranlegt, ef það á í að vera, og sumstaðar verður að gæta að frumorðunum, en hvergi skal *f* úr falla, er það á að standa eptir uppruna; því skal rita t. a. m.: *hvirfli, hvirflar,* af *hvirfill;* að *hvirfla; hvolfdi, hvolft,* af *hvolfa;* að *hálfna,* af *hálfur; þurfti, þurft,* af *þurfa;* að *þarfnast,* af *þörf; þurft,* af *þurfa; nirfli, nirflum,* af *nirfill;* að *nirfla*[1]. Og jafnvel er það, að *f* verður óheyranlegt í hversdagslegum framburði í samsettum orðum, er samhljóðandi fer næst á undan því, og síðari hluti samskeytingsins hefst á samhljóðanda, og verður því að gæta að, af hverjum orðum samsetta orðið er myndað, og rita óskertan meginhluta fyrri hluta samskeytingsins; þannig t. a. m.: *hálf-mörk, hálf-vegis, hálf-virði,* o. s. frv.

Eitt er það, að *m* hefur breytzt í *f* í *gófla,* fyrir *gómla* (af *gómur),* og aptur á hinn bóginn hefur *f* breytzt í *m* í enda atkvæðis í orðinu *helmingur,* fyrir *helfingur* (af *halfur* = *hálfur),* og virðist það óþarfi, að halda hinum upprunalegu myndum þessara orða, með því þess eru svo mýmörg dæmi í íslenzku, að *f* er komið í staðinn fyrir *m,* og *m* á hinn bóginn í staðinn fyrir *f,* og því er rjett að rita *gófla* og *helmingur.*

---

[1]) *Fornmenn hafa haft sama atkvæði á þessum samstöfunum og vjer, og því er það, að* f *fellur stundum úr hjá þeim, og að þeir rita t. a. m.* þarnast.

Þegar aptur á móti er sagt *ónn* (*óddn*) fyrir *ofn*, þá er það afbökun úr dönskunni, og skal eigi svo rita, heldur ávallt *ofn*.

Í enda atkvæðis, hvort heldur er í miðju orðs eða enda, hefur *f* sama hljóð og *v*, og er því aðgæzluvert, að rita þar eigi *v*, er *f* skal rita, en *f* er það ávallt, ef það heyrir meginhlutanum til, en er eigi skotið inn; þannig t. a. m.: *rif, rifa, sef, nef, leyfi, gáfum*, o. s. frv., enda helzt það í öllum myndum orðsins, hvort sem það stendur að niðurlagi eða eigi, þar sem *v* að eins kemur fram í sumum myndum orðsins, eða þar sem hljóðstafur fylgir á eptir, eins og t. a. m.: *sjár, sær, sjá, sæ, sjávar, sævar;* sbr. 35. gr. Aptur er það, að *f* í fyrirsögninni *af* tillíkist í framburðinum eptirfarandi *b* í samskeyttum orðum, þannig, að vjer segjum t. a. m.: *abbaka, abbötun, abbragð*[1], en eigi skal þó svo rita, heldur ávallt *afbaka, afbötun, afbragð*, o. s. frv.; eins er og sagt *ribbaldi* fyrir *rifbaldi*.

Í sumum orðum, og þó eigi mörgum, er *f* fallið burt í framburðinum síðast í atkvæði, þar sem þó væri rjettara að rita það, bæði eptir fornri venju og eðli málsins, en þessi orð eru: *húfa, hróf, lófi, rófa*, enda þótt almennt sje í tali: *húa, hró, lói, róa*.

## 35. grein.
## Um v.

*v* á sjer stað í íslenzkri tungu í upphafi orðs, og þá líka í byrjun síðari hluta samskeyttra orða, en það er og í enda samstöfu á eptir *k, g, s, l, r*, og eptir hljóðstaf.

Með því að *v* upphaflega er sami stafurinn og *u*, hverfur það í þeim orðum, þar sem *a, e*, eða *i* breytist í *u, o, y* næst á eptir því, t. a. m.: *hverfa, hvarf, hurfum, hyrfi, horfið; verða, varð, urðum, yrði, orðið*, o. s. frv., og er eigi rjett að rita: *vurðum, vyrði, vorðið*, o. s. frv., enda þótt þess finnist dæmi í fornum bókum. Öðru máli er að gegna, þar sem nú er *o*, en áður hefur verið *á*, t. a. m. *vor, svo*, o. s. frv.

---

[1]) *Í fornum bókum finnast reyndar þess mörg dæmi, að þess konar orð eru rituð eptir framburði; þannig t. a. m.* abbragðlict, *Fms. X, 230.*

Í byrjun orða hefur *v* ávallt skýrt hljóð, t. a. m. *varúð, vera,* o. s. frv. Í miðju orði eða enda orðs eða atkvæðis verður hljóðið eigi skýrt, með því að *f* hefur þar sama hljóð og *v,* enda er opt ritað *f,* er *v* skyldi rita, bæði að fornu og nýju, og verður því að gæta að, hvort *v*-hljóðið heyrir meginhlutanum til eða eigi, eða hvort orðið er samsett eða ósamsett; því að heyri *v*-hljóðið meginhlutanum til, þá skal rita *f,* en eigi *v;* en komi það fram að eins í sumum myndum orðsins, þá skal rita *v.* En sje orðið samsett, þá verður hljóðið skýrt, hvort *f* skal rita eða *v,* ef samskeytta orðið er tekið í sundur, t. a. m. *há-vella, há-var.* Þau orð eru og, að *v* í enda atkvæðis helzt í öllum myndum.

Hvar *v* skuli rita eptir *k* og *g,* segir framburðurinn sjálfur glöggt til; en það á sjer stað:

1. í fáeinum nöfnum, þar sem *v* helzt í allri beygingunni, t. a. m. *vökvi, myrkvi,* o. s. frv.;

2. í sögnum, í sumum að eins í sumum myndum, en í öðrum í öllum myndum; þannig t. a. m.: *höggva, högg, hjó, höggvinn; hrökkva, hrökk, hrokkinn; sökkva, sökkvi, sökkti, sökkt; glöggva, glöggvaði, glöggvað;*

3. í nokkrum nöfnum, t. a. m.: *söngur,* í þiggj. eint. *söngvi,* ef sú mynd er annars höfð, og fleirt. *söngvar, söngva, söngvum; skrök,* þiggj. eint. *skrökvi.* Enn fremur í einkunnum, sem *ö* (hljóðvarp af *a*) hafa í meginhluta sínum, þar sem endingin hefst á *a* eða *i,* t. a. m. *dökkva, dökkvan, dökkvar, dökkvir.*

Að *v* er haft á eptir *k,* en undan *a* eða *i* í einkunnum þeim, sem *y* hafa í meginhlutanum, eins og t. a. m. *þykkvan, þykkvir,* fyrir *þykkan, þykkir* (af *þykkur*), *myrkvan, myrkvir,* fyrir *myrkan, myrkir* (af *myrkur*), er reyndar eigi með öllu rangt, en þó er rjettara að sleppa *v.*

Á eptir *s* hefur *v* ávallt skýrt hljóð, t. a. m.: *svar, svara, svil,* o. s. frv., enda er það sjaldan á eptir *s* síðast í atkvæði, t. a. m.: *hösvir* (= þjónn), að *hösvast* (= ráðast á). Í smáorðinu *svo* og *svona* er *v* opt úr fellt í daglegu tali, og skal þó aldrei rita *so* eða *sona.*

Á eptir *l* verður *v*-hljóðið eigi eins skýrt, eins og eptir *k* og

og *g*, og blandast meir *f*-hljóði, enda höfum vjer það nú að eins í fáeinum orðum:

1. í nokkrum sögnum, og helzt *v* þar í öllum myndum, og eru þær sagnir helztar: *mölva, bölva, fölva*;

2. í *ölvaður;*

3. Í nöfnum munum vjer nú í daglegu tali varla hafa *v* á eptir *l*, nema í orðinu *bölv*, og er það leitt af *böl*, enda heyrir *v* stofni orðsins til; því að það veldur því, að *ö* er komið (hljóðvarp af *a*). Í *böl* bœtist og *v* við í fornri íslenzku, þar sem endingin byrjar á *a* eða *i*, það er í þiggj. eint. og eig. fleirt.: *bölvi*[1], *bölva*. Í eig. fleirt. af *söl*, er vjer segjum optast *sölva*, skal og *v* rita. Í þiggj. fleirt. þessara orða er *v* aptur á móti eigi rjetthaft, og skal því rita *bölum* (af *böl*), *sölum*. Hjer má og telja orðið *brúnölvi*, fyrir *brúnvölvi*[2].

Á eptir *r* á *v* sjer stað að eins í nokkrum nöfnum, og er það einkenni þeirra orða, að *v* er eigi í gjör. eint. eða neinu því falli, sem endingarlaust er, eða þar sem endingin er samhljóðandi, en *v* kemur að eins þar fram, þar sem endingin byrjar á hljóðstaf, og er það:

1. í kvennkynsnafninu *ör*, er eig. eint. er *örvar*, og fleirt. *örvar, örva, örvum;*

2. í karlkynsnafninu *mör*, í þiggj. eint. og allri fleirt.: *mörvi, mörvar, mörva, mörvum, mörva;*

3. í þiggj. eint. af *fjör*, í orðtœkinu *fje* og *fjörvi*, og í málsháttum, t. a. m. *fje er fjörvi firr;*

4. í öllum þeim föllum af orðinu *gjör* (= gjörður), þar sem endingin byrjar á hljóðstaf, t. a. m.: *gjörva, gjörvir, gjörvar, gjörvum, gjörvu;* eins *hinn örvi, örva*, o. s. frv. (af *ör*);

5. í orðinu *sörvi* og *syrvi (steinasörvi)*.

Athugasemd. *Það er einkenni allra þeirra orða, er* v *skal rita í eptir samhljóðanda, að* ö *fer ávallt á undan, enda mun* u *upphaflega hafa heyrt frumorðinu til, og valdið hljóðvarpinu* a — ö; *en þetta* u *hefur fallið í burtu, þar sem annaðhvort eng-*

1) *Gkv. I, 20:* valda megir Gjúka mínu bölvi.
2) *Fms. XI, 114.*

*in ending fylgdi á eptir, eða endingin að eins er samhljóðandi, eða hefst á u.*

*v* skal ávallt rita, en eigi *f*, í þeim orðum, þar sem *v* er heyranlegt á millum tveggja hljóðstafa, og þetta hljóð á sjer eigi stað í meginhlutanum, eða með öðrum orðum, þar sem *v* kemur fram að eins í sumum myndum orðsins; mun það í raun rjettri heyra stofni orðsins til, en þó tekið upp í íslenzku til að forðast, að tveir hljóðstafir standi saman, og er það:

1. í sumum karlkenndum nöfnum, t. a. m. í eig. eint. af *sjár, sær; snjár, snær;* og því skal rita *sjávar, sævar; snjávar, snævar;* eins skal og rita þiggj. eint.: *sjávi, sævi; snjávi, snævi,* ef þær myndir eru hafðar, enda er rjett og stundum fegra, að hafa *sævi* og *snævi* (fyrir *sæ* og *snæ*). Orðinu *már* (fugl) höfum vjer nú breytt í *máfur,* en *már* er rjettari myndin, og skal þá rita þiggj. eint. *mávi,* fleirt. *mávar, máva, mávum, máva.* Mannsnafnið *Már* er sama orðið, og er þiggj. eint. af því *Mávi*[1].

2. Í ýmsum þeim einkunnum, er meginhluti þeirra endar á breiðan hljóðstaf, skjóta fornmenn inn *v*, þar sem endingin byrjar á hljóðstaf, *a* eða *i*, til að forðast samkomu tveggja hljóðstafa; eins og t. a. m.: *hávan, háva, hinn hávi,* af *hár* (*Hávamál*); *mjóvan, mjóva, hinn mjóvi,* o. s. frv., af *mjór;* enda er það rjett enn, þótt vjer gjörum það eigi í hversdaglegu tali.

3. Þá skal og rita *v*, en eigi *f*, ef framburðurinn heimtar, að annaðhvort skuli rita, í orðum, sem leidd eru af þeim orðum, þar sem *f* eigi er í meginhluta þeirra, t. a. m.: *snjóvga, frjóvga, sljóvga* (af *snjó-r, frjó-r, sljó-r*).

Í öllum þessum orðum, sem nú hafa verið greind um stund, rita fornmenn opt *f* í staðinn fyrir *v*, og sumir eru þeir, er vilja enn rita svo alstaðar, og sumir sumstaðar; en bæði er það, að *v* er miklu tíðara fornmönnum, enda miklu rjettara eptir eðli þessa stafs, og því skal

---

[1]) *Band. 42.:*
Brá ek ór slíðrum
skálm nýbrýndri,
þeirri lèt ek Mávi
á maga hvatað.

svo ávallt rita í þessum orðum, en eigi *f*. En ef *f* er haft sumstaðar, þá skal það og alstaðar hafa.

Athugasemd. *Fornmenn höfðu* v *víðar, þar sem endingin hefst á* a *eða* i, *en í þeim orðum, sem nú hafa verið talin, og þó helzt í skáldskap, bæði á eptir samhljóðanda, og á millum tveggja hljóðstafa; þannig t. a. m.:* öl, ölvi, ölva; högg, höggvi, höggva; hör, hörvi, hörvar, hörva *(bogastrengur);* hjör, hjörvi, hjörvar, hjörva, hjörva; lyng, lyngvi; mjöl, mjölvi, mjölva; fjör, fjörvi; hey, heyvi; hræ, hrævi, hræva; týr, tývar; þjó *(á ljá),* þjóvi; læ, lævi, læva; bör *(trjesheiti*[1], *og nafn föður Óðins),* börvar, börva; fræ, frævi, fræva. *Sum af þessum orðum höfum vjer alls eigi í daglegu tali, og úr sumum sleppum vjer* v, *og það enda þótt hljóðstafir tveir standi saman; þannig segjum vjer ávallt t. a. m.:* öli, heyi, hræi, lyngi, *o. s. frv. En skyldi svo vera, að einhver vildi hafa þessar fornu myndir, og skjóta inn staf,* f *eða* v, *eins og dæmi finnast til í skáldmælum merkra skálda á síðari öldum, þá er* v *rjetthafðara en* f.

## 36. grein.

## Um m.

Með því þessi stafur sjaldan missir hljóð sitt, svo að annar stafur heyrist, þar sem hann skyldi rita, þá er það hið helzta, sem um hann þarf að ræða, að gjöra grein fyrir því, hvort rita skuli *m* eða *mm,* með því enginn er mismunur hljóðsins á *m* og *mm* í miðju orða á undan *t, d, s, z, r,* í beygingarendingum, og svo í nokkrum fáeinum meginhlutum orða, er *m* er síðasti stafurinn, og grannur hljóðstafur fer á undan.

Hvar rita skuli *m,* eða *mm,* á undan *t* eða *d,* gildir sú regla, að þá skal rita *mm,* ef *mm* er í meginhluta orðsins; og skal því rita *mm:*

1. í gjör. og þol. eint. í hvorugkyni einkunna, er meginhluti þeirra, eða gjör. eint. í kvennkyni, endar á *mm;* þannig t. a. m.: *grimmt,* af *grimmur, skammt,* af *skammur,* o. s. frv.;

2. í þál. tíð, sagnarbót og hlutteknigarorðum lið. tíma þeirra sagna, þar sem *mm* verður heyranlegt í nafnhætti; þannig t. a. m.: *hremma, hremmdi, hremmt, hremmdur* (af *hramm-ur);*

[1]) *Sjá Sn.-Ed. I, 416.*

*skemma, skemmdi, skemmt, skemmdur (óskemmdur)*; eins skal þá og rita *mm* í skipunarhætti, er fornafnið *þú (du)* er skeytt aptan við sögnina; þannig t. a. m. *skemmdu.*

3. Í öllum þeim orðum, sem leidd eru af öðrum þeim orðum, er *mm* hafa í meginhlutanum, skal og rita *mm,* þótt *t* eða *d* fari á eptir; þannig t. a. m.:

| | |
|---|---|
| *grimmd;* | *fimmti;* |
| *skemmd;* | *fimmtán;* |
| að *skemmta;* | *fimmtándi;* |
| *skemmtun;* | *fimmtíu;* |
| *skemmtilegur;* | *fimmtugasti;* |
| *skemmtinn;* | *fimmtugur;* |
| *fimmt (fimmtudagur);* | *fimmtungur.* |

Á undan *s* skal og *mm* rita, þar sem uppruni stendur til, og er það:

1. í eig. eint. karlkynsnafna, er meginhlutinn endar á *mm,* enda verður *mm* heyranlegt þegar í gjör. eint., og í öllum hinum föllunum; þannig t. a. m.: *gamms,* af *gammur, hlemms,* af *hlemmur,* o. s. frv.;

2. í eig. eint. nokkurra hvorugkynsorða, er gjör. eint. endar á *mm,* eins og t. a. m.: *gjamms,* af *gjamm,* o. s. frv.;

3. í eig. eint. í karlkyni og hvorugkyni allra þeirra einkunna, er *mm* hafa í meginhlutanum, eða gjör. eint. í kvennkyni; þannig t. a. m.: *grimms,* af *grimmur, skamms,* af *skammur (skömm),* o. s. frv.

Athugasemd. *Opt er það, að fornmenn rita* mm, *eins og þeir tvöfalda ýmsa aðra samhljóðendur, á undan* t *eða* d, *þótt í meginhluta orðsins eigi sje nema* m, *en eigi er það eptirbreytnisvert.*

Á undan *st* skal og rita *mm* í efsta stigi einkunna þeirra, er stofninn, eða gjör. eint. í kvennkyni í frumstigi, endar á *mm;* þannig t. a. m.: *skemmstur,* af *skammur.*

Sögn mun sú engin, að *mm* fari nokkurstaðar næst á undan *st,* heldur að eins *m,* nema í 2. pers. skipunarháttar þolmyndar,

og mun sú mynd sjaldhöfð; en sje hún höfð, skal þar og rita *mm*, ef meginhluti sagnarinnar hefur í sjer *mm*.

Þá skal og rita *hrammsa*, með því það er myndað af *hrammur*, en eptir öðrum orðum man jeg eigi, þar sem *mm* skuli rita á undan *s*, og *s* heyri meginhlutanum til.

Á undan *z* á *mm* sjer einungis stað í sagnarbót þolsagnar, þegar *mm* verður heyranlegt í nafnhætti áhrifssagnar; þannig t. a. m.: *hremmzt*, af *hremma*, *skemmzt*, af *skemma*.

Á undan *r* á *mm* sjer stað í þiggj. og eig. eint. í kvennkyni, og eig. fleirt. í frumstigi einkunna og í miðstigi, er gjör. eint. í kvennkyni frumstigs endar á *mm*; þannig t. a. m.: *skammrar*, *skammri*, *skammri*, *skemmri*, o. s. frv.

Í endingum orða er það fljótast af að segja, að ávallt skal rita *m* að eins í niðurlagi, hvort heldur er í nöfnum, einkunnum, fornöfnum eða sögnum, enda þótt hljóðið sje *mm*, eða svo kunni að láta í eyrum; en endingin er *um*:

1. í þiggj. fleirt. allra nafna; þannig t. a. m.: *hestum*, *hestunum*, *hæðum*, *hæðunum*, *löndum*, *löndunum*, nema hvað *u* er fallið burtu í sumum þeim nöfnum, þar sem meginhlutinn endar á fláum hljóðstaf; þannig t. a. m. *ám*, *brúm*, enda heyrist þá ljóst, að einungis er *m* í niðurlaginu;

2. í þiggj. eint. í karlkyni, og þiggj. fleirt. einkunna og hluttekningarorða; þannig t. a. m.: *ríkum manni*, *ríkum mönnum*; eins skal rita þessi föll, sem þegar voru nefnd, í fornöfnunum, eins og t. a. m.: *honum*, *þessum*, *öðrum*, *hverjum*, o. s. frv.;

3. í 1. pers. fleirt. sagna; þannig t. a. m.: *kennum*, *kenndum*; *förum*, *fórum*, *færum*;

Athugasemd. *Þegar hið persónulega fornafn* vjer *stendur á eptir sögninni, þá heyrist opt ekki* m *í niðurlagi sagnarinnar í hversdaglegu tali, svo að einatt er sagt:* köllu vjer, föru vjer, *enda rita fornmenn opt svo, og er sá ritháttur þeirra ljós vottur þess, að þeir og hafa mælt svo; en eigi þykir nú á dögum rjett að sleppa* m.

4. í endingum ýmissa atviksorða; þannig t. a. m.: *löngum*, *stundum*, o. s. frv.; eru þess konar orð í raun rjettri eigi annað en þiggj. fleirt., ýmist af nöfnum eða einkunnum. *Langtum* er eig-

inlega samsett af *langt* (hvorugk. af *langur*), og fyrirsetningunni *um*, og væri rjettast að rita það í tveimur orðum.

5. Rita skal smáorðin *um* og *fram* með *m* að eins, þótt *mm* heyrist í framburðinum, og er sá ritháttur líka samkvæmur almennasta rithætti fornmanna.

Í öllum eins-atkvæðis-orðum (nema *um* og *fram*) lýsir framburðurinn því ljóslega, hvar rita skuli *m* eða *mm*, með því þar er glöggur munurinn; þannig t. a. m.: *pröm, töm, brim, fim* (af *fimur*), *hrím, kom, tóm, sum, húm, aum, eim,* o. s. frv.; en *skömm, dimm, fimm,* o. s. frv., og virðist því enga nauðsyn bera til, að greina neinar reglur fyrir því, hvar rita skuli *m* eða *mm* í þess konar orðum. Þó er það, að margir rita *ramur* (= sterkur, og líka, = bitur), en ef gætt er að þeim orðum, sem af því eru leidd, virðist það ljóst, að rita skal *rammur*; því að *remma* (bæði sögn og nafn) sýnir, að *mm* er í stofni orðsins.

Á hinn bóginn skal rita: *glam* (=glamur), en eigi *glamm*, og sjest það bæði á orðinu *glamur*, og eins á sögninni *glymja*. Eins segjum vjer *rummungur*, en rjettara er *rumungur* (af *rumur*).

Það getur enn verið, að óskýrt verði í framburðinum, hvort *m* er eða *mm*, þótt í enda atkvæðis sje, í samsettum eða afleiddum orðum, ef samhljóðandi fer á eptir, og verður því að gæta uppruna þeirra orða, og rita t. a. m.: *grimmlegur, grimmleikur,* af *grimmur*; *hremmmannlegur,* af *hremma,* o. s. frv.; en aptur *fimlegur,* af *fimur,* eða með öðrum orðum: að rita þar *mm* í hinu afleidda orði, er *mm* er í frumorðinu, en *m* í hinu afleidda orði, er *m* að eins er í frumorðinu.

Nú er opt sagt *gelmingur* fyrir *gemlingur* (af *gamall*), og er hin síðari myndin rjetthafðari; *mjámla* mun og rjettara en *mjálma* (af *mjám*).

Þá segjum vjer enn að *tingast* og *tingun,* en rjettara held jeg sje *tímgast* og *tímgun,* og orðin sjeu leidd af *tím-i*[1]).

---

[1]) *Sbr. Sn.-Ed. I, 26:* ok sá tími fylgdi ferð þeirra, at hvar sem þeir dvöldust í löndum, þá var þar ár ok friðr góðr.

*Fms. X, 175:* gangi þèr allt til tírs ok tíma.

*Dr. Scheving telur* tingun *og* tingast *rjett, og leiðir hann þessi orð af* tini (= *kjarninn í melstönginni*).

# III. kafli.

## 37. grein.

## Um upphafsstafi.

Upphafsstafi skal rita, þar sem nú skal greint.

1. Upphafsstaf skal hafa í upphafi greinar, og í upphafi þeirrar setningar, er depill (.) fer á undan, en eigi eptir neitt annað aðgreiningarmerki, nema því að eins, að depill felist í því um leið, t. a. m. eptir spurningarmerki, ef svar hennar fylgir á eptir, eða önnur spurning, sem sje laus við hina fyrri; en í áframhaldandi spurningum, þar sem hver er eins og áföst annari, þá skal eigi stóran staf rita. Sömuleiðis skal og stóran staf rita eptir tvísting (*kólon*), er á eptir hann koma orð einhvers, eins og hann talaði þau; því að þá verður eigi öðruvísi á litið, en að það sje setning sjer, eða að þar hefjist ný setning, en í hverju öðru skyni sem tvístingur er hafður, skal eigi stóran staf rita, og skal nú sýna dæmi þessa: *„Þetta sýsluðu menn í herbúðunum. Þó lèt Agamemnon ekki“*, o. s. frv. *„Hversu mega enir hugstóru Akkear veita þèr heiðursgjöf? Vèr vitum“*, o. s. frv. *„Þá tók Adrestus um knè hans og bað: „Gef mèr líf, Atreifsson“*, o. s. frv. En á hinn bóginn: *„Eins og þegar fótfrár hundur nær á hlaupi aptan í lærin eða þjóhnappana á villigelti eða ljóni, og hefur gát á, þegar það snýr sèr við: eins elti Hektor hina hárprúðu Akkea“*, o. s. frv.

2. Þá skal og rita stóran staf í upphafi allra eiginnafna (*nom. propr.*), það er í nöfnum manna, þjóða og þjóðflokka, landa, landshluta, bæja, og örnefnum öllum, hvers kyns sem eru; t. a. m.: *Hallvarður, Guðrún, Íslendingar, Húnvetningar, Englar, England, Norðymbraland, Lundúnir, Lundur, Giljá, Lagarfljót, Arnarfjörður, Deildarhamar, Svínadalur*, o. s. frv. Nú er annað orð skeytt framan við eiginnafn, og skal þá rita upphafsstaf beggja hlutanna stórum staf, og band á milli, t. a. m.: *Suður-Jótland, Suður-Reykir, Víga-Hektor, Gull-Ásu-Þórður*, en *vestra Gautland*, eða *Gautland hið vestra*, o. s. frv., eða með öðrum orðum, þar sem einkunn er höfð fyrir framan nafnið, sem þó má eins hafa fyrir aptan, þá skal rita hana litlum staf, og frálausa,

Á hinn bóginn skal rita litlum upphafsstaf allar einkunnir, er myndast kunna af eiginnöfnum; t. a. m.: *íslenzkur, enskur, skagfirzkur,* o. s. frv. Eins er um það, að eigi eru öll þau nöfn að rjettu lagi eiginnöfn, er höfð eru um einstaka landshluta, t. a. m. þau, sem eru hlutarheiti, eða nöfn, er nefna má með aðra hluta, þótt þau sjeu skeytt saman við eitthvert annað orð, er tekur vafann af, við hvern hlutann átt sje, og því síður þau hlutarheiti, sem höfð eru um tiltekna landshluta með því að bæta við einkunn, t. a. m.: *austurálfa, vesturálfa, miðjarðarhaf, íshafið nyrðra* og *syðra, hafið svarta, hafið rauða,* o. s. frv. En *Vesturheimur,* af því enginn annar hluti heimsins er kenndur við *heimur,* en vesturálfa er eins og heimur fyrir sig.

Að rita nöfn hátíða, tyllidaga og mánaða með stórum upphafsstaf, er með öllu rangt, og skal ávallt rita: *jól, páskar, þrettándi, janúarmánuður, júnímánuður,* o. s. frv.

## 38. grein.
## Um skiptingu atkvæða.

Nú er lína fyr á enda en ósamsett orð, svo að nokkur hluti þess verður að setjast í næstu línu, þá skal svo skipta, að samhljóðandi standi síðast í fyrri línunni, en hin næsta hefjist á hljóðstaf, það er með öðrum orðum, að samhljóðandi eða samhljóðendur, ef tveir eða fleiri standa saman, skulu fylgja undanfarandi samstöfu, en næsta samstafa hefjast á hljóðstaf, t. a. m.: *fuglunum* eða *fugl-unum, skipting-ur* eða *skipt-ingur.* Forðast skal að skipta orði þannig, að einn stafur orðs að eins setjist í næstu eptirfarandi línu, t. a. m.: *skipting-a, fugl-i,* o. s. frv., eigi vegna þess að það sje rangt, heldur fer mjög illa á því. Ef orð er samskeytt, þá skal láta þá stafi fylgja síðari hluta, er honum heyra, og láta hann óskertan, og eigi láta upphafs-samhljóðanda dragast til fyrra atkvæðis, og skal því rita t. a. m.: *Álf-hildur, Barðaströnd, lítil-magni, ill-girni, há-degi,* o. s. frv. Eins skal og fara með afleiðsluendinguna *legur,* láta *l* fylgja eptirfarandi samstöfu, en eigi undanfarandi, því svo er að kveðið: *sæl-legur,* en eigi *sæll-egur, vina-legur,* en eigi *vinal-egur, hunds-legur,* en eigi *hundsl-egur.*

## 39. grein.

## Um það, hvar rita skuli eitt eða fleiri orð.

Það er eitt það atriði, er örðugt er að semja svo ljósar reglur um, að ávallt sjeu einhlítar, enda yrði það svo langt mál, ef allt skyldi til tína, að eigi væri við hæfi þessa bæklings. En þó skal til greina nokkur atriði, er menn opt villast á, og enda þótt stutt verði yfir farið, mega þær reglur, er hjer verða ritnar, heldur verða til stuðnings, ef vel eru íhugaðar.

I. Hvar rita skuli nöfn í einu orði, en eigi tveimur.

1. Þegar stofn eða meginhluti orðs, endingarlaus að öllu, stendur framan við nafn, eru þessir tveir hlutar báðir eitt orð, og skal því rita þá í einu orði, hvort sem fyrri hlutinn er stofn nafns, einkunnar eða sagnar, og skal það eigi villa mönnum sjónir, þótt einhver mynd orðsins sjálfs kunni að líta út eins og stofninn; þannig t. a. m.: *hamarskapt, landvörn, hátíð, smáfiskur, stórtíðindi, illmæli.* Eins er um *al* og *fjöl,* t. a. m.: *alvizka, alþingi, almæli, fjölkynngi, fjölmæli,* o. s. frv.

2. Sömuleiðis skal öll smáorð rita áföst eptirfarandi nafni, og eins öll þess konar orð, er alls eigi geta staðið ein sjer, t. a. m.: *atför, átroðningur, ímyndun, velferð, velmegun.*

Það er svo sem sjálfsagt, að fyrirsetningar, er þær eru hafðar sem fyrirsetningar, eigi mega ritast áfastar eptirfarandi nafni, enda verða þær þá hafðar að eins með sumum föllum nafns, og aldrei með gjöranda.

Það lítur og mjög illa út, er margir, og það lærðir menn, rita t. a. m. *ístað* fyrir *í stað,* og væri kallað bögumæli, ef svo væri mælt, t. a. m.: *„Landsyfirrjettardómarinn var ístað* (fyrir: *í stað) fógetans,* því að *ístað* er á söðli, en *í stað* er sama sem *í staðinn fyrir.*

3. Þegar við meginhluta eða stofn nafns, einkunnar eða sagnar, er bætt *i* eða *u* (og kemur þá opt hljóðvarp fram í stofninum), skal það rita áfast eptirfarandi nafni, enda er þá þetta *i* eða *u* að eins samtengingarstafur *(Bindevocal),* og helzt ávallt, í hvert helzt fall hið samsetta orð er sett, t. a. m.: *förunautur, villimenn,* eða *villumenn, dæmisága, kennimaður,* o. s. frv.

4. Nú eru tvö nöfn sett saman, og stendur hið fyrra í eig-

anda, og getur þá helzt vafi á verið, hvort heldur skuli rita bæði orðin saman, eða hvort sjer. Þess ber þá að gæta, að nafn í eigandafalli, er ákveður annað nafn, skal í rjettri íslenzku standa á eptir hinu nafninu, ef tvö orð eru, nema því að eins, að einhver áherzla sje lögð á það nafnið, er í eiganda stendur; mun því sú regla nokkurn veginn áreiðanleg, að verði það nafnið, er í eiganda stendur, eigi sett síðar, eða á eptir hitt nafnið, svo að vel fari, eru bæði þessi nöfn eitt orð, og skal því rita þau í einu, t. a. m.: *fararleyfi, dýrastafur, sjávarströnd*; því að enginn segir: *leyfi farar, stafur dýra, strönd sjávar,* o. s. frv.

5. Ef enginn greinir er með eiganda, og þó með hinu nafninu, skal rita þau sem eitt orð, t. a. m. *sjávaröldurnar, húsasmiðurinn,* o. s. frv.

6. Nú stendur eigandi fyr, og er hann þá ávallt orð sjer, en eigi hluti samskeytts orðs, þegar greinirinn er með honum, og fer þó opt betur, að setja eig. síðar, t. a. m. *sjávarins öldur;* sömuleiðis ef einkunn eða fornafn fylgir eig., enda er þá opt lögð meiri áherzla á það nafnið, er í eig. stendur, en hitt, og má þó setja eig. síðar, t. a. m.: *það er góðs manns einkenni; þess manns lund.* Þessu skylt er það, að eig. getur staðið fyr, og þó frálaus, þótt hvorki einkunn nje fornafn fylgi honum, ef við einhvern einstakan og tiltekinn mann eða hlut er átt, en eigi hvern sem vera skal, og verður tilfinningin að segja bezt til um það, t. a. m. *Jeg sá konungs son,* er sama og: *Jeg sá son konungs* (þ. e. einhvers *þess konungs,* sem um er verið að tala), en: *Jeg sá konungsson,* er sama og: *einhvern þann mann, er* (einhvern ótiltekinn) *konung átti að föður,* enda verður fegra og rjettara, að setja eigandann síðar, ef eins stendur á og hjer í fyrra dæminu.

Athugasemd 1. *Þegar tvö orð í eiganda eiga við sama nafn, þá verður að rita þau frálaus, ef nafnið eigi er sett við báða eigendurna, t. a. m.:* líkama og sálar kraptar; *en viðkunnanlegra og rjettara er:* kraptar sálar og líkama, *eða þá:* sálarkrapar og líkamskraptar. *En þegar þess konar orð, er eigi verður haft sjer, heldur að eins sem síðari hluti orðs, er sett að eins við síðara eða síðasta orðið, er það á við, þá er það með öllu rangt og íslenzkri tungu óeðlilegt, enda þótt band sje sett á milli, t. a. m.*: athuga- og aðgánings-leysi, *fyrir:* athugaleysi og aðgánings-

leysi. *Þó skal rita* land- og bæjar-fógeti, *af því það er sami maðurinn, sem hefur bæði embættin; en ef það væru tveir menn, væri það rangt, og skyldi þá rita* landfógeti og bæjarfógeti; *eins* Kjósar- og Gullbringusýsla, *af því það er nú ein sýsla, eða það eru tvö ákvörðunarorðin við sama hlutinn; en eigi skal rita* Árnes- og Múlasýsla, *heldur* Árnessýsla og Múlasýsla.

Athugasemd 2. *Þegar sumir rita fornafn, og jafnvel einkunnir sumar með fullri fallendingu áfastar eptirfarandi nafni, þá er það með öllu rangt, t. a. m.:* einhvernveginn (*og* einhvernvegin), hverskonar, þessumegin, hinumegin annarsstaðar, einhversstaðar, allskostar, allskonar, *o. s. frv., fyrir:* einhvern veginn, hvers konar, þessu megin, hinu megin, einhvers staðar, *eða þá* einhverstaðar (*sem verður viðkunnanlegast*), annars staðar *eða* annarstaðar, alls kostar, alls konar.

II. Um samskeyttar einkunnir.

1. Þegar stofn nafns, einkunnar eða sagnar er settur framan við einkunn, skal ávallt svo á líta, sem þessi stofn sje hluti einkunnarinnar, og því rita hann áfastan henni; t. a. m.: *matvandur, ferðlítill, stórlyndur, hraðfara*, og því heldur skal það eitt orð, ef annarhvor hlutinn aldrei er hafður sjer, t. a. m. *stórvirkur, hroðvirkur, stærilátur*, af því *virkur* eða *látur* eigi er haft sem einkunn sjer í þeirri þýðingu (en *virkur dagur*), *auðsær*, af því *auð* er eigi til, nema að eins í samskeytingum eða afleiddum orðum. Eins er um *al, all* og *fjöl*, t. a. m.: *alvitur, almáttugur, allmikill, alllítill, fjölvitur*, o. s. frv.

2. Ef fyrirsagnir standa á undan einkunn, en stjórna eigi neinu falli, heldur að eins mynda nýja einkunn, eða nýja merkingu í einkunninni, þá skal rita þær áfastar einkunninni, og því heldur þær, sem eigi eru hafðar, að minnsta kosti í þeirri mynd, nema í samskeytingum, t. a. m.: *ágengur, úrvinda, afleitur, íendur, örendur, erlendur, andvígur, öndverður, gagnsær*, o. s. frv.

Atviksorð skal því að eins rita áföst einkunn, ef þau annaðhvort eigi eru höfð sjer, eða að eins sem hluti orðs, eða einkunnin eigi er til nema samsett, og eru það þau atviksorð, er merkja stað, t. a. m.: *innanverður, utanverður, neðanverður, ofanverður, framanverður, óvígur, ósvikinn.* Sum eru þau atviksorð, er viðkunnanlegra verður að hafa band á milli og ein-

kunnarinnar; t. a. m.: *afar-mikill, einkar-góður*. Önnur atviksorð, er einungis einskorða merkingu einkunnarinnar, eða kveða nákvæmar á, heldur en einkunnin sjálf gjörir, hvernig eitthvað sje, þau skal rita sjer, eða frálaus einkunnunum; t. a. m.: *mjög góður, vel hagur, of lítill, ákaflega stór,* o. s. frv.

3. Ef eigandi nafns stendur á undan einkunn, skal hann ávallt áfastur einkunninni, ef hann er hafður til nákvæmar að ákveða þann eiginlegleika hlutarins, er einkunnin nefnir, eða í hverju eiginlegleikinn sje fólginn, t. a. m.: *furðu-mikill, fjarska-hraður, forkunnar-fagur, einkar-fríður, gagnsmikill, gagnslítill.* Ef nafnið er tvö atkvæði, verður opt viðkunnanlegra að hafa band (-) á milli, einkum þá, er vjer leggjum nokkra áherzlu á síðari hlutann, eins og í hinum fjórum fyrstu orðum, er síðast voru tekin til dæmis. Á hinn bóginn er sjálfsagt, að rita eiganda, hvort heldur nafns eða fornafns, frálausan einkunn, ef hann stjórnast af einkunninni; t. a. m.: *jeg er eigi þess valdur;* enda má sjá það á áherzlunni, er hún er full á einkunninni, og eigandinn optast nær er rjettar settur fyrir aptan. Þær eru að eins fáar einkunnir, er með eiganda setjast, en á hinn bóginn mýmörg hluttekningarorð núlegs tíma, t. a. m.: *mikils varðandi, lítils valdandi,* o. s. frv.

III. Um fornöfn.

Fornöfn eru þau að eins fá, að saman sjeu sett, svo að í einu orði skuli rita, enda að eins er þau eru sett saman við stofn, en aldrei, er bæði orðin hafa fulla beygingu, eða báðir hlutarnir beygjast, t. a. m.: *sjerhver, einhver.* Hið eina samsetta fornafn, er báðir hlutar þess beygjast, er *annarhvor, öðrumhvorum,* o. s. frv.

IV. Um það, hve nær orð skuli áfast rita eptirfarandi sögn.

1. Stofn orðs skal ávallt rita áfastan eptirfarandi sögn, af hverju helzt orði stofninn er, ef hann aldrei breytist, hverja helzt mynd sem sögnin sjálf fær; t. a. m.: *hertaka, herræða, jafnkíta, munnhöggvast.*

2. Öll þau smáorð, er eigi verða höfð sjerstök í íslenzku, skal og rita áföst eptirfarandi sögn, t. a. m.: *vanvirða, svívirða,*

*mistrúa, tortryggja* Eins skal ávallt rita *of* áfast eptirfarandi sögn, t. a. m. *ofauka*[1].

3. Nú eru fyrirsetningar einatt settar fyrir framan sögn, og hafðar sem atviksorð, eða þannig, að ekkert nafn stendur hjá þeim, er þær stýri. Skal þá fyrst athuga, hvort fyrirsetningin eigi verður sett á eptir sögninni, án þess að hugsunin verði önnur en áður var, enda þótt þá verði að bæta inn í orði, er fyrirsetningin stjórni, og verði það, skal fyrirsetningin ávallt frálaus sögninni; t. a. m.: *„Hvað viltu fyrir gefa“ = „Hvað viltu gefa fyrir það“. á vinna = vinna á; frá hverfa = hverfa frá.* En verði fyrirsetningin eigi flutt aptur fyrir sögnina, eða merking sagnarinnar breytist við það, eða þá að sögnin eigi er til, nema með fyrirsetningunni, þá verður að rita hana áfasta sögninni, t. a. m.: *fyrirgefa = gefa upp (brot), íhuga, afhenda, ílendast,* o. s. frv. En enda þó að fyrirsetningin eigi sje rjett skeytt saman við sögnina sjálfa í nafnhætti, framsöguhætti, samtengingarhætti eða skipunarhætti, þá verður þó rjettast, að rita þær áfastar hluttekningarorðunum, er þau eru höfð sem einkunnir, eða einkunnarmerkingin ræður meir en sagnarmerkingin, eða með öðrum orðum, þegar þau eru höfð til að lýsa einhverju, en eigi til að segja frá, hvað gjört var, t. a. m.: *Hann kom tiltekinn dag,* en *dagurinn var til tekinn,* eða *tekinn til.*

Atviksorð skal eigi rita áföst neinni sögn, heldur frálaus, enda verða þau eins sett fyrir aptan eins og framan.

V. Um samskeytt atviksorð.

Þegar stofn orðs að eins fer undan atviksorði, skal hann jafnan rita áfastan eptirfarandi atviksorði, t. a. m.: *jafnvel.*

Þegar eigandi nafns er hafður til að einskorða nákvæmar merkingu eptirfarandi atviksorðs, skal hann rita áfastan því, og mun þá optast betur fara, að hafa band (-) á milli, t. a. m.: *furðu-vel, forkunnar-vel, fjarska-mjög, afbragðs-vel,* o. s. frv.

Fyrirsagnir skal og rita áfastar eptirfarandi atviksorði, er það

---

[1]) van *er reyndar haft sem nafn í talshættinum:* of eða van, *en líka þar að eins:* of *er aptur haft sjerstakt optar, sem nafn. t. a. m.* of fjár.

er leitt af einkunn þeirri, er skeytt er saman við fyrirsögn, t. a. m.: *afleitlega*, af *afleitur*, o. s. frv.

Þau orð, sem eigi eru höfð stök í íslenzku, skal rita áföst eptirfarandi atviksorði, enda mun þá atviksorðið leitt af samsettu nafni, einkunn eða sögn, t. a. m.: *svívirðilega, tortryggilega, vanvirðulega*, o. s. frv. Sömuleiðis skal þá rita *afar* og *einkar* áfast við eptirfarandi atviksorð, og fer þó betur, að hafa band á milli, og rita *afar-vel, einkar-haglega*, o. s. frv.

Sjálfsagt er að rita *gi* áfast undanfarandi orði, og rita *eigi, hvorki*, o. s. frv.

VI. Um fyrirsetningar.

Fyrirsetningar skal aldrei skeyta saman við undanfarandi orð, atviksorð eða fyrirsetningu, enda þótt sumir gjöri svo, heldur skal rita* þar hvort orðið sjer, t. a. m.: *kring um* og *í kring um, utan af, innan úr, gegn um*, og þó skal allra-sízt rita eitt orð, er áherzlan helzt á báðum orðunum, t. a. m.: *á meðal;* því að enginn mælir svo, að *með* verði áherzlulaust, og segi *ámeðal*, enda lítur það mjög illa út, og væri kallað bögumæli, ef svo væri mælt.

VII. Um samtengingarorð.

Engin samtengingarorð eru þau samsett, að rita skuli í einu lagi, nema *annaðhvort, sumpart* og *þótt*, er sú mynd er höfð fyrir *þó að*. Í fornri íslenzku er og haft *svát* = *svá at* = *svo að*, en nú er sú mynd úrelt. Annars skal rita t. a. m.: *samt sem áður, eins og, á meðan*, o. s. frv., hvern hlutann sjer.

## 40. grein,

## Um aðgreiningarmerkin.

Þar er það atriði, að varla mun auðið, að rita svo ljósar reglur um, að almenningi verði til hlítar, eða að allt verði til tínt, bæði hvar aðgreiningarmerkin skuli setja, og hvar hvert, enda mætti það verða langt mál, og þó eigi allt tínt; tilfinningin ein verður víða til að segja; enda eru aðgreiningarmerki víða komin undir því, hvernig sá hugsar, er ritar; því að á sumum stöðum skal aðgreiningarmerki eitthvert setja, en á sumum eigi, þótt orðin sjeu hin sömu; og sumstaðar er högg (,) rjettast sett, þar

sem depilhögg (;), eða jafnvel depill (.), er rjettar sett á öðrum, þótt orðin sjeu enn hin sömu; þess konar er komið undir hugsun hvers eins á hverjum staðnum fyrir sig. En hitt er víst, að aðgreiningarmerkin þurfa að vera, og það er eins rangt, að sleppa þeim, þar sem þau eiga að vera, eða setja þau, er þau ekki skal setja, eins og að rita orð rangt, nema verra sje, og því skal raun til gjöra, að skýra þetta mál að nokkru, og mætti það verða til stuðnings, þótt eigi verði það algjört.

## I. Um högg.

1. Högg (,) [*komma*] skal setja við enda hvers kafla málsgreinar; en hver sögn, með þeim orðum, er henni fylgia, er málsgreinarkafli, er þó er tengdur með einhverju orði við það, sem undan fer eða eptir, eða stendur í svo nánu sambandi við það, að hugsa má, að samtengingarorðinu sje sleppt; því skal setja högg, þegar á eptir fer: *og, heldur, heldur og, heldur líka, nje, ekki heldur, eða; þar eð, með því að; að, svo að, til þess að, vegna þess að; eptir að, meðan, þegar, er, þá er, undir eins og, svo opt sem, hversu opt sem, áður en, fyr en; þá, ef, svo framarlega sem; en, þótt, jafnvel þótt, hví, hvort, hversu,* ef sögn fer á eptir þessum orðum, og sú setning er leidd af hinni undanfarandi, t. a. m.: *„Hektor skundaði út úr húsinu, og fór sama veg aptur um hin vel lögðu stræti“. „og mjög er það að ósynju, að frægð mikil fer af þjer“. „Nú heyri eg þig það segja, að þú sjert eigi svo frjáls, að þú megir gjöra það“. „Stór dynur verður í fjalldölum, svo að heyrist langar leiðir, þegar menn höggva eikur í skógi“. „Nú sem Hektor sá, . . að hann hörfaði undan, þá gekk hann um fylkingarnar“.* Stundum fer engin sögn á eptir, og skal þó högg rita, ef sögnina má taka upp aptur, og hún er höfð í huganum, t. a. m. *Þú kennir ekki í brjósti um þinn unga son, og ekki um mig“.*

Athugasemd 1. *Ef* og *tengir saman að eins tvö orð, skal eigi högg setja á undan því, nema því að eins, að einhver sjerstök áherzla liggi á hinu síðara orðinu, eða einhver skýring eða viðauki komi á eptir, sem að eins á við síðara orðið, þá verður rjettara að hafa högg á undan* og, *t. a. m.:* „Hann hafði hjálm, og skjöld, allan steindan“. *En standi fleiri nöfn en tvö saman,*

*og* og *á milli hvers eins, þá skal annaðhvort setja högg á milli allra eða engra.*

Athugasemd 2. *Ef tilvísunarfornafn er komið á undan* að, *sem þó stjórnast af þeirri sögn, er eptir fer, skal eigi högg setja á undan* að, *t. a. m.:* „Það var það, sem jeg sagði að hann skyldi gjöra“.

Athugasemd 3. *Ekki er þessar reglur þó svo að skilja, að ávallt skuli setja högg, og ekkert annað aðgreiningarmerki, á undan neinum þessum samtengingarorðum; opt má og á að vera depilhögg, og stundum depill á undan þeim, ef sú setningin, er samtengingarorðið fylgir, eigi er bundin við hina undanfarandi setningu, en eigi verður nákvæmari grein fyrir því gjörð; á það sjer opt stað, einkum með og, og skal hjer sýna dæmi þess:* „Hafði enginn Trójumanna þor til, að ganga móti hinum fræga Menelási; og þar hefði Atreifsson auðveldlega náð hinum góðu vopnum“, *o. s. frv.*

Athugasemd 4. *Opt er* þá *sleppt í upphafi síðari hluta setningar, og skal eins setja högg á undan allt fyrir það; þannig t. a. m.:* En er Patróklus hafði fengið höggið . . . . , hörfaði hann aptur í flokk fjelaga sinna“.

Að öðru leyti skal þess getið, að afleidda setningin einatt stendur á undan hinni beinu setningu, og getur samtengingarorðið þá ýmist staðið á eptir depilhögg eða depil; það er undir því komið, í hve nánu sambandi setningarnar eru, og verður eigi auðið, að gefa þar reglur um.

Á undan *en* (= *heldur en*) skal ávallt högg, en aldrei depilhögg eða depill, t. a. m.: „*Ráð Seifs eru jafnan ríkari, en mannleg ráð*“. Þó má opt verða, að höggi sje sleppt á undan *en*, og það verði að minnsta kosti viðkunnanlegra, er nöfn þau, sem saman er líkt, standa í óbeinum föllum, þol., þiggj., eða eig., eða síðari liðurinn er að eins eitt orð, enda þótt það standi í gjör., t. a.m.: „*Enginn hefur komið spjótalagi á Patróklus í hinni hörðu orustu fyrri en jeg*“. „*Hann gagnaði öðrum meir en sjer*“. „*Hún elskaði hann meir en sig*“.

Á undan *en* (= *m e n* á dönsku) skal stundum högg, stundum depilhögg, og stundum depill, allt eptir því, hvort það, sem á eptir fer, myndar beina mótsetningu við það, sem á undan er komið, eða það er haft fremur sem samtenging millum tveggja

setninga, er eigi eru gagnstœðar hvor annari, en standa þó í nokkru sambandi hvor við aðra, og hin síðari eins og áframhald frásagnarinnar í hinni fyrri, eða þá, að það er haft eins og til að fegra málið, og því má vel sleppa, án þess að hugsunin breytist að neinu, t. a. m.: *„Hönd skal í róstu reyna, en ræðu á þingi“. „Er því ekki vert, að hafa mörg orð, en berjast heldur“.* Og sjest það á þessum dœmum, að þá skal högg setja, er þau orðin, er á eptir fara, eigi mynda fulla setningu, en lána verður úr hinu undanfarandi, svo að ljóst mál verði. *„Hann vó fyrst Adrastus . . ., en allir aðrir lögðu á flótta“. „Hann var allur hulinn skotvopnum og blóði og moldryki frá hvirfli til ilja; en þeir þyrptust kring um líkið“. „Menelás . . . hjet á föður Seif; en í því Evforbus hörfaði aptur, lagði Menelás í hóst honum“. „Hektor var á tveim áttum, hvort hann skyldi . . . . biðja þá safnast saman á borgarveggnum. En er hann hugsaði þetta með sjer, þá“*, o. s. frv.

2. Undan spurningarfornöfnunum: *hver, hvor, hvað,* í hverju falli sem standa, skal högg setja, ef sá málsgreinarkafli, er á þeim hefst, er leiddur af því, sem á undan er komið, t. a. m.: *„hitt er satt, að eg veit, hverjir valda“. — „Hann spurði, hvað það væri“.* Sje tilvísunarfornafn komið á undan, sem stjórnist af þeirri sögn, er síðar fari en spurningarfornafnið, skal eigi setja högg á undan spurningarfornafninu; þannig t. a. m.: *„það er hestur, sem enginn veit hver á“.*

3. Á undan tilvísunarfornafni, *sem, er,* skal ávallt högg setja, og eins þegar tilvísunarsetningin er á enda, sem opt er skotið inn í miðja setningu, t. a. m.: *„Víst er sá maður furðu-ljettur, er svo kollsteypir fimlega“. „en hundar og hjarðmenn, sem í kring um það eru, standa langt frá“.* Nú er það þráfalt, að ábendingarfornafn stendur næst á undan tilvísunarfornafninu, og er fremur haft til málfegurðar og málfyllingar, og skal þá höggið setja á undan ábendingarfornafninu, og það eins fyrir það, þótt eigi standi það í sama falli og tilvísunarfornafnið; en fari ekkert nafn á undan, en ábendingarfornafnið sje beint haft í stað nafns, eða þá að menn herði á því í framburðinum, þá skal höggið setja á eptir

það; þannig t. a. m.: *„Svo sem fjallaljón, það er treystir afli sínu“. „Um hina fársfullu heiptarreiði . . . , þá er olli Akkeum ótölulegra mannrauna“.* En: *„Gáir heimskur að því, sem gjört er“.* Þó getur það verið, að tilvísunarfornafnið sje í svo nánu sambandi við undanfarið ábendingarfornafn, að þau í sameiningu sjeu ein hugmynd, og því skuli eigi högg setja á millum þeirra, og er það einkum í byrjun setningar, er nafnið, sem fornafnið svarar til, kemur á eptir, eða ábendingarfornafnið ítrekað.

4. Nú er nafn eða fornafn sett, og þó á eptir sett eitthvert annað nafn, eins og hinu fyrra til útskýringar, eða til þess nákvæmar að ákveða það *(appositio)*, og skal ávallt greina viðauka þann frá því, er undan fer, með höggi, og eins skal högg á eptir, ef eigi er setningarlagi svo varið, að depilhögg skuli vera eða depill, t. a. m.: *„Þeir höfðu eitt sinn deilt og skilið ósáttir, herkonungurinn Atreifsson og hinn ágæti Akkilles“. „Fjekk hann svo í hendur hinum skjótu ferjendum til flutnings, þeim tvíburunum, Blund og Bana“.* Þó verður viðkunnanlegra, að sleppa högginu, ef viðaukinn er að eins eitt nafn og fornafn gengur á undan, og liggi áherzla á hvorugu orðinu, eins og vjer nú t. a. m. segjum: *„hann Magnús“, „hún Guðrún“.* eða: *„þeir Þórður“*, fyrir: *„Þórður og hans menn“*, o. s. frv.

Af þessari reglu leiðir það, að setja skal högg á undan *að* með nafnhætti, er nafn eða fornafn er gengið á undan, og nafnhátturinn með þeim orðum, er honum fylgja, verður svo sem útskýring nafnsins eða fornafnsins; opt er og fornafninu sleppt, og skal þó höggið setja, ef fornafninu má inn skjóta, án þess málið haggist, t. a. m.: *„Hann kvað hina mestu nauðsyn, að ríða eptir þeim“. „Ræð jeg þjer heldur, að hörfa aptur í flokkinn“.* Ef *til* fer næst á undan *að,* skal höggið ýmist setja á undan því eða eptir, allt eptir því, hvernig mælt væri, t. a. m.: *„Enginn hafði þor til, að ganga á móti ljóninu“;* en: *„það brýzt inn í fjárhús, til að ræna“.* Ef eigi fer *að* á undan nafnhættinum, þá skal eigi heldur högg setja á undan honum, og á það sjer stað með hjálparsögnunum, t. a. m.: *munu, skulu,* og eins *vilja, segjast, látast, kveðast,* t. a. m.: *„Þú munt sjálfur eigi lengi lifa“.*

*„Nú skal reyna þennan kappleik“. „Hann vildi hvergi fara“*, o. s. frv.

Opt getur og svo verið, að *að* fari með nafnhættinum, og skal eigi högg setja á undan því, ef eigi verður svo á litið, að nafnháttur sje skýring neins undanfarandi nafns eða fornafns, eða það verði undirskilið, og fær þá opt sögnin, sem með fer, eins konar blæ hjálparsagnar; þannig t. a. m.: *„Hann fór að leita“. „Hann gekk að eiga hana“. „Eg þarf eigi að spyrja, hvað þú heitir“. „Hundar og hjarðmenn . . . . þora ekki að ganga móti ljóninu“. „Bjóð mjer ekki að sitja“. „Nú er að segja frá Kára“. „Meðan hann var að fletta hann vopnunum“. „Hann ætlaði að fara“. „Hann gjörði það að, er hann átti að gjöra“. Jeg verð (hlýt, má til) að gjöra það“*, o. s. frv.

Hjer á og við að geta þess, að þegar orðum er hleypt inn í setningu, eða sett aptan við, er fremur eru til útskýringar, eða til þess, að kveða nákvæmar á um eitthvað, án þess þeirra orða þurfi beinlínis við málsins vegna, þá skal greina þau frá hinu undanfarandi með höggi, og eins skal setja högg á eptir, eða þá depilhögg, eða depil, ef svo er setningarlagi farið, t. a. m.: *„Hann á kerru, fagurbúna gulli og silfri“. „Hinn ágæti Odysseifur hóf vopnin hátt upp með hendi sinni, hinni fengsælu Aþenu til dýrðar“. „Svo mun hann hafa sagt við þig, og blekkt svo huga þinn, óforsjáls manns“.*

5. Þegar einhver er ávarpaður með nafni, þá skal ávallt greina það eða þau orð frá því, sem undan er komið, með höggi, og eins frá því, er eptir fer, nema depilhögg eða depill skuli vera; þannig t. a. m.: *„Kveð þú, gyðja, um hina fársfullu heiptarreiði“*, o. s. frv. *„Heyr nú, kæri Febus, gakk úr skotmáli“.*

6. Nú er upptalning, og mörg orð sett saman án samtengingarorðs, og skal þá högg milli hvers eins; þannig t. a. m.: *„Hann hafði silkitreyju, hjálm gylltan, og skjöld, og var dregið á leó“. „Þegar er hin fagra, rósfingraða Morgungyðja kemur í ljós“.* Eins ef fleiri en ein einkunn á við sama nafn, þá skal og setja högg á millum þeirra; þannig t. a. m.: *„Hið langskepta spjót, sem var þungt, stórt, sterkt og eirbúið“.*

## II. Um depilhögg (;).

1. Þá skal *depilhögg* (;) [*semíkólon*] setja, er málsgrein er á enda, og á eptir kemur bein setning, er alls eigi er leidd af hinni fyrri, en er þó áframhald þess, sem frá er verið að segja, er nafn eða fornafn stendur í upphafi hennar, og verður þó opt vafasamt, hvort setja skuli depilhögg eða depil, og opt hvorttveggja jafnrjett; þannig t. a. m.: *„Þetta voru orð hans; Ajant og báðir kallararnir . . . eru hjer til vitnis“. „Hann tók upp hinn fagra hlífskjöld; hann var gerður með miklum hagleik; um kring á honum voru tíu baugrendur af eiri, og tuttugu hvítar bólur af tini, og í miðjunni nöf af svörtu blástáli; á skildinum allt í kring var Gorgó,“* o. s. frv.

2. Þegar bein setning byrjar á sögn, og engu samtengingarorði er sleppt, t. a. m. *þá,* verður það optast rjettast, að hafa depilhögg á undan; þannig t. a. m.: *„Þar stóð gyðjan upprjett, og kallaði bæði hátt og ógurlega*; *kom hún miklum þrótt í hjarta sjerhvers af Akkeum“.* Þó má það stundum verða, að depil skuli setja.

3. Á undan *því að* verður og rjett að hafa depilhögg, nema því að eins, að setningin standi í því nánara sambandi við hina undanfarandi; enda er þá lögð áherzla á *því,* og skal þá setja högg á eptir *því;* en að rjett sje, að setja depilhögg á undan *því að,* sjest ljóslega á því, að sleppa má *því að,* án þess þó að málið haggist að neinu, eða hugsunin verði önnur, en setningin, sem hefst á *því að* eða *því,* verður útskýring hins undanfarna, en eigi orsök þess; þannig t. a. m.: *„Því næst færði hann sig í brynju þá, sem Kinýras hafði forðum gefið honum að gestgjöf; því* (= *því að) Kinýras hafði frjett til Kýpur þann mikla frama, að Akkear ætluðu að sigla á skipum til Trójuborgar, og gaf því konunginum brynjuna í vináttuskyni“.*

4. Optast skal og depilhögg á undan, er eptirfarandi setning hefst á *aptur á móti, þó* (eigi: *þótt), þrátt fyrir það, því næst,* og öðrum fleirum þess konar orðum. Um *en* hefur áður verið talað.

### III. Um depil (.).

*Depil* (.) [*púnktur*] skal þá setja, er málsgrein með öllum aukasetningum er á enda, svo að ekkert vanti til þess, að fullljóst mál verði, og menn því hverfa eins og að öðru efni. Þó getur stundum verið, að depilhögg verði viðfelldnara á sumum stöðum, og verða eigi neinar skýrar reglur um það gefnar, hvar depil skuli setja, og hvar depilhögg, ef vafi getur á því verið, heldur verður tilfinningin að leiðbeina mönnum í því efni, hve náið sambandið er á millum þeirra tveggja setninga. Sbr. það, sem sagt hefur verið um depilhögg.

### IV. Um tvísting (:).

*Tvísting* (:) [*kólon*] skal því að eins hafa, að á eptir fari orð einhvers, eins og þau voru af honum mælt, eða þá eitthvert dœmi því til útskýringar, sem um er verið að tala; þannig t. a. m.: „*Þá stóð upp hinn fóthvati Akkilles, og mælti:* „*Með því bæði styrjöld og drepsótt verða*“, o. s. frv. Það er og venja að setja tilvísunarmerkið („—“) fyrir og eptir orð einhvers, eins og sjá má dœmi hjer, og er það rjett, og tvöfalda þá tilvísunarmerkið, er í beinni rœðu eru af hinum mælanda tilfœrð orð enn annars. En sje orð einhvers sögð með orðum höfundarins, svo að sú setning stjórnist af einhverri undanfarinni sögn eða samtengingarorði, þá skal hvorki setja tvísting eða tilvísunarmerki; þannig t. a. m. ef dœminu hjer á undan væri snúið við og sagt: „*Þá stóð upp hinn fóthvati Akkilles og mælti, að með því styrjöld og drepsótt yrðu*“.

### V. Um spurningarmerkið (?).

*Spurningarmerki* (?) skal að eins setja á eptir beinar spurningar, en annars alls ekki; þannig t. a. m.: „*Hví grætur þú, barn?*“ „*Hví sækir harmur heim hjarta þitt?*“ En aptur: „*Hann spurði hana, hví hún grjeti, hví harmur sækti hjarta hennar heim.*

### VI. Um köllunarmerkið (!).

*Köllunarmerkið* (!) er með öllu óþarft í íslenzku, og væri án efa rjettast alls eigi að hafa það, heldur að eins eitthvert hinna aðgreiningarmerkjanna, eptir því sem á stendur í hvert skipti. En

sje það sett, skal það að eins á eptir þeim orðum, er mælt eru í geðshrœringum; þannig t. a. m.: „*Guð hjálpi mjer!*“ „*Mikil ósköp!*“ og þar fram eptir götunum.

---

Um önnur merki, en þau, sem nú eru þegar greind, er óþarfi að tala á þessum stað, enda flest óþörf, og bönd ein.

Að öðru leyti getur settlegur og fagur lestur mjög greitt fyrir með aðgreiningarmerkin, hvar þau skuli setja, og hvar hvert; því að mönnum verður það ósjálfrátt, að nema málsstaðar, þar sem þau skal setja.



